o

# FORELDRAR OG BÖRN.

## Uppeldisleiðarvísir.

---


Íslenzkað og samið hefir

**Ólafur Ólafsson**

prestur að Arnarbæli.



Reykjavík.

Á kostnað hins ísl. Þjóðvinafjelags.

Ísafoldarprentsmiðja.

1894.

## Efnisskrá.





# I. kafli.

## Ætlunarverk foreldranna.

»Á hverju hefir þjóð vor nú mesta þörf?« Á þessa leið spyr margur alvörugefinn maður um þessar mundir. Svörin verða ýmisleg, sem við er að búast. Einn segir: »Vjer þurfum helzt af öllu meira stjórnfrelsi«. Annar: »Vjer þurfum að auka og bæta samgöngurnar«. Þriðji: »Vjer þurfum að efla atvinnuvegina«; o. s. frv. Ekki er því að neita, að allt er þetta nauðsynlegt, en þó er ekkert af því hið nauðsynlegasta. Við oss Íslendinga, eins og raunar fleiri þjóðir, má segja: »Þjer hafið mjög miklar áhyggjur og umsvif fyrir mörgu, en eitt er nauðsynlegt«. Þetta »eina nauðsynlega« er umbót, stór umbót á uppeldi barna og unglinga. Hið »eina nauðsynlega«, hið nauðsynlegasta er, að börn vor verði sannir föðurbetrungar bæði í andlegum og líkamlegum efnum. Vjer þurfum að ala upp nýja kynslóð með heitari trú, hreinna siðgæði, meiri kærleika, námfúsari á allan sannan fróðleik og menntun, með meiri virðingu fyrir því, sem fagurt er, gott og háleitt, með meiri mannkostum, dugnaði og drengskap. Þetta er hið fyrsta og æðsta

boðorð; ef vjer rækjum það, þá mun oss allt annað veitast. Þetta er hin sanna undirstaða allrar velferðar bæði í andlegum og líkamlegum efnum; en — »varðar mest til allra orða, að undirstaðan rjett sje fundin«.

Uppeldi barnanna er sannarlegt vandaverk, og þó má segja, að það sje æði-fátt, sem menn kasti eins höndunum til. Þetta er harður, en því miður sannur dómur. Allir þykjast kunna það og geta, en fæstir hafa þó hugsað um það og nærfelt enginn lært það. Vjer sendum syni vora í latínuskólann, prestaskólann, læknaskólann og háskólann til þess að þeir geti orðið embættismenn, í gagnfræðaskólana til þess að þeir fái almenna menntun, í búnaðarskólana til þess, að þeir læri að yrkja jörðina, í sjómannaskólann til þess að þeir geti stundað sjóinn; já, vjer Sunnlendingar sendum þá norður í Bárðardal til þess að læra að hirða sauðfjenað, ala upp fallegar ær og hrúta. Vjer sendum dætur vorar í kvennaskólana til þess að læra að sníða og sauma föt, búa til mat og fleira þess háttar. En—hvar læra menn að ala upp börn og unglinga, svo að úr þeim verði nýtir og góðir menn? Hvergi. Og þó er þetta hin vandasamasta list, sem til er; ef það fer í handaskolum, þá stafar af því meira tjón en nokkru öðru. Í því efni er reynslan ólygnasti votturinn; hún er dómari sá, sem ekki dugir að deila við. Á vandamesta verkið, sem menn hafa með höndum, er mönnum ætlað að »slampast«; því er ætlað að fara, sem það fara vill. Ávextirnir og afleiðingarnar fara og tíðum þar eptir.

Ef þjer er falið vandaverk á hendur, þá finnur þú til vanmáttar þíns og þú leitar þjer hjálpar hjá þeim, sem betur kunna. Þetta er í alla staði eðlilegt og á svo að vera. En er guð fær þjer í hendur sál og líkama saklauss barns, sem á alla sína velferð undir þeirri aðhjúkrun, aðbúnaði og meðferð, sem það nýtur frá þinni hendi, þá þykist þú fær í allan sjó og ekki þurfa leiðbeiningar við frá annara hendi. Í þeim efnum má segja um menn, að þeir »kenna sín ekki fyrr en þeir koma að hjartanu«; þeir byrgja ekki brunninn fyr en börnin eru dottin í hann. — Menn kannast ekki við vanmáttinn og vanþekkinguna fyr en ávextir uppeldisins eru farnir að koma í ljós, börnin búin að rata í einhverja ógæfuna, andlega eða líkamlega. —

Vjer segjum í daglegu tali: »Það er engum list, sem hann leikur ekki«. Læknirinn fæst ekki við guðfræði, lögfræðingurinn ekki við læknisfræði, sjómaðurinn ekki við búfræði, gullsmiðurinn ekki við vatnsveitingar o. s. frv. Hver leggur stund á það, sem hann hefir numið, og játar í hreinskilni, eins og á að vera, að hann hafi ekki vit á því, sem ekki snertir iðn hans. En þegar um uppeldi barna er að ræða, þá þykjast flestir fullnuma. Og þótt undarlegt sje, þá tala þeir, sem engin börn eiga, opt digurmannlegast um barnauppeldi. »Ætti jeg hann, drenginn þann arna«, segir Pjetur, »þá skyldi jeg ekki vera lengi að hugsa mig um, hvað jeg ætti að gjöra«.

En — »hægra er um að tala en í komast«. Eldurinn er lengi búinn að lifa í glæðunum áður en

hann brýzt út í ljósan loga. Áður en barnið sekkur í iðukasti spillingar og ógæfu, þá má ganga að því vísu, að margra bjargráða er búið að leita barninu til frelsis. Áður en föðurhúsin lokast að baki hinum glataða syni, þá er faðir og móðir án efa búin að líða og stríða, biðja og andvarpa um frelsun barnsins síns, og þó eru, ef til vill, eigin glappaskot þeirra orsökin að því, að blóð barnsins kemur yfir höfuð þeim. —

Flestir takast barnauppeldi á hendur án alls undirbúnings. Þeir eru miklu fæstir af öllum þorra manna, er ljóslega þekki skyldur þær, sem þeir í því efni hafa að rækja, og þeir eru vanalega jafnfáir, sem kannast við vanmátt sinn og vanþekkingu. Til hafa verið, og eru ef til vill enn þá, stórbændur, sem með snilld og dugnaði hafa stjórnað stóru heimili og gegnt mörgum opinberum störfum með heiðri og sóma, en hafa samt hvorki haft lag nje kunnáttu til að ala upp börnin sín og gjöra úr þeim nýtar og góðar manneskjur. Margur margra barna faðir safnar bæði auði og frægð, en eignast þó ekki það, sem er bezta eign allra foreldra, sem sje góð börn, mannvænleg börn, sem vinni ættjörðinni gagn og gjöri sjer og foreldrunum sóma.

Ekki þarf að efast um, að allir foreldrar vilji börnum sínum allt hið bezta; en þrátt fyrir hinn góða vilja fer barnauppeldið í handaskolum hjá ærið mörgum foreldrum. Má af því marka, hvílíkt vandaverk það er. Það er sorglegt, þegar móðirin snýr sjer undan og tárfellir, þegar minnzt er á barnið hennar, eða faðirinn þarf að blygðast sín,

þegar tilrætt er um æskulýðinn. Andstreymið og bölið, sem mannlífinu fylgir, er margvíslegt; en hið þyngsta böl og hin sárasta raun er, að sjá barnið sitt hrapa í ógæfu spillingar og lasta. — »Ólán barnanna er meira en að það taki tárum«. Vjer ætlum því, að þau orð sjeu ekki töluð út í bláinn, sem miða til þess að afstýra þeim ósköpum.

Mark það, sem allir foreldrar eiga að hafa fyrir augum, er:

*að gjöra börnin sjálf-fær.*

Í þessu efni kemur tvennt til greina:

*Hvers foreldrunum ber að gæta, og hvað þeim ber að varast.*

Þegar maðurinn fæðist, er hann fremur öllum skepnum vanmegna og vanmáttugur. Hann er í öllum hlutum kominn upp á móðurina. Móðirin verður bæði að mata barnið og hreifa það. Ætlunarverk hennar er því, að veita barninu þann lífsþrótt og lífsmegin, að það sem fyrst verði sjálfbjarga. Að matast og hreifast eru hin fyrstu stig lífsins hjá barninu, og það er undirstaða annars meira, að það í þessum efnum læri sem fyrst að hjálpa sjer sjálft. Satt er það, að móðurhöndin er mjúk og holl, en önnur hönd er manninum samt hollari, mannsins eigin hönd. »Sjálfs er höndin hollust«. Að barnið læri, og það sem fyrst, að nota eigin hendur sínar og fætur, er upphaf þess, að barnið verði að sjálf-færum manni. Dálæti mæðranna, sem kemur fram í því að mata börnin og bera þau lengur en þörf er á, er börnunum beinlínis skaðlegt og óhollt. Hjegómadekrið við sum auðmannabörn er ógæfuefni; til þess má og

nefna mörg dæmi. Á efnalitlum heimilum verða börnin snemma að hirða sig sjálf; en þau verða og snemma heilsugóð, fjörug og tápmikil. Orsökin er öllum auðsæ: hjegómadekrið heptir framförina. Móðirin á því að haga uppeldi barna sinna svo, að hún geti sem fyrst sleppt af þeim hendinni.

Með aldrinum tekur barnið andlegum og líkamlegum þroska, meðfæddir kraptar og hæfileikar vakna af blundi. Barnið þarf því bæði andlega og líkamlega fæðslu. Vitið þarf fæðslu engu síður en maginn, viljinn þarf að stælast engu síður en vöðvarnir, lundin og skapferlið að myndast og lagast engu síður en líkaminn. Þessu mega þeir ekki gleyma, sem börn eiga upp að ala. Uppeldið á allt að miða að því, að vekja og glæða allar góðar tilfinningar hjá börnunum, og veita þeim þann þroska, að þær beri ávexti í lífi þeirra síðar meir.

Hversu háum aldri sem maðurinn nær, þá verður hann aldrei fullnuma í skóla lífsins. Viljinn þarf æ að styrkjast, skynsemin æ að menntast, fegurðartilfinning og sannleiksást æ að glæðast og hjarta og sál æ að verða hreinna. Mark uppeldisins er því það, að börnin venjist á *að stunda af eigin hvöt* að taka sífelldum framförum.

Faðirinn starfar og vinnur baki brotnu til þess að geta veitt barni sínu sæmilegt lífsuppeldi; en barnið á að verða sjálf-fært og sjálfbjarga, svo að það verði ekki æ upp á föðurinn komið. Faðir og móðir leitast við með orðum og verkum, með dæmi og áminningum, að bæta úr hinum andlegu þörfum barnsins. En barnið á að verða sjálf-fært

og sjálfbjarga, svo að það einnig í þessum efnum geti hjálpað sjer sjálft. Fyr eða síðar skilja faðir og móðir við barn sitt og á skilnaðarstundinni er þeim það huggun mikil, að vita, að barnið er ekki hjálparlaus aumingi; eins og hitt er þeim ábyrgðarhluti, ef þau vita með sjálfum sjer, að víti þeirra og vanræksla kemur í koll saklausum börnum þeirra.

Margt nám er mönnum torvelt; en hið torveldasta er, *að læra að beina viljanum í rjetta átt.* Til þessa þarf barnið fremur öllu öðru hjálp frá foreldranna hendi, því hjálparlaust lærir það þetta ekki. Seint eða snemma lokast föðurhúsin að baki hverjum ungling; hann leggur lífsbát sínum út á hið dularfulla djúp örlaganna; sjálfur á hann þá að setjast undir stýrið og taka stjórntaumana sjer í hönd.' Þá er allt undir því komið, að hann þekki hina rjettu stefnu og vilji halda í hina rjettu átt. Geti faðir og móðir þá sagt: »Jeg ber ekki áhyggju fyrir barninu mínu; jeg hef sagt því glögglega til vegar, vona því, að það sneiði hjá skerjunum og boðunum og taki land á ströndum fyrirheitna landsins«, þá er ætlunarverki foreldranna lokið með sóma.

Sje þetta rjett, sem hjer hefir verið sagt, þá er það líka víst, að allt það, sem miðar til þess að gjöra barnið í reifunum að nytsömum og góðum manni, felst í þessari meginreglu: *Að gjöra börnin sjálf-fær.* Höfum vjer þá drepið á, hvers foreldrarnir eiga að gæta. En þá ber að minnast þess, hvað þau eiga að varast; það er: . *Sjálfselskan.*

Sumir eru þeir foreldrar, er finnst, að börnin sjeu til vegna þeirra. Fyrir vorum sjónum er þetta á aðra leið; foreldrarnir eru til vegna barnanna. Börnin eru hvorki þrælar foreldranna nje þjónar, og heldur ekki leikfang þeirra.

Æfimið hvers barns er, að það verði sjálfstæður og dyggðugur maður, og það er skylda vor, að greiða börnunum veg að þessu takmarki.

En þessi skoðun útilykur sjálfselsku foreldranna, því að

*börnin eru ekki vegna foreldranna, heldur eru foreldrarnir vegna barnanna.*

Skiljist mönnum þetta, þá skipta menn sjer ekki of mikið af börnunum; en ofmikil afskipti af þeim og lífi þeirra eru ótæk. Börnin eiga að læra að hjálpa sjer sjálf; það er takmarkið, því má ekki gleyma. Þetta er öfug og óviðfeldin kenning fyrir sjálfselsku foreldranna; en um það tjáir ekki að tala. Þegar móðirin hefir klakið börnum sínum upp, opt með þungum áhyggjum og margföldum þrautum, þá tekur hana opt sárt, er hún sjer, að þau búast til að þenja út vængi sína, fljúga úr hreiðrinu, sem þau hafa kúrt í undir vængjum hennar, og hverfa út í heiminn. En móðirin á ekki að stýfa vængi þeirra eða hepta för þeirra. Vjer eigum aldrei að neyða neinn til þess að þiggja liðveizlu vora, ef hann þarf hennar ekki við, ekki einu sinni börn vor. Margt illt hefir stafað af þessari röngu hjálpsemi og ofmiklu afskiptasemi af högum fullorðinna barna. Margur faðir og móðir hefir með þessu gjört börnum og tengdabörnum sínum lífið svo leitt, að þau á gamalsaldri gátu

ekki átt hæli og athvarf á heimilum þeirra. Mark og mið uppeldisins er, að börnin verði sjálffær. Þetta mýkir líka hryggðina á skilnaðarstundu foreldra og barna. Þegar barn þitt hefir náð fullorðins árum, fer það af heimili þínu, giptist eða staðfestir ráð sitt á annan hátt. Lát þjer ekki þykja fyrir því; það ber vott um, að barnið er orðið sjálfbjarga og sjálffært, og að þú hefir innt uppeldisskylduna af hendi.

En þó að börnin verði sjálffær og snúi bakinu að föðurhúsunum, þá slitnar ekki fyrir það ástar- og ræktarbandið milli góðra barna og góðra foreldra. Sonurinn sækir heim í föðurhúsin heilræði og dóttirin styrk, og bæði sækja þau þangað huggun, er á móti blæs. Og þótt börnin »berist burt í tímans straumi«, þá hvarflar hugur föður og móður iðulega til þeirra. Þótt börnin sjeu ekki lengur upp á foreldrana komin, þá verður samt foreldrunum aldrei ofaukið, ef sambandið milli barna og foreldra er eins og það á að vera. Þegar börnin hafa náð því takmarki, að verða sjálffær í andlegum og líkamlegum efnum, þá myndast milli barnanna og foreldranna það vináttuband, sem ekki á sinn líka á þessari jörð.

Barnið telur í æsku foreldrana óskeikula. Það trúir á þá með hinni sönnu, barnslegu trú, sem ekki þekkir neinn efa. En eptir því sem barnið eldist, þá breytir það skoðunum sínum, eins á foreldrunum sem á öðrum hlutum. Foreldrarnir verða í augum barnanna menn, sem hver annar.

Vel er hverjum þeim manni farið, karli eða konu, sem hefir þá mannkosti að geyma, að hann varð-

veitir virðingu, ást og vináttu barna sinna, þótt tilbeiðsla barnæskunnar hverfi. — Vertu húsbóndi barns þíns unz það er tíu ára, faðir þess unz það er tuttugu ára, en vinur þess til dauðans.

Smábarnið, sem blundar í vöggunni með sakleysisrósirnar á vöngunum, er algjör eign vor; það er bundið og tengt við oss bæði í andlegum og líkamlegum skilningi. En hver dagurinn, sem líður yfir höfuð þess, fjarlægir það frá oss.

Til er mynd af tveim dúfum; heldur sín í hvorn enda á löngu bandi; en á miðju bandinu er laus hnútur. Því meir sem dúfurnar fjarlægjast hvor aðra, því fastara rennur að hnútnum. Þessi mynd sýnir hið rjetta samband milli foreldra og barna.

## II. kafli.

### Einstaklingseðlið.

Vestur í Arnarfirði stóðu árið 1811 tvær vöggur; í hvorri vöggunni fyrir sig lá drengur í reifum. Ur annari vöggunni kom þjóðmæringurinn Jón Sigurðsson, en úr hinni óbreyttur bóndi, sem engum tók fram í neinu.

Hver einstakur maður hefir eitthvað það að geyma, sem engum öðrum er gefið. Í öllum heiminum eru ekki til tveir menn, sem að öllu sjeu hvor öðrum samlíkir. Hver einstakur maður hefir sína hæfileika út af fyrir sig, sínar gáfur, sína eiginlegleika og sína háttsemi. Hver einstakur maður hefir þegið eitthvað það, sem honum einum

er eiginlegt, sem gjörir hann frábrugðinn öllum öðrum og sem hann getur ekki öðrum miðlað; hann er einstaklingur.

Vjer höfum allir augu og eyru, nef og munn; þó erum vjer allir hver öðrum ólíkir að andlitsskapnaði. En hver maður hefir líka þegið frá náttúrunnar hendi einhverja sjerstaka gjöf, sem enginn annar hefir hlotið. Þessi sjerstaka gjöf hvers einstaks manns er einstaklingseðli mannsins.

Einstaklingseðlið er ein hin bezta gjöf, sem maðurinn hefir þegið; í því er fólginn aðalstyrkur hvers manns. Einstaklingseðlið bendir hverjum manni á, hvað hann á fyrir sig að leggja, hvað hann á að stunda. Frábærar námsgáfur benda á lærdómsleiðina, hagleiksnáttúra á smíðar o. s. frv. Alkunnugt er, eða ætti að vera, hvílík óhappavon er að því, að neyða menn til að stunda það, sem þeir hafa ekki hæfileika fyrir eða náttúru til; öll þau störf verða mönnum bæði ógeðfeld og torveld, og verða sjaldnast að sönnum og verulegum notum. Skaparinn hefir ætlað hverjum manni sitt æfistarf, og einstaklingseðlið er höndin, verkfærið, sem hann á að framkvæma það með. Fyrir því eiga foreldrarnir að virða einstaklingseðli barna sinna.

Ef allt fer með felldu, kemur einstaklingseðli hvers manns í ljós með aldrinum. En því miður verða börnin opt svo dul, að ekki er unnt að sjá, hvað í þeim býr; einstaklingseðlið fær ekki að birtast eins og skaparinn hefir ætlazt til. Hvað veldur þessu?

*Óttinn.* Óttinn venur barnið á að hræsna, að segja ósatt, að dylja, hvað með því býr. Ef þú vilt kynnast hinu sanna eðlisfari barnsins þíns, þá breyttu svo við það, að það opni hjarta sitt fyrir þjer. Sumir foreldrar hrósa sjer af því, að börnin sjeu hrædd við þau; en það er langt frá, að þetta sje hrósunarefni. Þessir foreldrar ættu að veita börnum sínum eptirtekt, er þau halda, að enginn taki eptir þeim og þau því eru óttalaus. Þá koma þau til dyranna eins og þau eru klædd, varpa af sjer dulargerfinu, sem öfugt uppeldi neyðir þau til að bera daglega.

Enginn efi er á, að þessir foreldrar vilja börnum sínum vel. Hýðingar og barsmíð fyrir smáyfirsjónir hefir hjer á landi lengi verið talið hin happasælasta uppeldisaðferð. Menn hafa trúað því, að »enginn verður óbarinn biskup«; og engum ritningarorðum hefir verið eins rækilega fylgt hjer á landi og áminningunum hans Salómons, að spara ekki vöndinn. Hitt hefir mönnum ekki skilizt, að óttinn út af fyrir sig bætir engan, hvorki börn nje fullorðna. Menn hafa gleymt því, að óttinn og kærleikurinn samrýmast ekki, en að kærleikurinn er inntak og uppfylling lögmálsins. Niðurstaðan hefir vanalega verið sú, að menn hafa annaðhvort hýtt úr börnunum allan kjark og dug, eða hýtt í þau þrjózku og þvergirðing.

Fyrir því verður að byggja óttanum út; þá fyrst getur einstaklingseðlið komið í ljós.

Óttinn hverfur fyrir tvennu: reiði og kærleika. Þegar maðurinn reiðist, hverfur óttinn; maðurinn gleymir þá sjálfum sjer og það kemur út, sem

inni fyrir er. En af því að engum getur dottið í hug að nota þetta ráð til þess að komast að raun um, hvað með barninu býr, þá er og verður hitt eina ráðið, að sýna barninu kærleika, að fara vel að barninu. Ef þú gjörir það, þá mun ekki hjá því fara, að barnið fær ást og traust á þjer, opnar fyrir þjer öll fylgsni hjarta síns. Vjer elskum engan mann eins innilega og góða og ástríka móður. Þess vegna tala börnin við móðurina allt sem þeim kemur í hug, segja henni frá því, sem kætir þau eða hryggir, frá óskum sínum og tilhneigingum. Fyrir þessa sök fer skynsöm og góð móðir allra manna næst um það, hvað í hverju barna hennar býr, hvað hvert þeirra er mest lagað fyrir, hverjir hæfileikar felast með hverju þeirra.

Þegar börnin sitja hjá móður sinni í rökkrinu og eru að tala við hana hinu hjartanlega barnamáli, þá steinþagna þau opt, er faðirinn kemur inn. Af hverju? Af því að þau þora ekki í návist hans að tala það, sem þeim býr í brjósti.

Foreldrarnir verða að hafa hugfast, að *kærleikurinn er lykill að hjarta barnsins*. Hvað gjörir börnin dul?. *Háðið*. Það þarf kjark til þess að vera hreinskilinn og einlægur; en háðið dregur úr mönnum kjarkinn. Á sumum heimilum verða börnin fyrir aðhlátri, ef þau tala eins og þeim býr í brjósti. Það er torvelt að dæma um það, hve mikla hæfileika menn hafa stundum kæft með háðinu og aðhlátrinum. Þekkt höfum vjer mann einn, sem var talinn söngmannsefni, er hann var unglingur. En þá var einu sinni hlegið að honum í fjölmenni fyrir það, að hann fór út af laginu.

Hann gleymdi því aldrei og fjekkst aldrei optar til að syngja meðan hann lifði. Fleir dæmi eru til lík þessu. Háð og aðhlátur, er menn hafa orðið fyrir á æskuárunum, eru of opt hin sanna rót að einurðarleysinu, kjarkleysinu og óhreinskilninni, sem einkennir að mörgu leyti kynslóð vorra tíma. Uppeldisbörn og stjúpbörn hafa stundum með þessum hætti verið gjörð að hálfgjörðum aumingjum; yfir öllu, sem þau tala eða gjöra, er fyrirfram upp kveðinn áfellisdómur. Hafa börnin svo orðið dul, kjarklítil og ómannblendin, einræningsleg og hjárænuleg. Þó að þetta geti lagazt og lagist opt með tímanum, þá grær stundum aldrei um heilt.

Hinar helgustu tilfinningar geyma menn í helgidómum hjartans og kasta þeim ekki utan á sig í návist ókunnra manna. En hjarta barnanna á að vera opið og öndvert fyrir foreldrunum. Venjið ekki börn yðar á, að dylja það fyrir yður, sem þau eiga bezt og ágætast. Verið ekki sem óvelkomnir gestir á heimilum yðar, gestir, sem börnin flýja og fælast; verið feður, en ekki harðstjórar. Það er mikið ólag á því heimili, þar sem börnin ganga um undirleit með óttasvip á andlitinu, hnipra sig í skugganum og þora varla að koma að knjám sinna eigin feðra.

Því heimili er vel farið, þar sem hóflegri gleði slær ekki í þögn, þótt húsbóndinn komi heim, þar sem unglingarnir fá að njóta sín og taka eðlilegum þroska; því heimili er vel farið, því að í skauti þess er uppspretta lífs og blessunar.

**Hvað heptir þroska einstaklingseðlisins, og hvað eykur hann og eflir?**

Hvað heptir þroskann? Það tvennt, er vjer nú höfum drepið á: *óttinn og háðið*, og enn fremur tvær yfirsjónir, sem henda marga góða foreldra. Þetta munum vjer skýra gjörr.

Vjer höfum smíðað oss fastar og ákveðnar uppeldisreglur, og þeim reglum hyggjumst vjer að beita við uppeldi allra barna. En uppeldi hvers barns á að fara eptir eðli þess. Börnin eru hvert með sínu móti engu síður að lundarfari, hæfileikum og öllu eðlisfari en að ytra skapnaði. Því er sú skoðun með öllu röng, að sama uppeldisaðferð geti átt við öll börn. Uppeldishugmyndin er dauð, barnið þar á móti lifandi. Barnið á sjálft að benda oss á hina rjettu uppeldisaðferð. Vjer »sníðum stakk eptir vexti«, en ætlumst ekki til að vöxtur barnsins fari eptir stakknum. Þess er hvergi getið nema í þjóðsögum, að höggvið sje af hælnum til þess að hægt sje að koma fætinum í skóinn, enda mundi það talið óðs manns æði. — En hitt er jafnóskynsamlegt í raun og veru, að beita sömu uppeldisreglu við öll börn, hvernig sem þau eru úr garði gjörð frá skaparans hendi.

Hin yfirsjónin er þessi: Vjer hugsum oss fyrirfram, hvað og hvernig barnið á að verða. Þessari hugsjón á barnið að ná, hvað sem hæfileikum þess líður. Satt er það, að barnið á að ná ákveðinni hugsjón, en það er sú hugsjón, sem einstaklingseðli þess bendir á, en ekki sú, er vjer höfum skapað oss eptir geðþótta vorum.

Barnið á ekki að vera sem vaxmoli í hendi vorri, er vjer lögum og myndum eptir geðþekkni; heldur er það sem blómhnappurinn, sem vjer veit-

um il og dögg, lopt og birtu til þess að hann geti sprungið út eptir eðli sínu.

*Hvað greiðir fyrir þroska einstaklingseðlisins?*

*Frelsið.* Barnið á og þarf sem fyrst að verða sjálffært. Því betur sem barnið lærir að nota frelsi það, er það nýtur, því meiri þroska tekur það. Láttu þriggja eða fjögra ára gamlan dreng vera sjálfráðan; gættu þess einungis, að hann geti ekki farið sjer að voða. Þú munt komast að raun um, að hann þarf þín ekki við; hann leikur sjer við sjálfan sig, talar við sjálfan sig og finnur sjer nóg til að sýsla við. Það mundi ekki fara betur, þó að þú hefðir hönd í bagga, nema ef þú ert búinn að skemma hann með hjegómadekri og dálæti.

Hvernig mundi fara, ef þú ætlaðir að hjálpa sóleyjunni til að springa út? Blöðin mundu öll detta af henni, og búið er. Allt það, sem lifir, tekur eðlilegum framförum og þroska, ef það fær að vera sjálfrátt. Þessu lögmáli hlýðir blómið, dýrið og maðurinn. Látið börnin ekki bresta það, sem eðlileg þörf heimtar; en verið ekki of afskiftasamir um hag þeirra. Þroskinn og framfarirnar munu koma á rjettum tíma, ef mennirnir ekki hepta þær. Ljós, lopt og frelsi eru skilyrði lífsins; meinið ekki börnunum að njóta þessara guðs gjafa; þær eru meira verðar en allt dálæti. Frá hjartanu streymir lífið; heptið ekki framrás þess hjá börnum yðar. Kínverjar sívefja fæturna á stúlkubörnunum til þess að hepta vöxtinn og gjöra þær fótnettar. Á líkan hátt hepta margir foreldrar andlegar framfarir barna sinna með því að meina þeim eðlilegt frelsi

og með því í hugsunarleysi að taka fram fyrir hendurnar á náttúrunni.

*Hvað þarf einstaklingseðlið til þess að ná fullum þroska?*

*Næringu.* Hve frábærir sem hæfileikarnir eru, þá er samt kennsla og leiðbeining nauðsynleg. Hverjum manni er það mikilsvirði, að vera gæddur góðum hæfileikum, en hinu er ekki minna undir komið, að vinna, að starfa. Iðni og þolgæði er vegurinn til frægðar og frama.

Of mikið dálæti er börnunum óhollt, enda skaðlegt. »Sá verður ónytjungur, sem engu venst«. Eitt hið nauðsynlegasta er, að glæða hjá börnunum viljann til dugnaðar og starfsemi; þau þurfa að læra að vilja. Opt kostar þetta harla litla fyrirhöfn, ef það er gjört í tíma; því það er sannreynt, að þegar maðurinn fær áhuga á störfunum, þá fá störfin vald yfir manninum.

Nú munu menn segja: »Vindurinn blæs, þar sem hann vill«. Smámenni fæðast í skrauthýsum höfðingjanna, og stórmenni í hreysum fátæklinganna. Er því foreldrum stundum lítt kleyft eða ómögulegt, að bæta úr þörf barna sinna«.

Satt er þetta; en þó liggja hjer til þrenn andsvör.

*Í fyrsta lagi.* Nú á tímum eru allir vegir öllum opnir. Vegurinn er örðugri fyrir þenna en hinn, en engum lokaður.

*Í öðru lagi.* Meiri eða minni hjálp er öllum til boða, enda fátækum og umkomulausum.

*Í þriðja lagi.* Frábær mannsefni sigra allar torfærur og ryðja sjer sjálfir braut.

Hjá mörgum manni verða miklir hæfileikar að engu af því, að þá brestur næringu. Vjer segjum stundum: »Það hefði orðið mikill maður úr honum Jóni, ef hann hefði fengið menntun í æskunni«. Þó að maðurinn á fullorðins árum ryðji sjer braut og komist til manns, þá er samt hætt við, að hann að einhverju leyti gjaldi um alla æfi fortíðarinnar.

Þeir, er verða fyrir því láni, að fá í æsku næga menntun og menningu, ættu að hugsa til þeirra, sem eru sömu eða líkum gáfum gæddir, en verða að fara allrar aðhlynningar á mis. Og þessi tilhugsun ætti síðan að vera þeim alvarleg hvöt til þess *að læra að vilja.*

Vjer höfum nú drepið á, að foreldrarnir eiga að virða einstaklingseðli barna sinna. Vjer höfum varað foreldra við að hepta þroska þess með ótta, háði, nauðung eða hjegómlegu dálæti. Vjer höfum bent á, hvað einstaklingseðlið þarf til að ná fullum þroska. En allt þetta getur farið í handaskolum. »Það er örskammt öfganna á milli«. Það er vandsiglt milli skersins og bárunnar; á aðra hliðina að láta ekki frelsið verða að sjálfræði, og á hina hliðina að forðast allan einstrengingshátt. Vandinn er að rata hinn »gullna meðalveg«.

Jafnframt því, sem vjer hugsum um þroska einstaklingseðlisins, þá verðum vjer og að hafa annað hugfast, sem heitir *samræmi þroskans.*

Í kafla þessum höfum vjer viljað benda mönnum á, að það er skaðlegt að fótum troða einstaklingseðlið, að það er sannur auðnuvegur fyrir hvern mann, að hann fái að njóta þeirra hæfileika, sem

guð hefir gefið honum, vera það, sem skaparinn hefir til ætlazt. Vjer höfum viljað vara alla foreldra við þeirri skaðlegu villu, að troða börnum sínum í þá stöðu, sem þau eru ekki löguð fyrir að eðlisfari rjettu.

Nú á tímum er mikið rætt um almennan jöfnuð. Allt hið skapaða afneitar þessari jafnaðarhugmynd. Í heiminum eru ekki til tveir steinar, tvö blóm, tveir menn, sem sjeu að öllu samlíkir. Hugsjónin er ekki sú, að allir komist á *sömu hillu*, heldur að hver komist á *sína hillu*. Þetta er takmark uppeldisins. Ef hver maður kemst á sína hillu, þá mun sú raunin á verða, að *til er hilla handa hverjum manni*.

## III. kafli.

### Samræmi í þroska og framförum.

Orðið »samræmi« á í raun og veru heima í söngfræðinni, og táknar það, að raddir þeirra, er syngja saman, renni í eitt, enginn sje hjáróma. En bæði í daglegu máli og á þessum stað táknar það nokkuð annað. Hjer táknar orðið »samræmi«: rjett samband milli einstakra hluta, er mynda eina eða aðra heild. Þetta munum vjer skýra gjörr.

Hver maður hefir margbreytta krapta og hæfileika, bæði líkamlega og andlega. Vjer getum hrært oss, matazt, dregið andann, starfað o. s. frv. Vjer getum hugsað, fundið til, viljað, elskað, trúað og

vonað. Rótin að öllum þessum kröptum og hæfileikum er falin í barninu. Takmark uppeldisins er, að veita þessum kröptum og hæfileikum þroska, og að rýma öllu því burtu, sem heptir eðlilegar framfarir þeirra. Enginn einn hæfileiki á eða má verða út undan; allir eiga þeir að njóta aðhlynningar, öllum á þeim að fara fram, hverjum á borð við annan; allir eiga þeir að haldast í hendur að hlutfalli rjettu.

Samræmi í þroska og framförnm, bæði að því, er snertir líkama og sál, er bundið við þetta tvennt Samvinnu, að framfarir allra krapta og hæfileika haldist í hendur; jöfnuð, að enginn hæfileiki sje hafður út undan eða vanræktur.

Það er deginum ljósara, að margir hæfileikar verða að engu hjá mörgum manni einungis fyrir þá sök, að þeir njóta engrar aðhlynningar á rjettum tíma. Einræni og einstrengingsháttur loðir við oss ekki síður í uppeldi en ýmsu öðru. Annaðhvort einblína menn á það eitt, að glæða hæfileika sálarinnar; eða menn gleyma sálunni og hugsa ekki um annað en líkamann. Þeir, sem fara lærdómsleiðina, finna ekki opt og tíðum eða sjá, að nauðsyn sje á að styrkja og glæða krapta líkamans; og þeim, sem alast upp við algenga vinnu, skilst ekki þörfin á að glæða hæfileika sálarinnar. Líkt eða sama er að segja um líkamlega krapta eða hæfileika út af fyrir sig; einn hæfileikinn er, ef til vill, glæddur, en öðrum gleymt. Fyrir þessa sök verða menn eintrjáningslegir. Sumir menn eru kallaðir »fjölhæfir«; það er einmitt

þetta, sem samræmi í þroska og framförum stefnir að, að gjöra menn fjölhæfa, að kenna mönnum að leggja »gjörva hönd« á ýmsa hluti, að gjöra menn færa um að nota alla hæfileika, sem skaparinn hefir gefið þeim. Einn eða annar drengur þykir »natinn« við kindur; föður hans kemur það vel og heldur honum sí og æ á smalaþúfunni; hann er, ef til vill, líka efni í góðan söngmann, smið eða vefara; en þessir hæfileikar njóta engrar aðhlynningar og verða því að engum notum. Það er ekki einhlítt að vera sterkur; hitt er engu síður mikilsvert, að vera laginn og lipur. Líkt þessu má segja um margt fleira.

Hinn andlegi þroski mannsins er háður hinu sama lögmáli, sem þroski líkamans. Vjer þekkjum öll hina þrjá hæfileika: Vit, tilfinningar og vilja. Milli þessara hæfileika á að vera samvinna og jöfnuður; enginn á að bera annan ófurliða, enginn á að verða á hakanum. Vitið á að stjórna tilfinningunum, tilfinningarnar að leiðbeina vitinu, en viljinn að vera samstilltur röddu vits og tilfinninga. — Maður sá, er einungis fer eptir röddu vitsins, getur komizt á afvegu. Hann fer beinustu, en ekki beztu leið. Honum fer líkt og veggjörðarmönnum þeim, sem einblína á það, að gjöra veginn sem styztan, og leggja hann því þráðbeint upp og niður allar brekkur, en gæta þess ekki, að menn og skepnur brestur þrek til að klifra upp brekkuna með byrðar sínar. Þeir segja það satt, að þessi stefna er beinust, en þeir gleyma því, að hún er ekki bezt, að nauðsyn og kringumstæður valda því, að betra er að gjöra lykkju á leiðina, enda þótt

leiðin verði dálítið lengri. Honum fer líkt og smáskipum þeim, sem drengirnir fleyta á pollum og tjörnum. Seglið og stýrið er bundið; skipið fer rjetta leið, en yfir allt, sem fyrir verður; betur færi, ef maður væri við stýrið, sem hleypti úr og í eptir atvikum. Vitmaðurinn er eins og standmynd úr járni steypt. Hann er kaldur, harður og fastur á fótum, sem jarðfastur steinninn.

En ekki fer þeim manni betur, sem einungis stjórnast af tilfinningunum; hann fer opt óhyggilega að ráði sínu og er laus á svellinu. Tilfinningarnar teyma hann í gönur, leiða hann í ógöngur. Hann er opt sem villtur maður á öræfum, fer hverja slóð, er hann rekur sig á, en ratar samt ekki á rjetta leið. Hann er sem stýrislaust skip með seglum uppi; hver vindblær kastar því á ýmsar hliðar, en beinir því samt ekki í rjetta átt. Tilfinninga-maðurinn er sem jörðin í eldsumbrotum; við hvern kippinn leikur allt á reiðiskjálfi. Ofmiklar tilfinningar eru sem eldur í brjósti mannsins; þær skekja hann og hrekja ýmist í þessa áttina eða hina. Vitmaðurinn er kaldur, sögðum vjer; tilfinningamaðurinn er aptur á móti heitur. Fyrir því eiga tilfinningarnar að verma vitið, en vitið að leiðbeina tilfinningunum.

Þegar hæfileikar sálarinnar þroskast í samræmi hver við annan, þá er sál mannsins sem teygjubandið; það tognar, en tekur þó við sjer aptur.

Þá teljum vjer viljann. Það er alkunnugt, að viljinn getur verið of veikur; en hann getur líka verið of sterkur. Viljinn getur komið í bág bæði við vit og tilfinningar. Því eru til þrálátir menn

og þverúðarfullir, einrænir og einstrengingslegir. Vit og tilfinningar eru hinir rjettu leiðtogar viljans.

Vjer höfum nú drepið á, að allir hæfileikar sálar og líkama, hvors fyrir sig, eiga að haldast í hendur, vera í samræmi og jafnvægi. En sál og líkami eiga hvorugt annað að bera ofurliða. Vjer megum hvorki gleyma sálunni fyrir líkamanum nje líkamanum fyrir sálunni. En beint þetta atriði er þó gömul erfðasynd hjer á landi, sem áður er á vikið. Foreldrarnir hafa tvö boðorð að rækja: að mennta sál barna sinna, en varðveita og efla þó hreysti og heilbrigði líkamans. Til eru þykkleitir, rjóðir og sællegir heimskingjar; og til eru líka sannir menntamenn, gráir, þunnleitir og fölleitir, hærðir og sköllóttir löngu fyrir örlög fram. Báðir þessir mannflokkar eru ljóst og lifandi dæmi þess, *hvernig uppeldi á ekki að vera. Menntuð sál í heilbrigðum líkama:* það er mergurinn málsins. Það er vandræðalegt, að vita unga og að ytra áliti efnilega menn ekki geta um neitt talað á mannfundum nema um sóttina í gemlingunum, vankann í sauðunum og geldingarstrenginn í folunum o. sv. frv.; og á hinn bóginn, að heyra ekki annað af vörum menntamannanna en tugguna um »x«-ið, »ý«-ið og »z«-una eða annað þvílíkt. Eins og það er satt, að maðurinn lifir ekki af einu saman brauði, eins er hitt satt, að maðurinn getur ekki lifað brauðlaus í heimi þessum. — Ætlunarverk þeirra, sem uppeldi hafa á hendi, er með tvennum hætti; annar er sá, að þeir fjölgi í flokki alþýðunnar, er farið geta skynsamlegum orðum um fleira en ær

og kýr, hesta og sauði; en hinn er sá, að þeir fækki í flokki menntamannanna, sem veslast upp löngu fyrir örlög fram af líkamlegri vanhreysti. — Nú munu menn segja: »Maðurinn er ekki eins og skápur með mörgum skúffum og hólfum, einu fyrir vitið, öðru fyrir viljann o. s. frv. Hann er einföld vera, en ekki margföld«.

Þetta er satt og rjett. En þó að maðurinn sje ekki margfaldur sjálfur, þá hefir samt skaparinn gefið honum marga og margbreytta hæfileika; og þessum hæfileikum er blandað saman á þá leið, að vjer sjáum þá ekki hvern við hliðina á öðrum, heldur hvern í gegnum annan; þeir renna saman hver í annan. — Forn-Grikkir klæddu hugmynd þessa í fagran búning. Svo segir í goðafræði þeirra, að hernaðar- og hreystiguðinn Marz og fegurðar- og ástagyðjan Venus gátu dóttur eina saman. Hún hjet Harmonía, þ. e. samræmi.

Maðurinn á að taka sem mestum og margbreyttustum framförum, til þess að allir þeir hæfileikar, sem hann hefir þegið, verði að sönnum notum.

Opt hefir sagt verið, að uppeldi þessara tíma sje illt og öfugt, að foreldrana bresti sanna mannþekkingu, að menn gleymi eðlilegum kröfum sannrar menntunar og menningar.

Hve hátt skyldi þurfa að hrópa til þess, að almenningur heyri þetta, láti sjer það að kenningu verða, og reyni fyrir alvöru að bæta úr brestum þeim, sem eru á uppeldi barna og unglinga?

Þegar niðjar vorir að löngum tíma liðnum spyrja:

»Hver var rótin að ógæfu 20. aldarinnar?« Þá mun sagan svara með snjöllum róm:

*Illt og öfugt uppeldi 19. aldarinnar.*

Samræmi og jafnvægi á að vera milli líkama og sálar; andi mannsins þráir það og mun leita þess, þangað til hann finnur það.

Á þenna sannleika minnir Kristur oss, er hann segir:

*Maðurinn lifir ekki af einu saman brauði.*

# IV. kafli.

## Líkaminn.

»Jeg tek aldrei á heilum mjer; jeg er sí og æ eins og á milli heims og helju«. Þú hefir, ef til vill, opt heyrt þenna eða hinn kvarta á þessa leið. En hefir þjer skilizt, hvað þeir hafa að bera, sem andvarpa þannig?

Heill og sjúkur eiga ekki saman. Þeir, sem eru heilir og glaðir, finna ekki, hvað sjúklingarnir hafa að bera, geta ekki sett sig í spor þeirra. Þeim finnst návist þeirra spilla gleðinni; þeir aumkva þá, en sú aumkvun er stundum lítið betri á bragðið fyrir hina sjúku en fyrirlitningin fyrir fátæklingana.

Þess vegna ættu menn ekki að gleyma því, *að heilbrigðin er sannarlegt hnoss.* En þetta hnoss kunna menn opt ekki að meta fyr en það er gengið þeim úr greipum. Til allra foreldra sje því talað: Gætið þess vel, að börn yðar höndli þetta hnoss og haldi því. —

Þegar barnið þitt situr á hnje þínu, horfir í augu þjer, brosir framan í þig og leggur hendur um háls þjer, hvernig mundi þjer þá verða við, ef einhver kæmi, vildi slíta barnið úr faðmi þjer og vinna því tjón? Þú mundir verja það með oddi og egg, eins og ljónið ver unga sína. Þú átt nú engan þann óvin, er vinna vilji barni þínu tjón á þessa leið. En hið innra með barninu sjálfu búa óvinir, sem vinna því mein, ef þú ekki vakir yfir því og verndar það með stöðugri alúð og umhyggju. —

Kafli þessi á ekki að hljóða um heilsufræði barna og unglinga. Það er annað atriði, sem vjer viljum benda á, og það er þetta: *Að heilsa og hreysti manna eru nátengdar siðgæði þeirra; því er heilsa og hreysti barnanna í nánu sambandi við siðgæði þeirra á fullorðins-árunum.*

Heilsan er fyrst og fremst komin undir því, að líkaminn fái næga næringu og fæðslu. Nú er það alkunnugt, að fjölmargir foreldrar *geta ekki* veitt börnum sínum nægilegt fæði og nauðsynleg klæði. Án þess að gjöra fátæktina hjer að umtalsefni, viljum vjer einungis minna á, að fátæktin er og í nánu sambandi við siðgæði manna. Mætti á margt benda máli því til staðfestu, ef rúmið leyfði. Hún er bæði löng og hörð, glíman almennings við fátæktina; og þeir eru fleiri en færri, sem lægra hlut bíða í viðureign þeirri. Það er torvelt að leggja mönnum þau heilræði, er í því efni dugi; en þó skal nefna hið helzta. Það er *siðgæði og alvara.* Þetta tvennt er það, sem fátæklingarnir remst af öllu þurfa til þess, að geta með sparsemi

og iðjusemi, með skynsemd og stjórn á sjálfum sjer varið heimili sín fyrir neyð og skorti. Þetta tvennt er líka það, sem auðmennirnir þurfa ekki síður til þess að þeim skiljist, hvílíkur vandi og ábyrgð þeim er á herðar lögð með auðnum. Einungis siðgæði og alvara geta kennt auðmönnunum að ávaxta pund sitt *á rjettan hátt.*

*Ef mönnum á að líða vel, þá verða þeir fyrst að verða góðir.* —

Heilsan og hreystin eru, eins og áður er á vikið, fyrst af öllu komin undir nægri fæðu; en þar að auk er og margt annað, sem vjer verðum að gæta og varast. Vjer þurfum ekki að taka það fram, að vjer eigum hjer ekki við annað en það, sem byggt er á grundvelli sannarlegs siðgæðis. Í öllu því, sem þú gjörir eða lætur ógjört, máttu ekki stíga fæti þínum út yfir þau takmörk, sem reglur og boðorð siðgæðisins setja þjer.

Tvær spurningar eru nú fyrir hendi: *Hvers ber oss að gæta, hvað byrjar oss að varast?*

Þessum spurningum munum vjer nú leitast við að svara. —

*Í fyrsta lagi.* Vendu barnið þitt snemma við vinnu. Plato segir: »Iðjuleysið eyðir þrótt og þreki líkamans, en vinnan og hreifingin stælir hann«. Líkaminn þarf hreifingu, hita og svefn. Skynsamleg, hæfileg og reglubundin vinna styrkir og eflir heilsuna betur en flest annað. —

Engin hreifing er hollari en sú, sem fylgir nytsamri vinnu, og því stefnir að einhverju sýnilegu takmarki. Að því leyti er skólaiðnaður betri og gagnlegri en vanaleg leikfimi, sem unglingar eru

vandir við í skólanum. Hún er hreifing og ekki annað; það er gallinn.

Sá hiti er hollastur, sem stafar af hreifingu líkamans.

Þá er svefninn værastur og heilnæmastur, er vjer sofnum að kveldi eptir vel unnið dagsverk Vitur maður hefir kallað hann »daglega endurfæðingu mannsins«.

Vinnan styrkir taugarnar og stælir vöðvana. En andleg vinna og áreynsla er og nauðsynleg fyrir heilsuna. Að öðrum kosti verða menn daufir á svipinn og eldast fyrir örlög fram.

Hæfileg vinna hefir fleira gott í för með sjer en það, sem nú er talið. Á iðjuleysisstundunum fæðist, þroskast og rótfestast hjá oss hinar spilltu fýsnir, sem verða upphaf margfaldra hörmunga, ef ekki er við gjört í tíma. Því er það skylda þín, að venja barnið þitt við nytsöm og nauðsynleg störf. Hagaðu uppeldi þess á þá leið, að það verði hæft fyrir eitthvert ákveðið æfistarf, enda þótt það eigi auð og allsnægtir í vændum. Innrættu því í tíma, að hver maður á að vinna, að nauðsynin, sem enda brýtur öll lög, heimtar það; heilsa mannsins er undir því komin, og er það eitt ærin ástæða.

Það er sjálfsagt, að börnin verða að njóta einhverra tómstunda; en þær stundir eiga ekki að vera *iðjuleysisstundir*, heldur miklu fremur *tilbreytingarstundir*. Þó börnin fái að lypta sjer upp frá vanalegri vinnu eða námi, þá eiga þau ekki að sitja auðum höndum og hafast ekkert að; því að þá geta tómstundirnar orðið að óhappastundum,

ógæfustundum. Illgresi spillingar er fljótt að festa rætur í barnshjartanu á iðjuleysisstundunum.

Kenndu barninu þínu þegar í æsku að álíta hverja stund helga. Raunar er langt liðið síðan maðurinn var rekinn út úr Paradís og boðið að vinna; en vinnan er samt eini vegurinn, sem liggur inn í Paradís aptur.

*Í öðru lagi.* Vendu barnið á reglusemi, því að hún er nauðsynleg fyrir heilsu þess. Brýndu fyrir því í tíma þetta heillaríka boðorð:

*Hafðu reglu á öllum hlutum og gjörðu allt á rjettum tíma.*

Reglusemi og hófsemi eru nauðsynlegar fyrir líkamsbyggingu mannsins. Sterkbyggður maður, sem lifir við óreglu og óhóf, eldist og endist ver en veikbyggður maður, sem gætir reglusemi og er hófsmaður um hvern hlut.

Ef vjer venjum oss á reglusemi og hirðusemi, þá verða þessar dyggðir oss með tímanum tamar. Þetta er bert, þótt ekki sje nema í smámunum. Vendu barnið þitt á að klæða sig laglega á hverjum morgni, og sú mun raunin á verða, að það mun aldrei verða sannur sóði eða trassi.

Ef þú hugsar til að geta ratað veginn, þá verður þú fyrst að fara hann. Ef þú hugsar til að vera húsbóndi á heimili þínu, þá ætlaðu hverjum hlut sinn stað. Ef þú hugsar til að geyma líf þitt og heilsu, þá vertu reglumaður og hófsmaður. En enginn skyldi ætla, að mönnum lærist reglusemi á fáum augnablikum eða fyrirhafnarlaust. Hún lærist flestum einungis með löngum vana og á löngum tíma.

Hverju barni er það auðnuvegur, að venjast reglusemi í öllum hlutum; óreglunni fylgir basl og bágindi, eymd og margföld mæða. Sá, sem venur barnið sitt á að fara snemma á fætur og í rúmið á rjettum tíma, leggur með því trausta undirstöðu að heilsu þess og hreysti um alla ókomna æfi.

*Í þriðja lagi.* Gættu barnsins þíns fyrir öllu því, sem kitlar, örfar eða æsir tilfinningar þess, hvort heldur það er matur, drykkur o. s. frv., eða lestur miður hollra bóka. Allt það, sem örfar og æsir í svipinn, dregur líka úr mættinum á eptir. Sá, sem ekki venur sig á þetta tál í æskunni, saknar þess ekki á fullorðins-árum eða í ellinni. Sjeu piltarnir ekki orðnir tóbaksmenn um tvítugsaldur, er þeim síður hætt við þeim óþarfa á fullorðins-árum. Óbrotnir og einfaldir lifnaðarhættir lengja lífið, varðveita æskufjörið, geyma þróttinn og þrekið.—

En »hægra er að kunna heilræðin en halda þau«. Það er opt »hægra ort en gjört«, að ráða við strákana; vjer getum ekki tjóðrað þá heima, og heldur ekki einlægt verið í hælunum á þeim.—

Nú ber oss þá að alvarlegu og þýðingarmiklu atriði, og það er þettu: *Hverja umgangast börnin?* Til sveita, þar sem hvert heimili er að mestu út af fyrir sig, geta foreldrarnir að miklu leyti ráðið því, hverja börnin umgangast. En við sjóinn, í þjettbýlum verstöðum og kaupstöðum, er öðru máli að gegna. Þar er heimilisbragur í sumum greinum verri en til sveita; þar er vanalega mannfjöldi mikill saman kominn; kennir þar því ýmsra

grasa, er »misjafn sauður í mörgu fje«. Þar er margfaldur sollur og glaumur, sem börnin og unglingana fýsir í og ekki er ætíð hægt að stía þeim frá, þó menn vilji. Á þessum stöðum sjá og heyra því börnin margt, sem þeim er óhollt, enda skaðlegt; þau umgangast, ef til vill, daglega önnur börn, ósiðuð og illa upp alin, og »draga dám af sínum sessunautum», sem við er að búast. »Sá verður úlfur, sem með úlfum venst«.

Hver ráð eru við þessu? Ráðin eru tvö; má þó auðveldlega fara svo, að hvorugt verði að verulegu gagni. Hið fyrra er: Að brýna fyrir börnunum með hógværum og skynsamlegum orðum, hvílíkur ósómi það sje, að leggja lag sitt við ósiðsöm og illa uppalin börn eða hafa kunningsskap við þá, sem góðir og heiðvirðir menn hafa ímugust á. Þetta ber opt góða ávexti, því greind börn eru tíðum vönd að virðingu sinni; strákarnir og stelpurnar eru snemma upp með sjer og vilja ógjarna baka sjer fyrirlitningu hjá hinum fullorðnu. Hitt er: Að kosta kapps um, að börn vor hafi sem mesta umgengni við siðsöm og vel uppalin börn, leiki sjer sem mest við þau og verði þeim samrýnd. Það er skylda foreldranna, að glæða hjá börnunum heiðarlegan hugsunarhátt og næma sómatilfinningu, en kefja þó hjá þeim stærilæti og hroka. Börnin eiga að læra að bera virðingu fyrir hverjum manni. Það má alls ekki fara eptir atvikum eða vera komið undir tilviljun, við hverja barn vort bindur vináttu eða tryggðir. »Smekkurinn sá, sem kemst í ker, keiminn lengi eptir ber«. Fullorðins-árin eru uppskerutími æsku-áranna; það

skiptir miklu, hverju sáð er í hjartað á þeim árunum.—

*Í fjórða lagi.* Geymdu eptir mætti hjarta barnsins þíns hreint og ósaurgað. Líkaminn hefir, sem kunnugt er, mikil áhrif á sálina; en sálin hefir ekki minni áhrif á líkamann. Viðbjóður við öllum óhreinleik og saurugleik, bæði í andlegum og líkamlegum efnum, er styrk vörn gegn vanheilsu og vanhreysti. Hreinlætinu fylgir hófsemi, siðsemi og sparsemi. Ekki þarf að skýra hjer, hve mjög þessar dyggðir styrkja og efla heilsuna.—

Margt hendir börn vor, sem vjer fáum ekki viðráðið. En eitt geta allir foreldrar; það er að gæta þess, að börnin ekki sjái eða heyri annað á heimilunum en það, sem gott er, að allir heimilishættir sjeu heiðarlegir og siðsamlegir; í einu orði, að lífslopt heimilisins sje hreint og óspillt.

Vjer virðum gamalmennið, sem stendur á bakka grafar sinnar með silfurkórónu ellinnar. Há elli ber vanalega vitni um, að æskan hafi ekki verið fórnuð gjálífinu eða fullorðins-árin löstunum.

Það er hryggðarefni, að hugsa um allar þær hættur, sem bíða barnanna, er þau koma út í heiminn. Sjúkdómar og sorgir ræna margan þeirri blessun, sem skaparinn hefir af kærleika sínum ætlað þeim, sem jörðina byggja.—

Hætturnar eru bæði margar og miklar; en þó má mikið umflýja þær og afstýra þeim. Venjum börn vor á iðjusemi, reglusemi, hófsemi og hreinlæti hið innra og ytra.—

Ef þessar dyggðir rótfestast hjá börnunum, þá eru þau ekki varnarlaus, þó vjer sleppum af þeim hendinni.—

## V. kafli.

### Vitið.

Í síðasta kafla töluðum vjer um þroska og framfarir líkamans; í þessum kafla munum vjer tala um þroska vitsins.—

Það er altítt hjer á landi og enda tíðast, er alls er gætt, að foreldrarnir kenni börnum sínum sjálfir. Í fljótu bragði virðast ýmsir kostir fylgja þessu fyrirkomulagi; en því fylgja og ýmsir ókostir. Þótt faðirinn sje góður faðir barna sinna, þá er ekki víst, að hann sje góður kennari. Til þess útheimtist, að hann hafi þekkingu, tíma og sje hneigður fyrir að kenna. Hann má ekki hafa kennsluna einungis í hjáverkum; hún á að vera reglubundin, ef vel á að vera. Einmitt það atriði er bezti kosturinn við skólanámið. En þótt allt sje í góðu lagi, þá er samt ekki víst, að faðirinn sje góður kennari barna sinna, einmitt af því að hann er faðir þeirra.—

Af því að þú ert faðir barna þinna, þá er þjer fremur öllum öðrum áhugamál, að þau taki skjótum framförum, og fyrir þá sök herðir þú, ef til vill, á þeim meira en góðu hófi gegnir. En flýtir og hraðvirkni eru náminu skaðleg; náminu á að miða áfram með hægð, en jafnt og þjett.

Námið er barninu nauðsyn, og foreldrarnir eiga að gjöra allt, sem þeim er auðið, til þess að börnunum verði ljúft og hugþekkt að stunda það. Það er satt, að »viljugan er hvern bezt að kaupa«. Því er það hin mesta fásinna, að hafa námið sem vönd eða hegningu á barnið. Þegar börnin hafa brotið eða verið óhlýðin, þá segja foreldrarnir stundum: »Snáfaðu nú út í fjós og taktu lærdómsbókina þína«. Þetta á að jafngilda hýðingu og henni drjúgri. Nærri má geta, hve heillaríka ávexti slík kennslu-aðferð ber. Þetta er svo öfugt, sem framast má verða.—

Áður en vjer förum lengra út í framfarir og þroska vitsins, þá viljum vjer nú drepa með fám orðum á fjögur atriði.

*Í fyrsta lagi.* Kennslutímarnir mega ekki vera of margir eða of þjettir. Þess verður vel að gæta, að ofþreyta ekki börnin. Þau eiga að fá vissar stundir til þess að ljetta sjer upp og leika sjer; þau eiga að fá að leika sjer, og það helzt úti. Ofraun við námið þreytir heilann og veikir heilsuna; börnin verða ófrjálsleg og niðurbæld og njóta ekki hæfileika sinna.

*Í öðru lagi.* Not kennslunnar fara minna eptir því, *hve mikið* barnið lærir, meira eptir hinu, *hve vel* það lærir. Kennslunni verður að haga á þá leið, að barnið *viti* og *skilji* það, sem það lærir; að námið verði því að sönnum notum í lífinu. »Vjer lærum fyrir lífið, en ekki fyrir skólann«.

*Í þriðja lagi.* Reynslan vitnar, að skilningurinn kemur með aldrinum, en ekki á undan honum. Á fullorðinsárunum skilst oss margt það, sem oss ekki skildist í æskunni. Skilningurinn er bundinn

við þroska heilans; en hvorki ástundun kennarans nje iðni lærisveinsins geta skapað þann þroska; hann kemur með árafjöldanum, en fyr ekki. Kennslunni verður því að haga eptir andlegum þroska barnsins, því að *sú kennsla sljóvgar, sem er ofvaxin skilningnum.*

Í *fjórða lagi.* Kennslan verður að vera bundin föstum reglum. Kennsluaðferðin má ekki vera önnur í dag og hin á morgun; með því móti verða börnin áttavilt og botna ekki í neinu. Kennslan á að vera samhljóða eðlilegum framförum barnsins; hún á að vera á þá leið, að námið sje fyrst ljett og auðvelt, að því miði áfram jafnt og stöðugt, og að það smáþyngist.—

En námið má heldur ekki vera of auðvelt. Barnið á að þurfa að beita eptirtekt. Í þessu efni er »vandratað meðalhófið«. Kennsla barna og unglinga er því sannarlegt vandaverk; sá, sem leysir það vel af hendi, er sannur listamaður.—

Að svo mæltu hverfum vjer aptur að vitinu. Vitið er ekki einfaldur hæfileiki, heldur margfaldur; það er fljettað af mörgum þáttum og þessir þættir eru:

1. Eptirtektin.
2. Hugmyndakrapturinn.
3. Skilningurinn.
4. Minnið.
5. Dómgreindin.
6. Ímyndunaraflið.

1. Maðurinn hefir af því að segja, sem umhverfis hann er. Þetta táknum vjer með tveim orðatiltækjum: Að verða var við, að taka eptir.

Hið fyrra er manninum ósjálfrátt, hið síðara sjálfrátt.—

Vjer verðum varir við köngurlóna, sem hleypur yfir hendina á oss. Vjer tökum eptir, hvernig fuglarnir byggja hreiður sín.

Eptirtektin á að æfast og skerpast. Jón sagði: »Kistan kemst ekki inn um dyrnar«. »Hún kemst það víst«, sagði Pjetur. Hann hafði rjett fyrir sjer, enda var hann smiður, vanur að mæla með augunum. »Það verður logn á morgun«, sagði Sigurður. »Nei«, sagði Bjarni; »það verður landnyrðingsstormur«. Spádómur hans rættist; enda var hann sjómaður, vanur að taka eptir loptsútliti. Þegar vjer hlustum eptir einhverju, hættir oss við, að horfa í sömu áttina, sem hljóðið kemur úr. Augað hjálpar eyranu. Þetta á ekki að verða að vana. Eyrað á að vinna ætlunarverk sitt hjálparlaust.

Lykt og smekkur sljóvgast af öllu því, sem örvar og æsir í svipinn.

Rjett eptirtekt er bundin við athygli. Því verðum vjer að festa hugann við hlut þann, sem vjer ætlum að veita eptirtekt, skoða hann frá ýmsum hliðum, brjóta hann til mergjar; vjer verðum að virða hann fyrir oss með þolinmæði.

Ef þú vilt kynnast einstaklings-eðli barnsins þíns, þá taktu eptir, hverju það veitir eptirtekt með þolinmæði.

Vjer eigum að kenna börnum vorum að taka eptir, kenna þeim að skynja og skoða hlutina frá fleirum en einni hlið. Því mannviti er áfátt, sem ekki getur skynjað nema einstaka hluti, og þá

ekki nema frá einstökum hliðum. Vjer þurfum að tala við börn vor um hluti þá, sem eru umhverfis þau; kenna þeim að bera þá saman, greina þá sundur o. s. frv. Sumir menn eru »fjárglöggir«, en hafa varla vit á neinu öðru. Aðrir eru »markglöggir«, en þekkja varla broddstaf frá bókstaf. En aðrir eru »mannglöggir«, en þekkja varla hest frá kú. Þessi eintrjáningsháttur stafar mest frá því, að eptirtektin hefir beinzt að þessum einstöku hlutum, en lítið sem ekkert að öðru. Verður því vit þeirra þröngt og takmarkað.

2. Þá kemur hugmyndakrapturinn; maðurinn festir í huganum mynd þess hlutar, er hann sjer með augunum. Ef vjer horfum á lampann, sem hangir í baðstofunni, og látum síðan augun aptur, þá hverfur lampinn sjálfur augum vorum, en mynd hans verður eptir í huganum; og hún er það, sem vjer köllum hugmynd. — Hugmynd hlutarins er eðlilega sjaldnast eins glögg og hluturinn sjálfur; eptir því, hve hugmyndin er glögg, köllum vjer hana ljósa eða óljósa; þegar hún er glöggust, köllum vjer hana lifandi.

Allir hlutir hlýða einhverju lögmáli; svo er og um þetta. Því meiri sem eptirtekt vor er, því ljósari verða og hugmyndir vorar. Þegar vjer viljum fá ljósa hugmynd um einhvern hlut, verðum vjer að skoða hann með nákvæmni, athygli og áhuga, og jafnframt að beita sem flestum skilningarvitum til að skýra hann fyrir oss og festa hann í minni.

Fyrsta og annað atriðið segir sig sjálft. Þriðja atriðið er þýðingarmest. Því meiri áhuga, sem

vjer höfum á einum eða öðrum hlut, því ljósari og rjettari hugmynd fáum og höfum vjer um hann.

Mæður! Jeg ætla að benda ykkur á starfa, sem bæði lætur ykkur vel, og sem mun bera mikla og og góða ávexti, ef þjer rækið hann vel. Notið rökkurstundirnar til þess að tala við börnin ykkar. Látið þau sitja umhverfis ykkur og reynið að halda eptirtekt þeirra vakandi. Segið þeim fallegar sögur, sem glæða hjá þeim góðar tilfinningar; berið upp fyrir þeim gátur, hæfilega torskildar; þær vekja hjá þeim umhugsun og skerpa hugsunaraflið. Látið þau segja ykkur sögur, segja frá því, sem þeim hefir borið fyrir auga og eyru. Látið þau lýsa því, sem þau þekkja, svo sem baðstofunni að innan, landslaginu kringum bæinn, veginum til kirkjunnar; hvaða gagn sje að hestunum, að kúnum, að kindunum, að skipunum o. s. frv. Þetta verður til þess, að eptirtekt og umhugsun barnanna glæðist; þau venjast á gjöra sjer ljósa grein fyrir því, sem fyrir augun ber, og að framsetja hugmyndir sínar með ljósum og skýrum orðum. En það tvennt er stór kostur við hvern mann.

3. Þá komum vjer að skilningnum. Þá hluti, sem að einhverju leyti eru skyldir, teljum vjer sömu tegundar. En opt er torvelt, að gjöra ljósa grein fyrir, að hverju hlutir sömu tegundar sjeu samlíkir hver öðrum, eða á hinn bóginn ólíkir öðrum hlutum. Þarf því tíðum skarpan og þroskaðan skilning til þess á rjettan hátt að greina einn hlut frá öðrum eða eina hugmynd frá annari. Almenningi er opt ósýnt um þetta; margur maður

hefir all-ljósa hugmynd um einhvern hlut, en getur samt ekki framsett hugmynd sína, ekki lýst hlutnum með þeim rjettu einkennum, sem greina hann frá öðrum og gjöra hann að sjerstökum hlut; honum skilst ekki, hvað sje einkennilegt við hlutinn eða hugmyndina. Nefnum algengan hlut, t. d. brú. Allir, sem komnir eru til vits og ára, hafa sjeð brú, en það er jafnvíst, að margur fullorðinn rekur í vörðurnar áður en hann er búinn að lýsa því með rjettum einkennum, hvað brú er, lýsa hugmyndinni svo, að hún ekki renni saman við aðrar hugmyndir henni skyldar, en sem þó ekki eru hið sama. Það er því nauðsynlegt, að kenna börnunum að leggja rjettan skilning í hvern hlut og hverja hugmynd.

4. Maðurinn getur geymt myndir í huganum; þessi hæfileiki er kallaður minni. Margir kvarta yfir slæmu minni, en fæstir gjöra mikið til að bæta það. Hjer á landi og víða annarsstaðar hefir námið helzt verið minnisverk, verið að mestu fólgið í því, að læra utan að. Eins og það nám er öfugt, sem einungis er fólgið í því að læra utan að, eins er hitt fráleitt, að hugsa til, að börnin geti komizt að öllu leyti hjá því að læra utan að. Vitaskuld er, að börnum leiðist opt að læra utan að; en um það tjáir ekki að tala; börnin læra hvorki margt nje mikið, ef þau læra ekki annað en það, sem þeim þykir skemmtun að. Margt er leiðinlegt, en þó engu að síður nauðsynlegt. Manninum er hollt og nytsamt, að venjast því snemma, að ganga ódeigur að því, sem leiðinlegt er, og leysa það vel af hendi. Húsið er byggt af mörg-

um steinum, málið samsett af mörgum orðum og sagan af mörgum mannanöfnum og ártölum. Orð og atvik hljóta menn að læra og muna, en æskuárin eru bezt löguð til námsins. Með fullorðinsárunum koma áhyggjur og störf, sem banna mönnum námið, enda verður það þá mörgum erfitt.

Mönnum veitir mjög misjafnt að læra utan að. Mörg heilræði hafa mönnum í því efni verið lögð; einungis eitt er óbrigðult; það er *áhuginn*.

Vjer gleymum trauðlega því, sem oss er áhugamál eða tengt er á einhvern hátt við hjarta vort. Frakkar og Englendingar orða þetta á annan veg en vjer; þeir segja ekki: »að læra utan að«, heldur »að leggja sjer á hjarta«. Í hjarta mannsins er lind lífsins, en þar er og uppspretta minnisins. Reynslan kennir oss líka, að vjer verðum að geyma það í hjartanu, sem vjer ætlum að muna rækilega.

5. Dómur heitir það, þegar maður sýnir fram á samband það, sem er á milli tveggja eða fleiri hluta. Dómurinn getur verið annaðhvort rjettur eða rangur. Vit og tilfinningar geta auðveldlega komið í bág hvort við annað í þessu efni. Eigi dómur vor að vera rjettur, þurfum vjer að vera kunnir öllum málavöxtum. Börnin þurfa að læra að fella rjetta og skjóta dóma. Reikningsnám er betur fallið en flest annað til þess að styrkja og æfa dómgreindina hjá unglingunum. Sannleiksást þess, er dóminn fellir, ræður og miklu um það, hvort dómurinn verður rjettur eða rangur. Hlutdrægni hallar opt rjettum dómi. Er því nauðsyn-

legt að vekja og glæða sannleiksástina hjá börnunum, þegar er þau hafa vit á.

6. Ímyndunaraflið er gáfa sú, er vjer setjum saman með orð og atvik, er annaðhvort hafa fyrir oss borið í raun og veru, eða þá ekki eru á rökum byggð; kallast þá ímyndunaraflið skapandi. Ímyndunaraflið er undirstaða allra sannra lista.

Eins og það er nauðsynlegt að æfa og styrkja ímyndunaraflið hjá börnum og unglingum, eins er og óhollt að æsa það um of. Unglingum er hollt, að lesa fróðlegar og vel samdar ferðasögur og frásögur um sanna viðburði; en þeim er óhollt, að lesa æsandi skáldsögur. Þær æsa og örva ímyndunaraflið meira en góðu hófi gegnir, og sýkja um leið sálina, vekja hjá þeim rangar skoðanir á mannlífinu og venja þá á að skoða heiminn í villiljósi.— Öllum börnum er hollt, að leggja stund á heilnæma vinnu, sem er við hæfi þeirra, og að hafast mikið við undir beru lopti. En einkum er þetta styrk verja gegn því, að ímyndunaraflið sýkist, æsist um of eða leiðist á afvegu.

Vjer höfum nú minnzt á hina 6 hæfileika, sem hver með öðrum mynda vitið. Rúmsins vegna höfum vjer orðið að vera fáorðir. Það eitt viljum vjer taka fram að lyktum, *að framfarir og þroski allra andlegra krapta eða hæfileika er kominn undir áhuganum*..

En — hvernig getum vjer nú vakið hjá börnunum áhuga á náminu? Svarið er einungis eitt: *Barnið fær því að eins áhuga á náminu, að það elski kennarann.*

Margreynt er, að einum kennara tekst við það

barn, sem annar er frágenginn. Galdurinn var sá, að annar kennarinn fann rjetta leið að hjarta barnsins, en hinn ekki. Framfarir barnsins eru komnar undir því, að kennslan sje ekki frá kennarans hálfu það, sem kallað er »utan garna«. Kennarinn verður að stunda kennsluna »með lífi og sál«. Að öðrum kosti er ekki blessunar að vænta.

Vjer höfum nú drepið á 6 þætti vitsins: Eptirtekt, hugmyndakrapt, skilning, minni, dómgreind og ímyndunarafl. Sumir bæta hjer við skynseminni. Skynsemin á þá að vera hæfileikinn til þess að komast út yfir hið skynjanlega og endanlega, til þess að rannsaka alla hluti ofan í kjölinn, komast að takmarki allra hluta, hæfileikinn til þess að komast út yfir hið verulega, til þess að mynda hugsjónir.

# VI. kafli.

## Tilfinningarnar.

Vjer getum ekki verið afskiptalausir af hlutum þeim, sem umhverfis oss eru; þeir snerta oss á einhvern hátt, vekja hjá oss þægindi eða óþægindi, ánægju eða óánægju.

Vjer finnum til.

Vjer eigum hjer ekki við líkamlegar tilfinningar. Vjer finnum til kuldans; en kuldatilfinningin vekur aptur aðra óþægilega tilfinningu hjá oss við þessa tilfinningu eigum vjer. — Margt er það um-

hverfis oss, sem snertir tilfinningar vorar. Ef oss er boðið í veizlu, vekur það hjá oss gleði; en hluttaka í veizlunni vekur hjá oss kæti. Ef vjer aptur á móti setjumst aptur af veizlunni og metum meira að rækja einhverja helga skyldu, þá vekur það hjá oss hjartanlega ánægju.

Tilfinningarnar skiptast eptir rótum þeim, sem þær eru runnar af. Höfum sama dæmið sem áður. Gleðin, sem vaknar, er oss er boðið í veizlu, er kölluð *andleg tilfinning*; kætin við veizluborðið *holdleg tilfinning*; en ánægjan yfir því, að meta skylduna meira en veizluna, *siðferðisleg tilfinning*.

Nú munum vjer ræða tilfinningarnar í sambandi við skynjan, eptirtekt, hugmyndakrapt og minni.

Hreysti eða óhreysti líkamans snertir tilfinningar vorar. Heilsa og hreysti gleðja og lífga sálina; sjúkdómar og vanheilsa beygja hana og hryggja. Hryggðin eða gleðin getur orðið langvinn og verður þá að lundarfari. — Vjer finnum til þæginda eða óþæginda eptir því, hvort oss líður vel eða illa.

Opt erum vjer ónærgætnir og ranglátir við börnin, stundum óviljandi, en stundum af kæruleysi. Þegar illa liggur á börnunum, ættum vjer fyrst og fremst að grafast eptir, hvort orsökin sje ekki einhver veikindi, sem að þeim ganga. — Stundum gjörum vjer þetta, en stundum ekki. Kemur þá fyrir, að vjer veitum þeim átölur eða refsingu fyrir það, sem þeim er alls ekki sjálfrátt. Faðir eða móðir geta stundum ekki huggað barnið sitt, hvernig sem þau fara að. Þau ganga um gólf með það, hossa því, sýna því í spegilinn eða út um

gluggann; þau gjöra allt nema það, sem þau eiga að gjöra: að ganga úr skugga um, hvað að barninu amar. Á endanum rennur þeim í skap; þau kalla það »keipaskjóðu«, »óþekktaranga«, og »skælubárð«; og seinast hýða þau það. Hýðingin hefir lengi hjer á landi verið álitin »læknisdómur við margslags meinum«. Orsökin að því, að barnið ljet ekki huggast, var opt einungis sú, að það kenndi til, hafði verk, ætlaði að fara að taka tönn, eða, ef til vill, einungis sú, að það klæjaði. Aumingja óvitarnir geta ekki sagt til meina sinna. Hinir fullorðnu verða að finna meinin og bæta úr þeim; það er öllum hýðingum betra.

Sjúkdómur og vanheilsa beygja sálina, satt er það; en samt þarf það ekki svo að vera. Einstöku manni er list sú lagin, að vera með glöðu bragði, þótt hann eigi við vanheilsu að búa. Þetta er flestum torvelt, en fæstum 'ómögulegt. Til þessa þarf andlegan og líkamlegan kjark og karlmennsku. Því þurfa þeir, sem hafa börn undir höndum, að herða og styrkja líkama barnanna og vekja og glæða kjarkinn og þrekið. Börnin eiga að njóta nærgætni og kærleika, en þó alls ekki venjast á kveifarskap. Kveifarlegt uppeldi gjörir börnin að lítilsigldum aumingjum um alla æfi.

Allt það, sem vjer verðum varir með skilningarvitunum, snertir tilfinningarnar. Gott eða vont bragð, góð eða vond lykt, fagrir eða ljótir litir: allt þetta snertir tilfinningarnar, vekur hjá oss þægindi eða óþægindi, ánægju eða óánægju.

Börnin sækjast eptir því, sem bragð- og lyktargott er. Verður því að gæta þess í tíma, að hugs-

unin um góðan mat verði ekki of rík hjá þeim. Hverjum manni á að lærast það snemma, að góður matur er ekki hið æðsta hnoss eða æðsta takmark mannsins, að meiru skiptir, að afla sjer fæðu sinnar með sóma en að snæða dýrar, gómsætar krásir. Vitaskuld er það, að líkaminn þarf styrka fæðu, en því má ekki gleyma, að maturinn er meðal til að næra og styrkja líkamann, og annað ekki. Hugsun sú, að maðurinn lifi til þess að eta, gjörir manninn að skepnu. Þá er uppeldið viturlegt, er það venur á hófsemd í mat og drykk og einfalt og óbrotið líferni.

Sál barnsins er þröng og rúmar fátt. Barnið nýtur því ekki nema þess, er það verður vart við hverja stundina. Fyrir þá sök þarf barnið að sjá margbreytta liti, heyra margbreytt hljóð, njóta mikillar birtu. En ánægjan, sem litirnir, hljóðin eða birtan vekur, hverfur, er til lengdar lætur. Þess vegna hefir barnið þörf á fjölbreytni, því að fábreytnin er upphaf leiðindanna.

Hugmynd sú, er vjer höfum eða gjörum oss um hvern hlut, snertir einnig tilfinningarnar, vekur hjá oss ánægju eða óánægju.

Vjer drögum sjálfa oss á tálar. Peningaeign vekur ánægju vora; samt hafa peningarnir ekkert gildi í sjálfum sjer. Auðmaðurinn getur dáið úr sulti, þótt hann hafi fullar hendur fjár. Vjer höfum ánægju af peningaeign, af því að vjer gjörum ekki greinarmun á sjálfum peningunum og hlutum þeim, sem vjer getum eignazt fyrir þá. Samt eru það ekki hlutir þessir, sem vjer í rauninni höfum augastað á, heldur nautnin, sem hlutirnir veita.

Svangur maður gleðst, ef hann eignast krónu, af því að fyrir krónuna fær hann mat, en maturinn seður hungur hans; en í rauninni er saðningin svöngum manni fyrir mestu. — Alveg eins er börnunum farið. Það er bragðið að sykurmolanum, en ekki sykurmolinn sjálfur, sem í rauninni gleður barnið. En barninu skilst þetta ekki; og því vill barnið hafa hendur á molanum. Á þessa leið skoða bæði börn og fullorðnir alla hluti, hver frá sínu sjónarmiði. Drengirnir hafa ekki gaman af brúðum, og telpurnar ekki af að eignast svipu. »Sínum augum lítur hver á silfrið«; skoðanir vorar á hverjum hlut fara mest eptir því, hvernig vjer erum sjálfir. Þunglyndum manni verður allt til óánægju; en á ljettlyndum manni hrín ekkert. Vjer metum hvern hlut eptir því, hvort hann er oss efni til ánægju eða óánægju, og oss er vel eða illa til hvers manns eptir því, hvort kynningin við hann er ánægju- eða óánægjuefni. — Barnið hefir óbeit á lækninum, af því að það man eptir sársaukanum, er hann stakk á kýlinu, sem það hafði; en því þykir vænt um hana ömmu sína af því, að hún gefur því brauð og sykur.

Fyrir því á oss að vera það áhugamál, að börnin hafi ánægju af sambúðinni við oss. Því miður er það ekki ætíð hægt. Barninu skilst ekki, að þegar faðirinn hirtir það, kennir hann engu síður til en barnið. Mörgum manni skilst þetta ekki fyr en hann er orðinn faðir sjálfur.

Til eru þeir foreldrar, sem lítið sinna börnum sínum, aga þau illa og kenna þeim lítið. En van-

rækslu þeirri fylgja þung gjöld fyr eða seinna. Það er heimska, að gjöra sjer vonir um, að presturinn eða barnakennarinn geti á skömmum tíma bætt úr brotum og vanrækslu margra ára. Foreldrarnir verða að bera börnin sín fyrir brjóstinu. Gleðjið börnin svo opt sem þjer getið, veitið þeim svo marga ánægjustund, sem unnt er. Það mun borga sig og bera ríkulega ávexti. Það verður til þess, að þau minnast yðar lengi með ást og þakklæti.

Þú kannt illa öllu því, sem óskýrt er og óglöggt, hvort sem það ber fyrir augu þjer eða eyru. Tilfinningarnar heimta skýrleik, en þó fjölbreytni, því fábreytnin er upphaf leiðindanna, en leiðindin eru fordyri að syndafangelsinu; það sannar margföld reynsla.

Hinn háleitasti boðskapur er sem hljómandi málmur eða hvellandi bjalla, ef hann er ekki fluttur með skýrum og laðandi orðum. Prestum og kennurum, yfir höfuð öllum þeim, sem eiga að veita mönnum menntandi fræðslu, verður lítið ágengt, ef kenning þeirra er leiðinleg, ef áheyrendum þeirra leiðist. Ekki þarf að búast við miklum ávöxtum af ræðunni, ef áheyrendurnir þurfa allt af að vera að taka í nefið til að halda sjer vakandi meðan presturinn er í stólnum. Ef kenningin er leiðinleg til lengdar, þá fá menn smátt og smátt óbeit á orðinu, sem fram er flutt. Raunar ætti það ekki að vera svo; en það er þó svo. Þótt boðskapurinn sje ágætur í sjálfu sjer, þá festir hann samt ekki rætur hjá hinni uppvaxandi kynslóð, nema hann sje fluttur henni í þeim búningi, að hann veki hana til eptirtektar og umhugsunar.

Jónsbók hefir mest og bezt fengið og haldið vinsældum sínum beint fyrir þá sök, að kenningin er skýr, skorinorð og vekjandi; hún er skemmtileg, en glatar samt ekki alvöru sinni og virðingu.

Það er stundum kvartað yfir, að eptirtektin fari minnkandi bæði í kirkjunum og í skólunum. En af hverju? Af því, að orðið verður á vörum sumra, sem flytja það, að svæfandi nið, sem öllum leiðist á að hlusta. Það er höfuðkostur hverrar kenningar, að hún sje skýr og vekjandi.

Kennarar eða ræðumenn eiga að búa sig undir starf sitt; en þá mega þeir ekki gleyma því, að »sníða stakk eptir vexti«, laga sig eptir hugsunarhætti lærisveinanna eða áheyrendanna. Öll kennsla er vandaverk; og þeir eru miklu fæstir af öllum almenningi sem er list sú lagin, að geta vakið lifandi áhuga hjá þeim, sem kennslunnar eiga að njóta. Vjer segjum það enn: Kenning sú, sem flutt er með þurrum og óskýrum orðum og með svæfandi framburði, er og verður jafnan ávaxtalaus.

Að lyktum viljum vjer minnast á tilfinningarnar í sambandi við minnið. Röð og regla vekur ánægjulegar tilfinningar, óreglan hið gagnstæða. Manni er þægilegt að hafa það við hendina, sem grípa þarf til þá eða þá stundina, eins og á hinn bóginn að leitin eptir því, sem vantar, er flestum hlutum leiðari.

Þegar vjer ekki getum »dottið ofan á« það, sem vjer þurfum að muna í svipinn, þá erum vjer í líku skapi eins og þá, er vjer erum að leita eptir einhverjum hlut, sem oss vantar. Hafi minnið aptur

á móti það á reiðum höndum, sem vjer þurfum að nota þá stundina, þá finnum vjer til ánægju. Fyrir því er nauðsynlegt, að unglingar venjist á að hafa röð og reglu á hugsunum sínum, ekki síður en öðrum hlutum.

Það er betra að vita fátt, en vita það vel, vita það sjer til sannarlegs gagns, en að hafa þefað af mörgu, en kunna eða vita ekkert til hlítar.

Þegar hugmyndir um liðna atburði eða horfna hluti vakna hjá oss, köllum vjer það endurminningu. Endurminning þess, sem gott er, vekur hjá oss ánægju, en endurminning þess, sem vont er, óánægju. Betur væri, að endurminningin um oss, þegar vjer erum gengnir veg allrar veraldar, gæti ætíð vakið hjá börnum vorum þakklætis-, virðingar- og ástartilfinningar.

## VII. kafli.

### Sjálfsþekking.

Þegar barnið er orðið tveggja ára, vaknar vanalega sjálfsvitundin. Fram til þess tíma segir barnið ekki »jeg« um sjálft sig. Jón litli segir um sjálfan sig: »Nonni vill borða«. Guðrún segir: »Gunna vill drekka«. Á þriðja árinu fer barnið að segja: »Jeg vil«.

En um leið og sjálfsvitundin vaknar, þá vaknar og smátt og smátt hugmyndin um gildi mannsins sjálfs. Hugmynd sú vekur hjá manninum ánægju

eða óánægju, eptir því hvernig á stendur. Gildi mannsins er komið undir ýmsu, svo sem hreysti eða óhreysti líkamans, góssi og fjármunum, gáfum og hæfileikum, listum og vísindum, skapferli og siðgæði. Við þetta bætist ættgöfgi, störf þau, er vjer rækjum, álit það, er aðrir hafa á oss, og staða vor í þjóðfjelaginu.

Af öllu þessu, er vjer nú höfum talið, leggur einn áherzlu á þetta, annar á hitt, einn telur sjer eða öðrum þetta til gildis, en annar hitt. Einn stærir sig af kröptum sínum, annar af hestum sínum, þriðji af peningum sínum og fjórði af ættinni sinni. Mörg ung stúlka mundi, ef hún ætti um tvennt að velja, fremur kjósa að vera fríð og heimsk, heldur en greind og ólagleg. Aptur enn aðrir stæra sig af þekkingu, vitsmunum eða hugrekki. Um allt þetta má segja, sem á öðrum stað stendur: »Öll er skepnan góð, ef hún er með þakklæti meðtekin«. Allt getur þetta talizt manninum til gildis, ef hann ekki brestur eitt, og það er göfugleikur sálarinnar.

Styrkleikurinn getur bæði verið hefndargjöf og blessunargjöf. Fríðleikurinn getur gjört kvennmanninn bæði að engli og refsinorn. Hringlið í peningunum getur verið hreint sem lofsöngur á vörum saklausra barna, og líka hrellandi sem formælingar hinna glötuðu. — Það fer allt eptir göfugleik sálarinnar hjá manni þeim, sem hlut á að máli. — Gildi fjármunanna fer eptir gildi eigandans.

Sannarlegt gildi hvers manns fer eptir siðgæði hans. Amtmaður, sem vanrækir skyldur sínar, á

í rauninni minni virðingu skylda en hreppstjóri, sem rækir köllun sína með trúmennsku. Hver maður á að verja öllum kröptum og hæfileikum sínum siðgæðinu til eflingar; hver sá hæfileiki, sem eigi er varið til þessa, er ónýtisgjöf. En á hitt ber og að líta, að þótt maðurinn verji öllu því vel, sem hann hefir þegið, þá er það ekki allt jafnmikils virði. — Þekking sú, sem aflað hefir verið með iðni og þolinmæði, er meira virði en fjármunir teknir að erfðum.

Þótt auðurinn sje í rauninni mikils virði og »afl þeirra hluta, sem gjöra skal«, þá er hann líka opt þröskuldur á framfaraveginum.

Auðmannabörnin brestur þá hvöt til iðjusemi og framtakssemi, sem fátæktin hefir í sjer fólgna; þeim hættir opt við að gefast upp við torfærurnar, sem þeir verða að yfirstíga, sem vilja komast upp á vizkufjallið; þeim hættir við að gefast upp áður en þeir hafa öðlazt þá þekkingu, sem þeim er nauðsyn á til að ná andlegum þroska. Það er samt mikið mein, því að andlegur þroski er ágætari eign en líkamleg gæði. Enginn maður nær andlegum þroska nema hann leggi allmikið á sig; en þann, sem hefir allsnægtir, brestur hvötina, sem knýr manninn til að beita kröptunum, taka á því, sem til er. Auðmannabörnin treysta á stundum auðnum, sem þau eiga í vændum, og þykjast því ekki þurfa að þreyta sig með örðugu námi í æskunni. En raunin verður þá vanalega sú, að er þau ná fullorðinsárum, fer auðurinn út um greipar þeim, af því að þau kunna ekki með hann að fara.

Ekkja ein á Englandi fór viturlega að ráði sínu. Hún var vellauðug og átti son einn barna. Duldi hún son sinn þess, að hann átti arfsvon mikla, og hjelt sig því ekki ríkmannlega. Hún setti drenginn til mennta; stundaði hann námið af mesta kappi, ekki sízt af því, að hann hafði mikinn huga á, að geta orðið nýtur maður, veitt móður sinni skjól í elli hennar og launað henni á þá leið ást hennar og umhyggju. Þá fyrst, er hann var orðinn lærður maður, gjörði hún honum uppskátt, að hann ætti auð mikinn. — Hún hugði, að auðs- og arfsvonin mundi hepta framfarir hans.

Nauðsyn er á, að kenna börnum og unglingum sem fyrst, að meta rjett, í hverju hið sanna ágæti og gildi mannsins er fólgið, að það er ekki fólgið í útvortis prjáli og tildri, heldur í sönnum mannkostum og rjettri meðferð og notkun þeirra gáfna og hæfileika, er maðurinn hefir þegið. Snemma þarf að kenna þetta, því að snemma vaknar hjá þeim hjegómaskapurinn og stærilætið. Víðast hvar, þar sem mörgum börnum lendir saman, á skólabekkjunum, á leikvellinum, hjá spurningabörnunum, bryddir meira eða minna á stærilætinu og metnaðinum, sem auðurinn eða stjettardrambið vekur.

Feður og mæður! Þjer alið börn yðar illa upp, ef þjer ekki kæfið hjá þeim heimskumetnaðinn og hjegómastærilætið. Drengurinn á duggarapeysunni og bættu buxunum getur verið miklu meira mannsefni en pilturinn á klæðistreyjunni og á stígvjelunum. Prjálið og tildrið er ljettara en fis á vogaskálum sannleikans og skynseminnar; sannir mann-

kostir ljettast ekki, þótt þeir sjeu vafðir fátæklegum flíkum.

Mörgum hættir við, að hafa ofmikið álit á sjálfum sjer. Það er óhollt, því að af ofmiklu sjálfsáliti sprettur hroki og dramb, metnaður og stærilæti. Hættast er þeim við að líta mikið á sig, sem fyrirhafnar- og áreynslulaust hafa hlotið einhver gæði. Svo er um marga krapta- og burðamenn, fríðar stúlkur, og þá, sem erft hafa stórfje.

Menntunarþefurinn vekur hjá mönnum of mikið sjálfsálit. Sannmenntaðir menn gjöra sjaldan mikið orð á þekkingu sinni. Komi það fyrir, að þeim hætti við raupi, þá er það vanalega af öllu öðru. Hinir aptur á móti, sem þefað hafa af menntun og vísindum, en ekki hlotið sanna menntun, eru opt allra manna mestir á lopti, allra manna mestir í orði, en opt minnstir og vesalastir á borði.

Aðrir hafa aptur á móti oflítið álit á sjálfum sjer, gjöra oflítið úr sjálfum sjer. En þetta er annar afvegurinn. Því, gjöri maðurinn oflítið úr sjálfum sjer, þá verður hann deigur og óframfærinn, kjarklaus og þreklaus; hann vantreystir sjálfum sjer.

Við þessum afvegi er þeim hættast, sem alizt hafa upp í eymd og niðurlægingu og því litlum andlegum framförum tekið. Olnbogabörn, stjúpbörn og sveitarbörn fyrri tíma eru ljóst dæmi þessa.

»Vandratað er meðalhófið«, en það er í þessu efni, að þekkja sjálfan sig og meta sjálfan sig rjett. Það er dugnaðar- og framkvæmdarvon að þeim,

sem finna, hvað í þeim býr, sem finna blóðið renna um æðarnar og lífið færast um líkamann, sem þekkja krapta sína og hæfileika og þora að líta framan í heiminn.

Ofmikið sjálfsálit er óhollt.

Vantraust á sjálfum sjer er skaðlegt. — Hinn »gullni meðalvegur« er, að þekkja sjálfan sig og meta sjálfan sig rjett, forðast í því efni bæði of og van.

Sá, sem þekkir sjálfan sig, veit hvað hann má bjóða sjer eða ætla sjer; hann ætlar sjer ekki um of, en er ótrauður og öruggur; og sá, sem metur sjálfan sig rjett, virðir sjálfan sig og gjörir ekki neitt það, sem aflar honum ósóma. En þeim manni er heldur ekki viðreisnar von, sem glatað hefir allri virðingu fyrir sjálfum sjer. Heimskinginn, sem ekki þekkir sjálfan sig, er allur á lopti, telur sjer alla vegi færa, tranar sjer alstaðar fram; en er á hólminn kemur, verður ekkert úr hreysti hans; því að gort og mont er ekki gjaldgengur eyrir í neina skuld mannfjelagsins. Hinn aptur á móti, sem þekkir bæði mátt sinn og vanmátt, berst minna á, en leynir meira á sjer, hælist minna um, en reynist hetja, er á hólminn kemur. Sönn og rjett sjálfsþekking skapar hóflega trú á mátt sinn og megin. Þessi trú gjörði feður vora að hetjum; en er þeir í dýflizu ánauðarinnar og niðurlægingarinnar gengu af þessari trú, þá hvarf þeim öll dáð og allur drengskapur.

*Lærðu að þekkja sjálfan þig og meta sjálfan þig rjett, hvorki um of nje van,* því að það er vegur-

inn til dugnaðar og drengskapar, og síðan til frægðar og frama.

Foreldrarnir eiga að leiða börn sín á þenna veg; munum vjer nú benda þeim á nokkur þau atriði, er þeir í þessu efni hafa að gæta.

1. *Sýnið börnunum hæfilega virðingu og særið þau ekki.* Ef þjer þurfið að hegna, þá hegnið ekki í bræði. Látið börnunum skiljast, að hegningin er eðlileg afleiðing brotanna, og að yður sjálfum er það hryggðarefni, að verða að beita hegningu. Gjörið börnunum aldrei minnkun, þótt þjer neyðist til að hegna þeim. Hegningunni gleyma þau með tímanum, minnkunin særir þau og grefur um sig.

2. *Gjörið börnin aldrei hlægileg í annara manna augum,* því að það getur orðið til þess, að þjer hrindið þeim frá yður fyrir fullt og allt. Ef barnið verður fyrir aðhlátri í fjölmenni, er búið við því tvennu, að það fái kala á þeim, er aðhlátrinum veldur, og að það glati virðingu fyrir og trausti á sjálfu sjer.

Ef barnið hefir að hafzt eitthvað það, sem ósómi er að, þá vandið um við það í einrúmi. Hafi barnið góða greind, þá kann það að meta þessa nærgætni; en kunni það ekki að meta hana, þá hafið þjer þó að minnsta kosti breytt á hinn betra veg.

3. *Rjettið börnunum hjálparhönd, þegar þau eru veik á svellinu.* Meðvitund vanmáttar gjörir menn kjarklausa í fjölmenni; en bresti kjarkinn, fer flest í handaskolum. Opt leysa börn illa úr einungis af því, að þau vita sig veik fyrir og eru því hrædd.

þá má alls ekki ávíta börnin, því að »vex hugur, er vel gengur«, en ekki þegar ávítum og ákúrum rignir yfir þau. Þegar barnið svarar vitlaust, þá á kennarinn að haga spurningum sínum á þá leið, að barnið hjálpi sjer og leiðrjetti sig sjálft eptir því sem hægt er. Þá smávex barninu kjarkur; en að sama skapi nýtur barnið sín betur og leysir betur úr. Ávítur fyrir kjarkleysi og feilur verða vanalega til þess, að börnin fara að skæla og leggja árar í bát; þær gjöra einungis illt verra.

4. *Verið sanngjarnir við börnin.* Sanngirni er ekki sama sem rjettlæti. Rjettlætið heimtar margt, sem sanngirnin mótmælir. Sanngirnin gjörir oss milda og miskunnsama bæði í dómum vorum og í breytni vorri við aðra menn.—

Stundum kemur fyrir, að fullorðnir menn óviljandi sýna börnum ósanngirni og ranglæti. En þá er skylda þeirra, að kannast við yfirsjón sína.

5. *Heimtið ætíð, að börnin ljúki störfum sínum vel og rækilega.* Vjer virðum þau störf, sem vel eru af hendi leyst; hver sá maður, sem virðir störf sín, virðir og sjálfan sig. Börn mega ekki venjast á að hlaupa frá hálfunnum verkum. Ánægja fylgir vel unnu starfi. En ef maðurinn er ánægður við sjálfan sig yfir störfum sínum, þá hlýtur hann og æ meir og meir að virða sjálfan sig og treysta sjálfum sjer. Skipið börnunum aldrei þau verk, sem þeim er um megn; setjið þeim heldur aldrei fyrir ofþungar lexíur. En heimtið stranglega, að þau ljúki hverju verki og læri hverja lexíu vel og rækilega.—

6. *Glæðið sómatilfinninguna hjá börnunum.* Gjör-

ið það ekki einungis með orði og tungu, heldur og í verki og sannleika. Talið ekki sjálfir og leyfið ekki öðrum að tala neitt það í áheyrn barna yðvarra, sem saurugt er eða ósæmilegt. Bannið stranglega á heimilum yðar allt gárungahjal, öll klámyrði, öll blótsyrði. Haldið vandlega hreinu hinu andlega lífslopti á heimilum yðrum, byrlið ekki börnum yðrum andlegan eiturdrykk. Það er sannarleg viðurstyggð, að heyra orðbragðið á vörum sumra fullorðinna manna; og það er stórslysa von, að hafa börn að samvistum við slíka menn. Andlegt hreinlæti er engu síður nauðsynlegt fyrir heill og velferð sálarinnar en líkamlegt hreinlæti fyrir hreysti og velferð líkamans. Sá er meðal annars munur á mönnum og dýrum, að mennirnir kunna að blygðast sín. Sá, sem er hættur að blygðast sín, er orðinn dýrunum þeim mun óæðri, sem honum er að upphafi meira gefið.

7. *Gjörið börnunum aldrei ástæðulausar getsakir.* Rangar og ástæðulausar getsakir særa hvern mann djúpt og tilfinnanlega. Meira að segja, þótt getsakirnar sjeu ekki með öllu ástæðulausar, þá er langt frá, að þær gjöri nokkurn mann betri; þær verða vanalega miklu fremur til þess að stæla menn upp í því, sem illt er. Aptur á móti þykir öllum, sem hafa nokkra almennilega taug í sjer, minnkun að því, að reynast illa, ef þeir verða þess varir, að góðir menn trúa þeim og treysta.—

8. *Venjið börn yðar á að hafa sem fæstar þarfir.* Því færri sem þarfirnar eru, því síður er og verður maðurinn upp á aðra kominn. Því færri sem

óskirnar eru, því minna þarf að leggja í sölurnar til þess að fullnægja þeim.—

Maðurinn getur ekki verið sjálfstæður nema hann sje sjálfbjarga. Brýnið því snemma fyrir börnunum, að kaupa aldrei meira en það, sem þau geta borgað út í hönd, og helzt að kaupa ekki meira en svo, að þau eigi nokkra aura afgangs kaupunum. Hver, sem brýtur sparnaðarboðorðið, mun gjalda glópsku sinnar fyr eða seinna.

9. *Innrætið börnunum, að er þau vaxa upp, ber þeim að rækja köllun sína með trúmennsku og samvizkusemi.*

Há staða þykir mörgum fýsilegt hnoss; minna er þó í rauninni undir því komið, hver staðan er; meira undir hinu, hvernig í stöðunni er staðið, hvernig skyldurnar eru ræktar.

En hvort sem menn eru í hárri eða lágri stöðu, þá hafa allir sömu skyldu að rækja: að vanda öll verk sín af fremsta mætti. Sá, sem bezt og trúlegast leysir verk sín af hendi, á mesta virðingu skylda. Sá, sem rækir trúlega allar skyldur, er sannarlega frjáls.—

Að lyktum sje talað til allra skynsamra og menntaðra manna: Rjettið öllum bágstöddum hjálparhönd. Orð yðar mega sín mikils. Látið þau þá miða til þess að efla og glæða allt það, sem gott er og göfugt, fagurt og drengilegt í brjóstum manna. Látið ljós yðar lýsa fyrir mönnum; leiðbeinið þeim, sem villir fara, og greiðið götu ungra manna til gæfu og blessunar í andlegum og líkamlegum efnum.—

# VIII. kafli.

## Hluttekning.

Þú hefir, ef til vill, ekki enn þá reynt sorgirnar og andstreymið, sem mannlífinu fylgja. En ef þú hefir þegar orðið fyrir einhverjum mannraunum, hvernig fór þá?

Vinir þínir komu til þín og vildu hugga þig, hver eptir því, sem honum var bezt lagið.

Einn sagði við þig: »Þú verður að reyna að lypta þjer upp«. Þjer hefur víst varla fundizt þetta svaravert; því sá, sem getur talað á þessa leið við sorgbitinn mann, finnur alls ekki, hvar eða hvernig skórinn kreppir að honum.

Annar sagði við þig: »Það dugar ekkert um þetta að tala«. Í þessu ávarpi hefir þú heldur ekki fundið mikla huggun.

En svo komu líka aðrir vinir til þín; þeir töluðu fátt, voru hljóðir og hæglátir; en úr augum þeirra skein hjartanleg hluttekning. Þú fannst glöggt, að þessum mönnum skildist sorg þín, að í brjóstum þeirra vöktu sömu tilfinningar, sem í þínu eigin brjósti; og beint fyrir þessa sök var þjer huggun að návist þeirra. Þessara manna minnist þú æ síðan með innilegu þakklæti, því að hjartanleg hluttekning annara í hryggð vorri veitir þá huggun og svölun, sem seint fyrnist. »Sá veit gjörst, sem reynir«.

En þjer hefir líka, ef til vill, einhvern tíma borið eitthvert happ að hendi; einhver vænt eða óvænt hamingja fjell þjer í skaut. Þú varst þá glaður og í góðu skapi. — Vinir þínir og kunn-

ingjar tóku þátt í gleði þinni, hver eptir því, sem honum var lagið.

Einn óskaði þjer til hamingju með mörgum skáldlegum orðum og miklu rósamáli; hann rjetti þjer hönd sína, en hönd hans var köld. Annar þurfti að segja þjer, að þú ættir hamingju þína að þakka hinum eða þessum atvikum. Þriðji óskaði heitt og hjartanlega með sjálfum sjer, að hann hefði sjálfur hlotið þá hamingju, sem þjer gekk í greipar. — En svo voru líka enn aðrir, sem samglöddust þjer, en höfðu fá orð. En hvert orð og atvik bar vott um hjartanlega hluttekningu í hamingju þinni. Einungis þessir menn samglöddust þjer í raun og sannleika.

Vjer getum á þessa leið tekið þátt hver í annars kjörum; sem kunnugt er, köllum vjer það hluttekningu. Sönn gæfa mannanna er mikið komin undir hluttekningu þeirri, er þeir sýna hver öðrum. Væri hluttekningin ekki til, þá væru mennirnir sem dauðir og kaldir steinarnir í fjörunni eða á eyðisöndunum; þá hyrfu burt úr lífi manna vináttan, kærleikurinn, manngæzkan og miskunnsemin. Lífið er manninum ánægjulaust, þegar enginn tekur lengur þátt í gleði hans eða sorg. Því meiri þátt sem vjer getum tekið í gleði eða sorg bræðra vorra, því betri menn verðum vjer sjálfir. Í þessu efni rætist, að sá, sem miðlar, hann fær; hver sá, er sýnir öðrum hluttekningu, nýtur og hluttekningar annara. Hluttekningin er band það, sem tengir hvern einstakan mann við allt mannkynið; hún er afl það, sem gjörir oss alla og öll að bræðrum og systrum.

Hluttekningin er með þessum hætti:

1. Pjetur samhryggist Páli.
2. Pjetur gleðst yfir hryggð Páls.
3. Pjetur hryggist yfir gleði Páls.
4. Pjetur samgleðst Páli.

Þegar vjer skoðum þessi fjögur dæmi, þá sjáum vjer, að tilfinningar Pjeturs og Páls eru samhljóða í 1. og 4. dæminu, en ósamhljóða í 2. og 3. — Hinar samhljóða tilfinningar, sem sje að hryggjast með hryggum og gleðjast með glöðum, eru mönnum samboðnar og eðlilegar. En hinar, að gleðjast yfir hryggð og hryggjast yfir gleði annara, eru ósamboðnar og óeðlilegar öllum mönnum. Sá, sem gleðst yfir hryggð og hryggist yfir gleði annara, hefir ekki góðan mann að geyma.

Vjer eigum að lifa saman sem bræður, samgleðjast og samhryggjast hver öðrum. En því miður er samlíf manna á aðra leið. Almennast er, að hver fer sína götu, að hver hugsar mest um sjálfan sig og spyr sem Kain: »Á eg að gæta bróður míns?« Margur gengur um sorgbitinn, mæddur og þreyttur, en finnur fáa, sem taka þátt í kjörum hans. Mennirnir hafa hendur hver í annars hári, og gjöra sjer opt enga hugsun af að hárreita hver annan.

Sannur gæðamaður hefir jafnan fyrir augum, að græða sár og mýkja mein allra bræðra sinna, en efla gæfu þeirra og gleði. Til þessa miða öll orð hans og verk. En þessir menn eru ekki og fæðast ekki á hverri þúfu; því er ver og miður.

Hluttekning og miskunnsemi á að innrætast börnunum þegar í æsku á heimilum þeim, er þau

alast upp á. Á góðu heimili tekur hver heimilismaðurinn þátt í annars kjörum, hver sýnir öðrum hluttekningu. Frá góðum húsbændum og börnum læsir velvildar- og ástarilur sig um allt heimilið og gagntekur alla heimilismennina. Ekki verður því með orðum lýst, hvílík blessun það er, að alast upp í góðum foreldrahúsum; og þeim er vorkunn, margföld vorkunn, aumingja-börnunum, sem tælast frá foreldrum sínum og flækjast síðan bæ frá bæ og lenda, ef til vill, í misjöfnum stöðum, þar sem þau njóta ekki þeirrar nærgætni, sem þörf er á. Hjartað er gljúpt á æskuárunum; þá er tími til að gróðursetja þar það, sem gott er; með aldrinum harðnar það og opnast síður, þótt á það sje knúið. Ef barninu innrætist kali og tortryggni, þá verður lundin hörð og óþýð með tímanum.

Börnin þurfa að geta borið fullkomið traust til þeirra, sem umgangast þau. En — »fár er sem faðir, enginn sem móðir«. Því er það óbætanlegt tjón, að missa á unga aldri góða móður, missa þá höndina, sem færust er allra um að gróðursetja og vekja góðar tilfinningar í hjörtum vorum, einkum það þrennt, sem nauðsynlegast er: kærleikann, traustið og hreinskilnina. Það er vandaverk, að ganga börnum í móður stað, enda er stjúpunafnið lítt þokkað, stundum ekki að ástæðulausu. En hvort sem þú ert móðir, eða gengur barni í móður stað, þá breyttu svo við barnið, sem er undir hendi þinni, að það fái traust á þjer. Elskaðu barnið; þá mun kærleikurinn, sem streymir frá hjarta þínu, opna hjarta barnsins, eins og sólargeislarnir opna blómknappana.

Stundum verðum vjer þess varir, að börn gleðjast yfir bágindum annara. Þar sem mörgum börnum lendir saman, ber það stundum við, að þau öll eða flest leggjast á eitt eða tvö, sem eitthvað er áfátt, sem annaðhvort eru fátæklegar klædd en hin, hölt eða bækluð; en einkum, ef þau eru álfaleg eða hlægileg. Þessir aumingjar, sem ekkert hafa til saka unnið, gráta opt beiskum tárum af miskunnar- og hluttekningarleysi hinna barnanna. Því þarf að brýna það snemma fyrir börnunum, að ósómi er, að leggjast á þann, sem er minni máttar; að sá, sem er sterkur, á að neyta krapta sinna til að vernda lítilmagnann, en ekki til að kúga hann. Það er skylda yðar, að refsa drengjunum stranglega, ef á því bólar hjá þeim, að þeir hafi gaman af að kvelja saklausar skepnur, eða hrekkja leikbræður sína, sem minni máttar eru. —

*Þjer verðið að láta börnunum skiljast, að það er synd og ósómi, að gleðjast yfir bágindum annara.* Vjer getum ekki samhryggzt eða samglaðzt öðrum mönnum nema vjer getum sett oss í spor þeirra. Ef vjer ekki þekkjum gleðina og sorgina af eigin raun, þá verðum vjer að hafa kynnzt hvorutveggja í sambúð við aðra menn. En »sá veit gjörst, sem reynir«. Sá, er sjálfur hefir misst barn, veit, hvað móðirin hefir að bera við gröf barnsins síns. Sá, er sjálfur hefir verið sjúkur, getur getið nærri, hvað þeir hafa að bera, sem aldrei taka á heilum sjer. Sá, sem ætíð hefir allsnægtir, þekkir ekki spor fátæklinganna. Börnin hafa því gott af að

kynnast bágindum annara, því »fleira veit, sá fleira reynir«. —

Tvö atriði viljum vjer enn drepa á.

*Í fyrsta lagi. Látið börnin aldrei horfa á grimmdarfulla meðferð á mönnum eða skepnum.* — Slátrunaraðferðin hjer á landi er svo ljót og grimmdarleg, sem allir vita; en hitt er þó verra, að börnum er leyft að standa yfir og horfa á, þegar kindur eru skornar á háls og smá-pínt er úr þeim lífið, meðan blóðið tæmist úr þeim. Af því að þau venjast þessari óþokka-aðferð frá blautu barnsbeini, þá finnst þeim hún eðlileg, og þau hafa ekki hina minnstu meðaumkvun með skepnunum, sem á þessa leið eru deyddar. En hver sá, er hefir litla meðaumkvun með skepnunum, er varla miskunnar- og meðaumkvunarríkur við mennina. —

*Í öðru lagi. Drepið aldrei hendi við hjálp þeirri, sem börnin vilja veita yður, enda þótt hjálpin sje yður gagnslaus;* þegar barnið býður hjálp sína, ber það vott um góðan vilja. Að drepa hendi við hjálpinni getur orðið til þess, að kæfa þenna góða vilja hjá barninu og venja það af að rjetta hjálparhönd. —

Áður en vjer ljúkum þessu máli, verðum vjer að minnast á eina skyldu, sem mjög er alvarleg, þó ekki sje hún skemmtileg. Þegar barnið eldist og þroskast, á það fyrir höndum, að ganga út í heiminn; en þá verðum vjer að vara það við hættum þeim, sem bíða þess. —

Heimurinn er viðsjáll og hættulegur hinum ungu og óreyndu; hann er blíðmáll og brosmildur, en

undir tungurótum hans býr fals og fláræði. Þetta er sorglegur vitnisburður; en hann er sannur, því er ver. Mikil lífsreynsla þýðir vanalega sama sem það, að margar vonir hafi brugðizt, margt farið gagnstætt óskum og áformum. Í heiminum er sjálfselska, en sjálfselskan er móðir táls og pretta. Ganga má að því vísu, að hver sá, sem gengur út í heiminn með opinn og útbreiddan faðminn, mun fá marga ómjúka byltuna.

Sjálfselskan er óvættur sú, er mestu illu kemur af stað í heiminum. En hún fer ekki ein saman; henni fylgja prettirnir, hræsnin og öfundin. —

Hvernig fer nú fyrir ungling þeim, er mætir ófögnuði þessum, ef til vill, fyrstu dagleiðina, sem hann á að fara einn og óstuddur? Hann fær ótrú og vantraust á mönnunum, verður ómannblendinn og tekur sem allra minnstan þátt í annara högum og kjörum. —

En þetta er mjög slæmt bæði fyrir manninn sjálfan og mannfjelagið, sem hann lifir í. Hver sá, er engan þátt tekur í annara kjörum, mun brátt komast að raun um, að aðrir taka heldur ekki þátt í kjörum hans. Mannfjelaginu er svo háttað, að vjer stöndum í hvirfing og höldum hver í höndina á öðrum.

Sá, sem kippir að sjer höndunum og dregur sig út úr hringnum, má búast við að eiga ekki apturkvæmt fyr en seint og síðar meir, ef hann á það nokkru sinni. —

Þessar hættur eigið þjer að benda börnunum og unglingunum á. Þjer eigið að brýna fyrir ung-

lingunum, að er þeir koma út í heiminn, mega þeir ekki vera of opinskáir, en þó ekki of dulir eða ómannblendnir, ekki trúa mönnunum of vel, en þó ekki of illa. Kennið þeim að velja sjer vini með skynsemd og gæta þess vel, hverja þeir leggja lag sitt við. Kennið þeim að vantreysta ekki mönnunum að raunalausu, en hafa þó vaðið fyrir neðan sig.

Unglingur sá, sem snemma hrekkjast af heiminum, getur orðið gagnslaus sjálfum sjer og öðrum, enda þótt hann sje mannsefni. Kennið því unglingunum að þekkja heiminn rjett; þá byrgið þjer brunninn áður en barnið dettur í hann. —

# IX. kafli.

## Sannleiksást.

Sál mannsins þráir sannleika. »Sannleikurinn er sagna beztur«. Maðurinn gjörir uppreisn móti rjettu eðli sínu, þegar hann vill ekki lúta valdi sannleikans. Allt það, sem er ónákvæmt, óvíst og óglöggt, skapar oss leiðindi og óánægju. — Það er ekki lítill ánægju-auki fólginn í því, að komast að rjettri niðurstöðu um hvern hlut. Kannizt þjer ekki við, hve leitt oss verður í skapi, þegar vjer komum ekki fyrir oss einum eða öðrum manni, sem fyrir augun ber; eða þegar vjer erum að bræða með sjálfum oss, hvað gjöra skuli, en vitum þó ekki, hvað af skal ráða? Vissa þykir jafnan

betri en óvissa, enda þótt óvissunni fylgi einhver vonarneisti, en vissan taki fyrir alla von. »Betra er að vita rjett en að hyggja rangt«.

Í hverjum efnum, sem vjer leitum sannleikans, er oss jafnan fagnaðarefni að finna hann; vjer þráum ósjálfrátt að þekkja hvern hlut *eins og hann er*, og oss á ekki að vera rótt fyr en vjer komumst að rjettri niðurstöðu.

Stundum er sannleikurinn gagnstæður vilja vorum, óskum eða vonum. Kemur þá fyrir, að vjer getum ekki sætt oss við sannleikann, heldur reynum að halla honum oss í vil, segjum hlutina öðru vísi en þeir eru. Þetta heitir lygi eða ósannsögli. —

Ósannsöglin er flestum löstum verri; hún setur þann blett á manninn, sem ekki verður af þveginn. Sannur sómamaður leyfir sjer ekki að víkja um hársbreidd frá sannleikanum; allir trúa honum og allir virða hann. Ósannsöglum manni trúir enginn; hann glatar virðingu og trausti allra manna. Lygin er háskalegur löstur; hún eitrar og skemmir allt sálarlíf manna. —

Allar dyggðir dökkna af þessum eina lesti. En eins og lygin eða ósannsöglin er skaðleg og bölvænleg, eins er og sannleiksástin eða sannsöglin blessunarrík. Þeim manni, sem ætíð segir satt, er viðreisnar von, enda þótt hann sje kominn allmikið afvega. —

Sú dyggðin ein er vænleg til bjargar. — Lygin er ekki einþætt, heldur margþætt; hún birtist ekki einungis í orðum og á tungu mannanna, heldur

og í verkum þeirra, viðmóti og framgöngu. Það köllum vjer hræsni. Fleiri eru lygarar en þeir, sem tala lygar; hræsnarar eru líka lygarar, því að þeir stunda að koma til dyranna öðru vísi en þeir eru klæddir, stunda að *sýnast aðrir en þeir eru*. Það er opt lítið hrós, þegar sagt er um mann: »Hann er ekki allur þar, sem hann er sjeður«. —

Börnunum á að innrætast virðing og ást á sannleikanum, svo að þau forðist lygar og hræsni.

Börnum hættir opt við að fara með ósannindi, og foreldrar eru stundum ráðalausir með að venja þenna löst af þeim.

Hvað veldur nú ósannsögli hjá börnunum?

*Í fyrsta lagi. Ósannsöglin er stundum blátt áfram sjúkdómur*. Þetta mun þykja kynlegt, en það er engu að síður satt. Nafnfrægur læknir, dr. Bourdin, hefir nákvæmlega rannsakað þetta efni, og komizt að þessari niðurstöðu. — Segir hann, að sjúkdómur þessi geti stundum orðið svo magnaður, að læknir fái alls ekki við hann ráðið. —

*Í öðru lagi. Ósannsöglin á stundum rót sína í leti.* Það kostar opt fyrirhöfn, að komast að sannleikanum, komast að sannri niðurstöðu um einhvern hlut. Ef nú iðni og þolgæði brestur, þá skapast freistingin til að koma af sjer fyrirhöfninni með ósannindum.

*Í þriðja lagi. Ósannsöglin er stundum sprottin af ótta*. Barnið getur ekkert veitt sjer sjálft; það þiggur allt úr hendi foreldranna. Bænheyrslan hjá foreldrunum fer opt eptir því, hvernig barnið ber fram þörf sína eða bæn. — Þetta veit barnið;

því hagar það opt orðum sínum eptir því, sem það heldur, að vænlegast sje til bænheyrslu, en horfir ekki í að halla sannleikannm; það skrökvar af ótta fyrir afsvari. —

Á sama hátt skrökvar barnið opt af ótta fyrir hegningu, sem það á í vændum, ef hið sanna kemst upp. Því miður er þetta stundum foreldrunum að kenna; með ýmsri ónærgætni neyða þeir opt börnin til að skrökva sjer til friðar. —

*Í fjórða lagi. Ósannsöglin getur átt rót sína í of miklu ímyndunarafli.* Sum börn hafa þegar á unga aldri mjög fjörugt og skapandi ímyndunarafl. Þau hugsa sjer og tala við sjálf sig og aðra um viðburði og atvik, sem hvergi eru til nema í huga þeirra. Þessir ímynduðu viðburðir blandast saman við það, sem í rauninni hefir borið við. Á endanum getur barnið ekki lengur gjört greinarmun á sönnu og ósönnu; það fer ósjálfrátt að skrökva.

*Í fimmta lagi. Ósannsöglin á að síðustu stundum rót sína í spilltu sálarlífi.* Barnið skrökvar vísvitandi til þess að geta fullnægt girndum sínum. —

Nú viljum vjer bera upp þrjár spurningar.

I. *Með hverju veikja og uppræta foreldrarnir sannleiksást barna sinna?* —

II. *Með hverju geta þeir eflt og glætt sannleiksástina hjá börnunum?*

III. *Með hverju geta þeir bælt niður og upprætt ósannsöglina hjá þeim?*

I. Með hverju veikja og uppræta foreldrarnir sannleiksástina hjá börnum sínum? —

*Með dæmi sínu.* Á mörgum heimilum fer konan með ýmislegt á bak við manninn og maðurinn á

bak við konuna. Börnin sjá þetta og vita; aðra stundina heyra þau móðurina halla sannleikanum til þess að fara kringum föður þeirra; en hina stundina heyra þau föðurinn ef til vill skrökva, til að dylja móðurina hins sanna. Þar að auki heyra börnin foreldrana stundum fara með opinber ósannindi við aðra menn. Drengirnir heyra föðurinn stundum ljúga, er hann telur fram fjenaðinn sinn. Telpurnar heyra móðurina ýkja til muna, þegar hún er að berja sjer og segja grannkonum sínum frá matarbirgðunum o. sv. frv. Feður og mæður! Þetta eru sáðkornin, sem þjer sáið í hjörtu barna yðvarra. Þjer kennið þeim að skrökva um leið og þau læra að tala. Það er beinlínis yður að kenna, ef þau venjast á að fara með ósannindi, er þjer hafið slíkt og þvílíkt fyrir þeim. —

*Hafið ekki í daglegu tali svardaga og stóryrði.*

Of mikil stóryrði vekja grun um veikan málstað; þau glæða þá hugsun hjá barninu, að sannleikurinn sje ekki sjálfum sjer nógur.

Foreldrarnir veikja sannleiksást barna sinna með því að láta þau sjá og heyra, að þeir vilja sýnast aðrir og meiri en þeir eru. —

Of mikill strangleiki hjá foreldrunum getur orðið til þess, að börnin venjist á að fara með ósannindi; þau skrökva sjer til friðar. Þú átt ekki að láta barnið þitt hræðast þig; það á að skoða þig sem sannan vin, en ekki sem strangan harðstjóra. Það á að finna, að þú bera umhyggju fyrir velferð þess, að það á von á fyrirgefningu hjá þjer, þó það hrasi, og huggun, ef á móti blæs. Þú átt

að venja það og aga með stillingu og alvöru, en ekki með hörku. Börnin hafa þörf á nærgætni og blíðu.

Börnin venjast á að fara með ósannindi, þegar foreldrarnir líða þeim að láta ímyndunaraflið leiða sig til að víkja frá sannleikanum. Einkum ættu mæðurnar að muna þetta. Þær eru stundum drjúgar yfir börnunum, þegar þau eru að segja frá einhverjum atburði, og þau auka hann og margfalda eptir því, sem þeim finnst við eiga, eða til að gjöra hann sögulegri. Þetta verður vanalega til þess, að börnunum verður æ tamara að laga sögur sínar fremur eptir geðþekkni sinni en eptir sannleikanum. —

Öfug kennsluaðferð getur og orðið til þess, að veikja sannleiksást barnanna. Kennsla sú, sem er ofvaxin skilningnum, sljófgar (fimmti kafli); en hún gjörir meira; hún leiðir börnin til að víkja af braut sannleikans. Þegar barnið kemst ekki af eignum ramleik fram úr lexíunni sinni, þá fær það hjálp hjá öðrum; það skreytir sig með *annara fjöðrum*. Þegar það svo kemur á fund kennarans, stærir það sig af *annara* verkum. —

Að lyktum getur heimilislífið, sem börnin eiga að venjast, orðið til þess, að veikja og uppræta sannleiksástina hjá þeim, því að »börn venjast því, sem á bæ er títt«. Af vörum foreldranna og heimilismannanna læra börnin að gjöra mun á góðu og illu. Þau hlýða á samtal og viðræður hinna fullorðnu; og mörg þau orð, sem kastað er fram hugsunarlítið, festast börnunum í minni og verða, ef til vill, til þess að leiða þau á glapstigu. Börn eiga í einu

orði að segja aldrei að heyra hina fullorðnu hafa nein þau orð eða ummæli, sem geta veikt virðingu þeirra fyrir eða ást þeirra á sannleikanum.

II. Með hverju getum vjer eflt og glætt sannleiksástina hjá börnunum? Ósannsöglin sprettur stundum af leti, sem áður er á minnzt; því ber oss að venja börnin á iðjusemi og að neyta skynseminnar til sjálfstæðrar hugsunar. Kennsla og uppeldi á að vera og er í rauninni hið sama. Hjer á landi er það gömul skoðun, að uppeldi barnanna sje einkum fólgið í því, að fleygja í þau að jeta meðan þau eru að ná þeim þroska, að þau geti orðið að vinnudýrum. En sá hugsunarháttur á að hverfa með öllu.

Sönn og rjett kennsla er einkum fólgin í því, að kenna unglingunum að leita sannleikans. Sannleiksleitin vekur smátt og smátt sannleiksþrá og sannleiksást; én sannleiksástin er mark og mið uppeldisins. —

Ef þú vilt vera góður kennari, þá láttu börnin sjálf finna sannleikann, svo sem unnt er. Sjer í lagi er reikningurinn hentug námsgrein fyrir börn og unglinga bæði til þess að hvessa skilning þeirra og til þess að venja þau á að komast sjálf að sannleikanum, hinni rjettu niðurstöðu. En »eitt er nauðsynlegt«; það er að kennarinn sje þolinmóður og nærgætinn við börnin. Hann á að leiða þau og leiðbeina þeim á braut sannleikans, en láta þau finna hann sjálf. Þegar barnið kemst sjálft að rjettri niðurstöðu, þó ekki sje nema í einföldu reikningsdæmi, þá verður það til þess að vekja hjá því gleði og ánægju og traust á sjálfu sjer.

En eptir því sem barninu fer fram, eptir því sem það finnur, að það má treysta sjálfu sjer, að sama skapi vex því og virðing fyrir sjálfu sjer. En hver sá, er virðir sjálfan sig, verður maður, ekki einungis í orði, heldur og á borði. —

Hvað sem barnið lærir, þá á það að venjast á að hjálpa sjer sjálft; og það getur hjálpað sjer sjálft, hver sem námsgreinin er, ef kennarinn beitir rjettri aðferð og er nógu þolinmóður. Allt er undir því komið, að kennslan sje í rjettu lagi. Kennið börnunum að neyta hæfileika sinna, glæðið greindina og skilninginn, venjið þau á iðjusemi og þolgæði, vandvirkni og aðgætni; þá mun ekki hjá því fara, að sannleiksástin glæðist og eflist hjá börnunum. —

Engin gleði er hreinni en sú, er maðurinn finnur, þegar hann með iðni og þolgæði hefir sjálfur fundið sannleikann, komizt að rjettri niðurstöðu um það, er hann leitaði að. Þegar maðurinn var rekinn út úr Paradís, var honum boðið að vinna; en vinnan er líka lykillinn að Paradís, Paradís sannleikans. Þá er kennslan í góðu lagi, er hún venur barnið á iðjusemi og starfsemi.

Eitt hið bezta meðal til að efla og glæða sannleiksástina hjá börnunum er, að hinir fullorðnu gæti þess, að sýnast ekki aðrir en þeir eru. — Orð vor og gjörðir eiga jafnan að vera samhljóða; vjer eigum ekki að lofa öðru en því, er vjer viljum og ætlum að efna, ekki ráðgjöra annað en það, er vjer viljum og ætlum að gjöra, ekki hóta öðru en því, er vjer viljum og ætlum að framkvæma, ef á herðir. Vjer eigum að »sníða oss

stakk eptir vexti«, ekki berast meira á en vjer höfum efni til. Happadísir heimilisins eru reglusemi og hófsemi, iðjusemi og sparsemi; þessar dyggðir eru líka verndarenglar sannleikans á hverju heimili. Mest er um það vert fyrir hvert heimili, að húsbóndinn elski sannleikann sjálfur, og láti sannleiksást sína birtast í öllum gjörðum og allri hegðun.

Heimilismennirnir semja sig optast að háttum húsbóndans, og þeim innrætist smám saman virðing fyrir þeim dyggðum, sem prýða dagfar hans. Á slíkum heimilum verður börnunum að ríkum og sterkum vana, að virða sannleikann, elska hann og fylgja honum.

III. Með hverju getum vjer að lyktum bælt niður og upprætt ósannsöglina hjá börnunum? Er líklegt, að hegningin sje einhlít til þess? Nei! Því fer fjarri.

Vjer megum alls ekki ala þá skoðun hjá börnunum, að ódyggðin sje vond af því, að hún er hegningarverð. Ódyggðin er vond af því, að hún er ódyggð. Lygin er vond af því, að hún er viðbjóðsleg í sjálfri sjer. Á heimilum vorum eigum vjer jafnan að nefna lygina með viðbjóð og fyrirlitningu.

Þegar barnið fer með ósannindi í fyrsta sinn, eigum vjer að láta sem oss bregði mjög í brún við að heyra barnið skrökva. Ef það skrökvar aptur, eigum vjer að segja því, að það eigi að blygðast sín fyrir athæfi sitt.

Það er ekki alls kostar rjett, að neyða barnið með hegningu til að játa sannleikann. Börnunum

á að vera og er nóg hegning, að vita með sjálfum sjer, að þau eru sönn að sök um, að hafa farið með lygar, og bakað sjer með því óvirðingu góðra manna.

Aptur á móti er tortryggni börnunum óholl. — Ef þú tortryggir barnið að ástæðulausu, missir þú allt vald yfir því. Tortryggni elur upp ósannsögli. Ef barnið rekur sig á, að þú trúir því ekki, er það segir satt, fer svo með tímanum, að það hættir að hirða um, hvort það fer með sannleika eða lygi. Ef barnið þitt hefur skrökvað, og þú vilt leiða það á rjetta leið aptur, þá byrjaðu með því, að leggja trúnað á orð þess. Þá finnur barnið, að þú hefir fyrirgefið ávirðinguna og gleymt henni; og það mun trauðlega vilja brjóta af sjer aptur tiltrú þína, traust og virðingu. »Börn venjast því, sem á bæ er títt«. Siðgæði heimilisins, ástúðleg og hreinskilin sambúð foreldranna og sannleiksást föður og móður er öllu öðru máttugra til að innræta börnunum ást á og virðingu fyrir sannleikanum.

# X. kafli.

## Fegurðartilfinningin.

Skilningarvitin eru fimm: sjón, heyrn, ilman, smekkur og tilfinning. Tvö hin fyrstu eru kölluð æðri; þrjú hin síðustu óæðri.

Allt það, sem vjer skynjum með augum og

eyrum, köllum vjer annaðhvort fagurt eða ljótt. Á hina hliðina heimfærum vjer ekki fegurðarhugmyndina til þeirra hluta, er vjer skynjum með hinum óæðri skilningarvitum. Litirnir eru annaðhvort fagrir eða ljótir; lyktin annaðhvort vond eða góð.

En hjer verður á fleira að líta. Máltækið segir: »Sínum augum lítur hver á silfrið«, og: »Svo er margt sinnið sem skinnið«. Það, sem einum þykir fagurt, þykir öðrum ljótt. Dómarnir um fegurðina verða því hver öðrum ólíkir. En sá einn getur fellt rjettan dóm, sem hefir næma og þroskaða fegurðartilfinningu, vit og þekkingu á, hvað við á í hverjum stað.

Eins og til er siðgæðislögmál, svo er og til fegurðarlögmál. Hver hlutur verður að hafa ákveðið snið, svip eða blæ, til þess að hann geti heitið fagur. En auk þessa erum vjer og allir á einu máli um, að telja það fagurt, sem hver kynslóðin eptir aðra hefir um margar horfnar aldir dázt að og lokið einum munni lofsorði á.

Nú spyrjum vjer: Hve nær er fegurðartilfinningin fullþroskuð hjá hverjum manni? Þegar hann er fljótur að finna, hvað fagurt er við hvern hlut. Góður smiður leggur fljótastan og rjettastan dóm á fegurð smíðisgripanna. Gott skáld finnur fljótast merginn í ljóðunum. Málarar eru manna fljótastir að koma auga á sanna fegurð náttúrunnar. Góðir og vanir söngmenn finna fljótast sanna fegurð söngs og hljóma. Og hví er svo um þessa menn? Af því að reynsla, eptirtekt og þekking hefir glætt, örfað og þroskað fegurðartilfinningu

þeirra.. Af þessu er auðsætt, að fegurðartilfinning þín getur þroskazt og þróazt af umgengni og sambúð við þá, sem lengra eru komnir áleiðis en sjálfur þú í þessu efni.

Nú ber oss þá aptur að sama brunninum, sem æ áður, sem sje að uppeldinu. Fyrst að fegurðartilfinningin getur þroskazt, þá er það og skylda vor, að leggja stund á, að hún glæðist og þroskist hjá börnunum. — Fegurðartilfinning barnanna þarf að glæðast og þroskast.

*Fyrst og fremst af* því, að hver hæfileiki mannsins á að þroskast, hvert pund, sem honum er gefið, að ávaxtast.

*Í öðru lagi* af því, að fegurðartilfinningin er í nánu sambandi við siðgæðið; en siðgæðið er undirstaðan að velferð hverrar þjóðar.

*Í þriðja lagi* af því, að fegurðartilfinningin veitir manninum marga hreina og saklausa unaðarstund, sem skaparinn hefir ætlað honum. Regla og fegurð, dýrð og prýði alheimsins er sterk bending um, að maðurinn á ekki að vera heyrnar- og sjóndauft vinnudýr, sem engu eða fáu sinnir nema munni og maga. Satt er það, að maðurinn á að vinna, leitast við að vera nýtur og gagnlegur maður og rækja trúlega skyldur þær, sem staðan í mannfjelaginu leggur honum á herðar; en hann á líka að njóta þeirrar gleði og þess unaðar, sem dásemdarverk skaparans og snilldarverk mannanna veita öllum þeim, sem opin hafa augu og eyru; maðurinn *á* að njóta þess, sögðum vér, því að fegurðarnautnin bætir manninn bæði í andlegum og líkamlegum skilningi. — Vjer höfum miklar áhyggjur og um-

svif fyrir mörgu, en eitt er nauðsynlegt, og það er, að vjer verðum og sjeum *menn* í þessa orðs dýpstu og sönnustu þýðingu, *menn* meira en í orði kveðnu.

Hinar fyrstu kröfur lífsins eru að eta og drekka, enda leitast allir við að fullnægja þeim, því að knýjandi nauðsyn rekur á eptir; en margir komast heldur ekki lengra. Fyrir því hafa verið og eru margir menn einungis fáum fótmálum fremri dýrunum. Þegar fáir eða engir andlegir hæfileikar eru glæddir hjá manninum í æsku; þegar fegurðartilfinning, sómatilfinning og sannleiksást eru svæfðar og kæfðar dýrslegri matarumhugsun; þegar askbarmurinn verður allt í frá æsku hinn eini og yzti sjóndeildarhringur mannsins; þegar sálin allt í frá fyrstu dögum meðvitundar sinnar elst í einu orði upp við svo nauman og harðan kost, að hún kannast ekki við hinn himneska og guðlega uppruna sinn og ætterni; þá er það sanna eðli mannsins leitt afvega. Margir þeir, sem þannig alast upp, verða ríkir menn; en þeir eru jafnan fátækir mitt í auðlegð sinni. Þeir finna ekki, að sál mannsins hafi neitt æðra og háleitara hlutverk en að vera reiknivjel til að leggja saman krónur og jarðarhundruð, ær og sauði, kýr og hross, þorskhöfuð og saltfisksskippund. Þeir skoða alheiminn sem mauraskemmu og sjálfa sig sem eigendur mauranna.

Feður og mæður! Örfið og glæðið fegurðartilfinningu barna yðvarra, því að með því gjörið þjer þau að góðum mönnum. Fegurðartilfinningin er nátengd siðgæðinu; þeim, sem hefir næma tilfinn-

ingu fyrir því, sem fagurt er og vel fer á, hættir síður við að saurga líkama og sál með saurugum athöfnum. Sá, sem elskar og virðir það, sem fagurt er, mun og vanalegast elska og virða það, sem gott er. Örfið og glæðið fegurðartilfinningu barna yðvarra, því að með því gjörið þjer þau að sómamönnum. Fegurðartilfinning og sómatilfinning eru systur.

Erlendis eiga menn kost á mörgu til að örfa og glæða fegurðartilfinninguna, sem menn ekki eiga kost á hjer á landi, sízt til sveita. Má til þess nefna skrautbyggingar, listaverk myndasmiða og málara og fagran söng. Alþýða hjer á landi hefir af fæstu af þessu að segja. En höfum vjer þá ekkert á hinni fátæku ættjörðu vorri, sem geti glætt fegurðartilfinninguna hjá alþýðu? Jú! Vjer höfum bæði margt og mikið, ef vjer viljum nota það. Vjer höfum það, sem öllum listaverkum mannanna er ágætara: dásemdarverk drottins, sem hjer eru til eigi síður en víða annarsstaðar, og vel löguð til þess að glæða fegurðartilfinninguna hjá þeim, sem ekki eru bæði blindir og heyrnarlausir. Vjer höfum blessaða sólina, sem lífgar allt og endurnærir með il sínum og birtu, og sem er ímynd guðs kærleika, sem er yfir öllu, sem og í öllu. Er hún ekki fögur og hátignarleg, er hún að morgninum brunar fram á himinhvolfið og varpar geislaljóma sínum um himin og jörð, um hauður og haf, og vekur allt til lífs og starfa, eða er hún á kveldin hnígur í sæinn og stráir himneskum ljóma um loptið, gullfaldar skýin og breiðir glitrandi friðarblæju yfir allt, sem lifir? Vjer höfum himinhvelfinguna með

hinum óteljandi stjörnugrúa. Er ekki himininn fagur og hátignarlegur á heiðskírri vetrarnóttu, þegar hinn ótölulegi fjöldi himinhnattanna tindrar og blikar yfir höfði manns og minnir ósjálfrátt á miskunnarverkin drottins, sem líka eru óteljandi, og á augun á himnum uppi, sem aldrei lykjast aptur og allt sjá? Vjer höfum fjöllin himinblá og »fannhvíta jöklanna tinda«. Eru þeir ekki fagrir og hátignarlegir, er sólin klæðir þá geisladýrð sinni kvöld og morgna sem guðvefjarmöttli, eða er þeir teygja drifhvíta tindana til himins og baða sig í himinblámanum? Vjer höfum jörðina fyrir augum vorum, sem að vísu er heimkynni eymda, hryggðar og margfaldrar mæðu, en sem líka er talandi vottur um dásemdir drottins. Er hún ekki fögur á vorin og á sumrin, er drottins hönd klæðir hana hinu græna skrúði og skreytir hana hinum marglitu blómum? Finnst yður ekki unaðslegt að litast um á fögrum sumardegi og renna auga yfir ættjörðina okkar, »þar sem um grænar grundir líða skínandi ár að ægi blám«?

Jú! satt er það, sem skáldið kvað:

»Landið er fagurt og frítt og fannhvítir jöklanna tindar,<br>
Himininn heiður og blár, hafið er skínandi bjart«.

Vjer höfum fleira til að örfa og glæða fegurðartilfinninguna. Vjer höfum það, sem allar menntaðar þjóðir telja öflugt meðal: ljóð skáldanna, sem lýsa fyrir oss því, sem fagurt er, snerta hina beztu strengi hjartna vorra, hrífa hjarta og sál og knýja oss til að virða og elska það, sem fagurt er og gott. Vjer höfum sögurnar um dáð og dyggðir,

hreysti og karlmennsku, kjark og þrek forfeðra vorra. Vjer höfum margar bækur, sem geta vakið, örfað og glætt allar góðar tilfinningar. Í einu orði: Vjer getum alls ekki barið því við, að vjer höfum ekki nóg meðul til að örfa og glæða fegurðartilfinninguna. Oss vantar annað fremur, sem sje viljann og áhugann, en þó einkum þá hugsun, að þörf sje á, að glæða fegurðartilfinninguna hjá börnunum. Öll meðul, sem geta örfað og glætt fegurðartilfinninguna, verða til ónýtis, ef menn hvorki heyra nje sjá. Því er það ein af aðalskyldum allra foreldra, að opna augu og eyru barna sinna fyrir því, sem fagurt er; því ef menn bæði heyra og sjá vel, þá er nóg fagurt til að heyra og sjá; fyrir augum og eyrum mun þá opnast nýr heimur, sem menn áður höfðu ekki af að segja, enda þótt menn lifðu í honum, og sá heimur er fullur af sannri fegurð, dýrð og dásemdum. Menn kvarta opt yfir því, að þeir hafi hvorki tíma nje efni til að leita sjer skemmtana. Þetta er fráleitt. Hin hreinasta, saklausasta og bezta skemmtun og unun, sem maðurinn getur notið, kostar optast ekkert og tekur engan tíma frá öðrum nauðsynlegum störfum. En skemmtunin er sú, að skoða með hreinu hjarta dásemdarverk drottins bæði í ríki náttúrunnar og náðarinnar. Þetta getur hver sem vill. Enginn dagur ætti að líða svo, að maðurinn virði ekki fyrir sjer eitthvað það, sem fagurt er.

*Fegurðartilfinningin á að birtast í öllu lífi manna.* Þegar er börnin hafa vit á, eigum vjer að sá

frækornum þessarar tilfinningar í hjörtum þeirra; af þeim frækornum munu spretta blessunarríkir ávextir. Enda þótt vjer rækjum öll störf vor með stökustu iðjusemi og trúmennsku, þá leifast oss ætíð einhverjar stundir, einkum á kveldin, sem verða á milli verka. Þessar stundir eiga ekki að vera iðjuleysisstundir; þær geta verið hvíldarstundir fyrir það. Vjer eigum að verja þeim til þess að gróðursetja hjá börnunum það, sem fagurt er, gott og sómasamlegt. Þá verða þessar stundir fremur öllum öðrum blessunarstundir bæði fyrir börnin vor og sjálfa oss.

*Allt það, sem snertir oss og vjer höfum með höndum, á að bera vott um næma fegurðartilfinningu.*

*Fyrst teljum vjer hýbýlin.* Hýbýli fátæklinganna geta verið snotur og þokkaleg, meira að segja falleg, þótt ekki sjeu þau ríkmannleg. Það skiptir miklu, hvert heimilið er, þó fátækt sje. Á öðrum staðnum er allt vel um gengið, hreint, snoturt og þokkalegt, allt í röð og reglu, hver hlutur á sínum stað; og það er beinlínis skemmtilegt, að koma á þessa bæi, enda þótt allt beri vott um lítil efni, og veitingar sjeu ekki ríkmannlegar. Aptur eru önnur heimili, þar sem óhirða og sóðaskapur og öll ill háttsemi er samfara fátæktinni, þar sem allt ber vott um, að húsbændurnir geta eða vilja ekki gjöra neinn mun á því, sem fagurt er eða ljótt. En það eru ekki einungis fátæktarheimilin, sem eru með þessu marki brennd. Hýbýlaprýðin fer ekki nærri allt af eptir efnunum. Margt efnaheimilið er ósóminn sjálfur, svo snauð eru hýbýlin

að allri fegurð og prýði, og heimilismennirnir að allri fegurðartilfinningu. Hýbýlunum sumstaðar á Íslandi er við brugðið fyrir það, hve þau eru óföggur, óþokkaleg og óholl; og það er, — vjer verðum að játa það —, ekki um skör fram. Moldarranghalarnir frá bæjardyrum til baðstofu, margir faðmar á lengd, og bæði þröngir og lágir, krókóttir og koldimmir; eldhús og búr gluggalausar moldarkompur; baðstofurnar lágar, þröngar og dimmar. Súð og þil svart af ljósreyk og óhreinindum, gólfið með þykkri skán og gluggar litlir í sjálfu sjer, enda byrgir gluggatóptin sumstaðar alla birtu úti. Við þetta bætist óþrifnaður, óhirða og ýmiss konar óregla á því, sem innanstokks er. Á þessa leið hafa hýbýlin verið víða. Mikið er þetta að vísu að lagast víðast hvar; en sumstaðar enn þá langt frá að vel sje. Hvernig má nú ætlast til, að fegurðartilfinning geti vaknað og glæðzt hjá börnum þeim, sem alast upp í slíkum hýbýlum; eða að þeir, sem eru ánægðir með þessi hýbýli, hafi nokkurn snefil af fegurðartilfinningu sjálfir? Byggingarlagið þarf og verður að breytast. Hýbýlin verða að vera björt og loptgóð; því fylgir lítill kostnaður. Þau eiga að vera hrein og þokkaleg; það geta allir veitt sjer, því nóg er vatnið á Íslandi. Allir innanstokksmunir eiga að vera í röð og reglu; það geta flestir innt af hendi. Í þessum efnum skiptir það minnstu, hvort menn eru ríkir eða fátækir; mest er undir viljanum og hugsunarhættinum komið. Fátæka konan getur þvegið baðstofuna sína engu síður en kona ríkismannsins, og efnalítill

bóndi, sem á annað borð verður að byggja, getur, ef hann vill, með svo litlum kostnaðarauka, að ekki er teljandi, hagað hýbýlum sínum á þá leið, að þau sjeu snotur og lagleg, enda falleg. Hann verður einungis að hugsa dálítið öðruvísi en afi hans og langafi, sem lifðu á grútarlampa- og skjágluggaöldinni. »Sexrúðnagluggi, ekki nægðu fjórir«, sagði Bárður gamli á Búrfelli. — Hugsunarháttur þeirra barna, sem alast upp í snotrum og laglegum hýbýlum, verður allur annar en þeirra, sem alast upp í moldarkofum, dimmum og daunillum. Þjer gjörið það ekki einungis fyrir yður sjálfa, að bæta hýbýli yðar; þjer gjörið það fyrir börn yðar og barnabörn, meira að segja fyrir ættjörðina, sem þjer eruð skyldir að elska.

*Þá teljum vjer klæðnaðinn.* Um klæðnaðinn má að mörgu leyti segja nærfelt hið sama og um hýbýlin; hann fer vanalega mikið eptir hýbýlunum. Klæðnaðurinn er hjá mörgum manni ófagrari og óþokkalegri en hann bæði þarf og ætti að vera. Föt eru opt illa sniðin, fara illa og eru óþrifaleg; og það er langt frá, að það sje nokkuð dýrara að láta þau fara vel og halda þeim hreinum. Fatnaðurinn utan á sumum mönnum er ljós vottur þess, hve snauðir þeir eru að fegurðartilfinningu. Bæði hjá körlum og konum má ráða í hugsunarháttinn af klæðaburðinum. Illa sniðin og óþokkaleg föt á aðra hliðina, og hjegómatildur og prjál á hina hliðina ber hvorttveggja vott um skort á sannri fegurðartilfinningu. Fegurðartilfinningin heimtar fyrst og fremst, að klæðnaðurinn sje hreinn og þokkalegur. Sóðarnir afsaka óþverraskap sinn með hinu

alkunna orðatiltæki: »Þeir verða að vera saurugir, sem saurugt vinna«. Þetta er að sumu leyti satt; en mjög er það misjafnt, hve saurugir menn verða, þótt þeir gangi að óhreinum verkum; fer það sem annað eptir vananum. Það er upphaf annars meira, að börnin sjeu snemma vanin á, að klæða sig laglega, láta fötin fara vel utan á sjer. Þó að fötin sjeu bætt og fátækleg, þá geta þau samt farið vel og verið hrein. En það er of opt ein af óheillafylgjum fátæktarinnar, að fegurðartilfinningin dofnar og menn láta sjer standa nærfelt á sama, hvernig þeir ganga til fara. Á hina hliðina virðast líka sumir menntunarlausir mauraseggir að álíta, að þeir hafi einkaleyfi til að meiða alla fegurðartilfinningu, af því að þeir eru efnaðir; efnin eiga hjá þessum mönnum að löghelga sóðaskapinn. Sóðarnir segja með drýgindum: »Hann er ekki að halda sjer til, hann Jón gamli; en hann á eitthvað í handraðanum sínum«. Svo er hugsunarhátturinn gjörspilltur hjá sumum mönnum, að þeir telja þrifnað og hirðusemi í klæðaburði og framgöngu hjegómatildur, sem í raun og veru sje athlægi. Konurnar og mæðurnar geta mest um gjört til að ráða bót á þessum brestum.

En í nánu sambandi við þokkaleg hýbýli og snotran klæðaburð er hreinlæti í mataræði og líkamlegur þrifnaður, en það hvorttveggja þarf stór-umbóta við hjer á landi. Vjer megum ekki gleyma því, að það, sem börnin alast upp við, verður þeim að vana; en vondur vani er hið þyngsta ánauðarok, sem á manninum liggur. Mæður! Þótt efni ykkar kunni að vera lítil, þá er ykkur innan

handar, að hafa matinn hreinan, þvo og greiða sjálfum ykkur og börnunum daglega. Með þessu gjörið þjer sjálfum ykkur sóma, en börnunum mikið gagn.

En orðin eiga líka að bera vott um næma fegurðartilfinningu. Hvorki klámyrði eða blótsyrði eiga að heyrast á heimilum vorum; börnin eiga ekki að fá færi á að heyra þess háttar orðræður. En »því að eins læra börnin málið, að það er fyrir þeim haft«. Feður og mæður! Kennið börnum ykkar að tala skýrt og rjett; kennið þeim fagra rithönd; þetta atriði er mikilsvert. Venjið þau á að fara vel með bækur sínar, fötin sín og allt, sem þau hafa með höndum. Með öllu þessu vekið og glæðið þjer fegurðartilfinninguna hjá þeim; með þessu venjið þjer þau á að virða og elska það, sem fagurt er, en líka það, sem gott er. Fegurðin heimtar reglu, samræmi og jafnvægi. Þess vegna er þroskuð fegurðartilfinning rót fagurrar og heiðarlegrar hegðunar í orðum og athöfnum. Fögur og heiðarleg hegðun er helg skylda; þeir menn, sem fremur öðrum rækja þessa skyldu, eru salt jarðar; »því gott má af góðum hljóta«.—

## XI. kafli.

### Siðgæðistilfinningin.

»Heldur vil jeg fylgja barninu mínu til moldar, en sjá það rata í synd og lesti«. Hverjum foreldrum er sómi að þessum orðum; því að þó vjer

óskum börnum vorum allrar tímanlegrar gæfu og hamingju, þá óskum vjer samt helzt allra hluta, að þau verði *góðir menn.* »Ólán barnanna er meira en það taki tárum«.

Sönn gæfa er ekki bundin við skarpar gáfur, vísindi eða auðlegð; heldur á hún rót sína í friði sálarinnar og góðri samvizku. Átölur samvizkunnar verða ekki þaggaðar niður með auðsafni, munaði eða fróðleik. Samvizkan eltir manninn hvar sem hann er, eða hvert sem hann fer; hún fylgir honum sem skuggi yfir fjöll og firrnindi, yfir láð og lög; rödd hennar er það seinasta, sem hann heyrir á kveldin, er hann sofnar, og það fyrsta, sem hann heyrir á morgnana, er hann bregður blundi; meira að segja, milli dúranna, í hinni þögulu næturkyrrð á hann ekki friðarstund fyrir ákærum hennar. Átölur hennar reka alla ánægju á flótta og banna manninum alla gleði. Þetta er oss að vísu öllum kunnugt; en þó gleymum vjer því iðulega, er um uppeldi barna vorra er að ræða.—

Hver maður finnur með sjálfum sjer, að það er skylda hans, að gjöra það, sem hann telur gott og rjett. Um hitt eru menn ekki ætíð á eitt sáttir, hvað sje gott og rjett.—

Í hvers manns brjósti er rödd, sem segir: »Þú átt að gjöra það, sem þú telur rjett og gott: en forðast það, sem þú telur rangt og illt«. Þessi rödd heitir samvizka. Samvizkan getur verið rúm eða þröng, dauf eða næm, sofandi eða vakandi. Hver maður hefir samvizku; og þó að samvizkan sofi um tíma, þá mun hún vakna seint eða snemma.

En því lengur sem hún hefir sofið, því harðari munu átölur hennar, er hún vaknar.

Nú munu menn segja: »Þó að samvizkan áminni oss um, að gjöra það, sem vjer teljum gott og rjett, hvernig getum vjer þá gjört rjettan mun á góðu og illu, rjettu og röngu?». Þetta lærist mönnum á fleiri en einn veg.

*Í fyrsta lagi:* Samvizkan sjálf kennir oss opt að gjöra rjettan mun á rjettu og röngu, góðu og illu.

*Í öðru lagi:* Siðgæðisreglur mannfjelagsins.

*Í þriðja lagi:* Uppeldið.

*Í fjórða lagi:* Kennslan.

*Í fimmta lagi:* Siðgæðiskenningar og dæmi ágætismannanna.

Í hverju fjelagi eru fleiri eða færri, sem vjer köllum ágætismenn. Hvernig er þessum mönnum farið? Þeir gjöra fremur öðrum fljótan og glöggan mun á rjettu og röngu, góðu og illu. Þá er siðgæðistilfinningin þroskuð hjá manninum, er hann enda í smámunum er fljótur að ganga úr skugga um, hvað rjett er og gott, eða rangt og illt.

Hvert heimili er skóli; heimilisfólkið, sem barnið elzt upp með, leiðbeinir því fyrst allra manna á veg siðgæðis og dyggða; það kennir barninu fyrst að gjöra mun á góðu og illu. Barnið hefir ekki annað að fara eptir en siðgæðisgreind foreldranna; það er eins komið upp á foreldrana í þessu efni, sem öllu öðru. Barnið telur orð og athafnir föður síns góðar, rjettar og eptirbreytnisverðar. Það, sem faðirinn leyfir sjer að gjöra, telur barn-

ið sjer og leyfilegt. *Hegðun foreldranna er siðgæðislögmál barnanna.*

Þetta er umhugsunarvert, og sýnir oss þýðingu og afleiðingu orða vorra og athafna. Ekki mundi ástæðulaust, þótt sumir foreldrar fengju hjartslátt, ef þeir íhuguðu rækilega sannleika þessara orða. Margir foreldrar finna þetta líka ósjálfrátt. Þegar heimilisfólkið eða einhver gesturinn er að segja einhverja óþverrasöguna, þá segir faðirinn eða móðirin: »Látið þið ekki krakkana heyra þetta!«. Í raun og veru ætti enginn maður að fara með það, sem er svo illt, að börnin ekki mega heyra það. En það er þó gleðilegt, þegar maðurinn ber virðingu fyrir sakleysi og hreinleika barnanna, þótt hann sje spilltur sjálfur.

Af orðum vorum og athöfnum læra börnin fyrst að gjöra mun á góðu og illu; en þau læra það líka af heimilislífinu, heimilisháttunum, anda þeim, sem lifir á heimilinu, lífslopti heimilisins, sem þau anda að sjer daglega. Það er sannreynt, að börnin taka öllum mönnum betur eptir því, sem fram fer umhverfis þau. Sál barnanna tekur vel á móti öllu því, er utan að kemur; hún rúmar fáar hugmyndir, en geymir þær því lengur bæði ljósar og skýrar.

*Vertu því sjálfur eins og þú vilt að barnið þitt verði.*—

Fallegar sögur eru vel lagaðar til að vekja og glæða siðgæðistilfinninguna hjá börnunum. Það er kostur við hverja móður, ef hún kann mikið af fallegum sögum og getur sagt vel frá þeim. Vjer höfum áður minnzt á rökkurstundirnar. Vjer segj-

um enn: Mæður! Helgið börnunum yðar þessar stundir; þær eru mjög vel lagaðar til þess á þeim að gróðursetja frækorn siðgæðis og dyggða í hjörtum barna yðvarra.

Vjer eigum sem sjaldnast að tala um það, sem illt er eða ljótt. Það hefir verið sagt um róginn, að hann skemmi bæði þann, sem rógber, þann, sem rógborinn er, og þann, sem hlýðir á róginn. En þetta á heima um allt illt. Máltækið segir: »Fýsir eyru illt að heyra«; en sú fýsn er spillt og óhrein, og leiðir aldrei gott af sjer. Börn og unglingar ættu helzt aldrei að heyra frásögur af vondum og spilltum mönnum, eða um saurugar og viðbjóðslegar athafnir. Þær greiða því, sem illt er, smátt og smátt götu inn í barnshjartað.

Feður og mæður! Munið, að þjer sjálf eruð bók sú, er veitir börnunum hina fyrstu þekkingu á því, sem gott er.

Börnin sýna ykkur tilbeiðslu; stundið að eiga þá tilbeiðslu skylda.—

En hjer verður að nefna fleiri til sögunnar en foreldrana eina. Vinnuhjúin eiga líka mikinn þátt í að lífga og glæða siðgæðistilfinninguna hjá börnunum eða þá deyða hana. Góð hjú bæta börnin með umgengni sinni, en vond hjú spilla þeim. Samvist með vondum hjúum hefir því miður hellt eitri í hjörtu margra barna, og skapað mörgum saklausum smælingja ógæfu og bölvun, en foreldrunum harm og hugarangur. Feður! Haldið spurnum fyrir um siðgæði hjúa þeirra, sem þjer hugsið til að ráða til ykkar. Leiðið ekki úlf-

inn í lambahópinn. »Seint er að byrgja brunninn, þá barnið er dottið í hann«.

Menntunin, sem unglingunum er veitt, á að miða að því, að glæða siðgæðistilfinninguna; hún á að fela í sjer frækorn dyggða og siðgæðis; að öðrum kosti er hún ekki vegur gæfu og blessunar. Þó að trúarlífið hjer á landi sje ekki svo blómlegt sem æskilegast væri, þá er samt skaparanum svo fyrir þakkandi, að vjer þurfum ekki að taka undir með erlendum rithöfundum, sem kvarta yfir því, að börnunum sje jafnvel síðast af öllu kenndur lærdómurinn um trú og siðgæði, af því að hin almenna menntun og einhver snefill að fegurðartilfinningu eiga að vera þeim einhlít.—

Þessi skoðun er ramskökk; viljum vjer óska þess, að hún rótfestist aldrei hjer á landi. Menntun og mikil þekking er ekki nærri allt af samfara siðgæði; því er miður. Margur menntaður maður er siðlaus og spilltur. Hjá sumum stórþjóðunum hafa fagrar listir og margháttuð vísindi verið í mestum blóma beint á þeim tíma, er þær voru sokknar niður í svívirðilegasta siðleysi.—

Þeir menn, sem lífga og glæða siðgæðistilfinninguna hjá æskulýðnum og leitast við með orðum og eptirdæmi, að leiða hann á veg siðgæðis og dyggða, eru þörfustu menn þjóðanna. Hver þjóð þarf og á að virða fræðslu þeirra; því að trú og siðgæði er grundvöllurinn undir velferð mannkynsins.

Margt bendir á, að siðgæðistilfinning hinnar uppvaxandi kynslóðar sje engu ver á vegi hjer á landi en erlendis. Viljum vjer því til staðfest-

ingar tilgreina orð eptir merkum erlendum presti. Hann segir um þetta efni: »Jeg á engin orð yfir hið hörmulega ástand vorra tíma; enda munu afleiðingarnar koma í ljós. Talaðu við tvítuga menn um hitt og þetta; og þeir munu svara þjer skynsamlegum orðum. En berist svo talið að siðgæðistilfinningu og siðgæði, þá kemur ekkert orð af viti talað af vörum þeirra. Foreldrarnir hafa enga fræðslu veitt þeim í þessum efnum; og börnin hafa, sem ekki er ótítt, þverskallazt þangað til, að foreldrarnir ljetu undan og hættu við að láta þau ganga til prestsins. Jeg ímynda mjer, að þetta hefði ekki komið fyrir, ef mönnum skildist, hve mikið í þetta efni er varið«.

Vjer viljum tilgreina hjer þessi orð, ekki til þess, að Íslendingar komist á þá trú, að þeim sje í engu ábótavant, og þeir því megi leggja árar í bát, heldur til þess að menn varist þessi víti; því að »til þess eru vond dæmi að varast þau«.

Eitt hið kröptugasta meðal til að lífga og glæða siðgæðistilfinninguna hjá unglingunum er, að láta þá kynnast kenningum og lífi ágætismanna mannkynsins. Hinar fögru og háleitu hugmyndir spámannanna og spekinganna þurfa og eiga að vera sem flestum kunnar; þær eru sem ljós, er ekki ber birtu, ef það er sett undir mæliker, eða byrgt í skúmaskoti gleymsku og vanþekkingar. Hitt er líka víst, að siðgæðinu fer aptur og siðgæðistilfinningin dofnar, ef menn ekki endurnæra anda sinn af hugsunum hinna djúpvitru spekinga, sem að lífsreynslu og háfleygri andagipt hafa borið höfuð og herðar yfir samtíð sína; andi þeirra lifir kynslóð

eptir kynslóð í ritum þeirra; þau eru og verða jafnan lind og uppspretta fróðleiks, huggunar og siðbætandi kenninga. Bók sú, er í þessu efni tekur öllum bókum fram, er biblían. En auk hennar eru margar aðrar góðar bækur, fornar og nýjar, sem of langt yrði hjer upp að telja.—

Af þessu leiðir, að lestur biflíunnar er öllu öðru betri til að efla siðgæðið og örfa siðgæðistilfinninguna; ætti öllum foreldrum að vera það alvöru- og áhugamál, að láta börn sín kynnast henni; og fáir dagar ættu að líða svo, að börn sjeu ekki látin lesa í henni einn eða tvo kapítula. Hún er *orð Guðs*, beittara hverju tvíeggjuðu sverði, máttugt að hreinsa og helga manninn; um orð hennar megum vjer taka undir með skáldinu:

Það hreystir hug í neyð,
Það huggar sál í deyð.
Lát börn vor eptir oss
Það erfa blessað hnoss.
Æ, gef það glatist engum.

Eitt viljum vjer taka fram að lyktum. Eins og það er skylda vor, að brýna fyrir börnunum dyggð og siðgæði, eins verðum vjer að varast að »nudda« við þau um dyggðina. Það vekur hjá þeim leiða; en því, sem börnin fá leiða á, hætta þau að skeyta.—

Stundum kemur það fyrir, að börn beztu foreldra líða skipbrot, komast á háskalega afvegu. Handa þeim foreldrum, sem verða fyrir þessari mæðu, höfum vjer tvenn andsvör:

*Í fyrsta lagi.* Ef illa fer, er foreldrunum það hin mesta og bezta huggun, að vita með sjálfum

sjer, að þau hafa gjört allt, sem í þeirra valdi stóð, til þess að afstýra ógæfunni.

*Í öðru lagi.* Ef foreldrarnir hafa gjört allt, sem í þeirra valdi stóð, þá rætast jafnan þau orð, sem biskupinn frá Tagaste mælti móður Ágústínusar til huggunar: »Sonur slíkra bæna og tára getur ekki glatazt«.

## XII. kafli.

### Ánægjan.

»Sínum augum lítur hver á silfrið«. Þunglyndur maður lítur öðrum augum á heiminn en jettlyndur maður, gamalmennið öðrum augum en unglingurinn; himininn lítur öðru vísi út í augum þínum þá stundina, sem vel liggur á þjer, en þá, er illa liggur á þjer. Fyrir þessa sök metur þú heiminn eptir því, hvernig þjer sjálfum er háttað, en síður eptir því, hvernig hann er í sjálfum sjer. Geðsmunir og lundarfar ráða miklu um heill manna og hamingju. Þunglyndur maður telur lífið »krossgöngu« og jörðina »táradal«, sem ekki beri aðra ávexti en þyrna og þistla; honum finnst allt ganga andsælis. Fyrir ljettlyndum manni er þessu háttað á aðra leið; í augum hans er jörðin Paradís, lífið leikur; og honum finnst blessun drjúpa af hverju strái.—

Ljettlyndi og ánægjan eru systur. Ánægjan er líf og sál starfseminnar og lind framtaksseminnar og dugnaðarins. Ánægjulaus maður er sem skip-

brotsmaðurinn, er hvergi sjer til lands, verður því afhuga allri lífsvon og hættir »að klóra í bakkann«. En ánægjan er líka uppspretta mannúðar og mannkærleika. Ef þú ert óánægður, hefir þú allt á hornum þjer; ef þú ert ánægður með og við aðra menn, þá lætur þú hvern mann njóta sannmælis. Víst er um það, að ánægjan er blessun; en hitt er engu síður víst, að það er skylda vor að leita ánægjunnar.—

Sönn ánægja er annað en skemmtanir; meira að segja, skemmtununum fylgir ekki ætíð ánægja. Ánægjan er hreint og skírt gull; skemmtanirnar sorablanda með gullslit. Skemmtanirnar eru stundargaman; ánægjan stöðug. Þegar allt fer að felldu koma skemmtanirnar á eptir störfunum; ánægjan aptur á móti fylgir störfunum og vekur líf og styrkleika í hverjum aflvöðva mannsins. Þeim manni er aumlega farið, sem nýtur skemmtana í stað ánægju. Ánægjulausar skemmtanir auðvirða manninn, því þegar skemmtanirnar eru hjá liðnar, er maðurinn hvorki sælli nje betri eptir. Skemmtanir eru manninum aldrei hollar nema eptir vel unnin störf; en þá á maðurinn líka rjett á að njóta hóflegra skemmtana.—

Það er hraparleg villa, að ætla, að ánægjan sje bundin við auð og allsnægtir. Vjer þurfum ekki að leita langt til að komast að raun um, að auðmennirnir »hafa sinn djöful að draga«; undir skrautklæðunum býr opt sá ormur, sem ekki deyr. Um ánægjuna má opt segja, að »opt er það í koti karls, sem kóngs er ekki í ranni«. Ánægjan er hnoss, sem kostar manninn mikla baráttu.

bæði við heiminn og sjálfan sig. En uppeldið á að kenna mönnum og gjöra þá færa um að höndla þetta hnoss.—

En getur þá uppeldið átt þátt í að efla ánægju manna? Því skulum vjer leitast við að svara.—

Lundarfar og geðsmunir fara mjög eptir heilsufari. Heilsa og hreysti auka mönnum gleði og ljettlyndi; vanheilsa aptur á móti ógleði og þunglyndi. Bæði börn og fullorðnir eiga sammerkt í því, að illa liggur á þeim, ef þeim líður illa. Af þessu er auðsætt, að uppeldi það, sem veitir líkamanum góðan og hæfilegan þroska, eflir og þroska og framfarir sálarinnar. Góð aðhlynning, góður aðbúnaður og nærgætni á æsku-árunum eru undirstaða góðrar heilsu og hreysti á fullorðins-árunum og um leið margfaldra heilla og hamingju.—

Foreldrarnir eiga að herða og styrkja líkama barna sinna, svo að þau verði hraust og harðgjör, svo að þeim vaxi þrek og þróttur. Ánægjan er mikið komin undir því, að maðurinn ekki bogni sem strá fyrir vindi, þótt á móti blási.—

Sje einhverju skilningarviti barnanna áfátt, þurfa þau að læra í tíma að neyta hinna því betur. Of mikil vorkunnsemi og hjálpsemi geta orðið til þess, að gjöra barnið að enn meiri aumingja. Maðurinn er svo gjörður af skaparanum, að eitt skilningarvitið getur mikið bætt annað upp. Hjá blindum hvessist heyrnin; hjá heyrnarlausum skerpist sjónin og tilfinningin. Það er ekki ógæfuefni fyrir manninn, þótt hann vanti eitt skilningarvit; því maðurinn saknar síður þess, er hann aldrei hefir hlotið.—

Blindur maður, er Wilson hjet, ljet árið 1820 prenta bók eina, þar sem hann segir frá lífi sínu og 54 manna annara, sem allir voru blindir. Meðal þessara manna voru skáld, söngfræðingar, háskólakennarar, prestar og ýmsir frábærir hugvitsmenn; og um alla þessa menn er í bók þessari kveðinn upp sá dómur, að þeir hafi borið »kross« sinn með einstöku jafnaðargeði og ánægju.

Vjer höfum áður drepið á (6. kafli), að vjer kunnum illa öllu því, sem óskýrt er og óglöggt.— Í hverjum efnum, sem er, gjörir óreglan oss leitt í geði; skipulag og regla aptur á móti vekur hjá oss gleði og ánægju. Því þarf reglusemi að verða börnunum að vana. Reglusemi í öllumhlutum mun veita þeim marga ánægjustund. Af óreglunni leiðir margt illt, þar á meðal það, að þó menn sjeu sí og æ í önnum, þá koma menn engu áleiðis; menn berjast »eins og sá, er í vindinn slær«. Fer því svo á endanum, að menn verða leiðir á störfum sínum og óánægðir bæði með störf sín, stöðu sína og sjálfa sig.

Vjer höfum þá bent á, hvernig góð heilsa og reglusemi eiga þátt í að efla og auka ánægjuna; nú munum vjer minnast á hina alkunnu hamingjudís mannanna, sem fremur öllum öðrum hlutum veitir þeim sanna ánægju. Þessi hamingjudís er:

*Vinnan.*

Vjer köllum vinnuna hamingjudís mannanna, því að hún leiðir frið og rósemi inn í hjörtu þeirra, mýkir meinin, bætir bölið, huggar menn í hörm-

um, styrkir þá í mannraunum og sættir þá fremur flestu öðru við kjör þeirra. Venjum því börnin á að vinna, venjum þau á iðjusemi og starfsemi, venjum þau á að virða og elska vinnuna. Ánægjan fylgir vel unnu starfi sem birtan ljósinu; og á hina hliðina þarf enginn að hugsa til að finna sanna ánægju, sem ekki hefir eitthvert nytsamt starf með höndum.—

Vinnan veitir manninum gagn og sóma, eykur heilbrigðina og á meira að segja drjúgan þátt í andlegri og eilífri velferð mannsins. Engin hugsun færir manninum hreinni gleði en sú meðvitund, að vel unnin og nytsöm störf liggja eptir hann; og aldrei er maðurinn ánægðari með sjálfan sig en þá, er hann lítur yfir unnin störf og finnur með sjálfum sjer, að hann hefir unnið þau með trúmennsku.

Vinnan er vegurinn til farsældar og ánægju.—

Börnin eiga ekki að fá allt, sem þau kunna að girnast, eiga ekki að fá allar óskir sínar uppfylltar. En sumir foreldrar veita samt börnum sínum allt, sem þau biðja um, láta allt eptir þeim, sem þeim dettur í hug. Segja foreldrarnir þá, að ekki tjái annað en að láta það, sem hægt sje, eptir barna-aumingjunum; sá komi tíminn, að þau verði að fara á mis við það, sem þau langar til, það sje annaðhvort, þó að þau njóti ánægjunnar meðan hægt er. Þetta er skökk, ramskökk skoðun. Með þessu móti verða börnin æ heimtufrekari, kröfur þeirra fara æ vaxandi; og seinast geta hvorki þau sjálf nje aðrir fullnægt þeim; þeim þykir á fullorðins-árum ekki neitt til neins koma, og þau

finna ekki ánægju í neinu. Auðmaður einn gaf syni sínum silfurúr, þesar hann var 9 ára gamall, en gullúr, er hann var 12 ára. Hvernig átti nú faðirinn að halda áfram? Og hvað hefði drengurinn átt að fá um tvítugsaldur, sem honum hefði þótt ánægja að? Satt er hið fornkveðna: »Fáir kunna eitt barn að eiga«.

Ánægjan er bundin við það, að vjer getum glaðzt yfir smámununum; en vjer gleðjumst ekki á fullorðins-árunum yfir smámunum, ef vjer í æskunni höfum fengið allt, sem oss þótti girnilegt. Ofneyzla á æskuárunum getur af sjer óánægju á fullorðins-árunum; æsku-árin eyða þá arfleifð fullorðins-áranna.—

Þeim manni er vorkunn, sem um tvítugs-aldur er búinn að tæma í botn bikar unaðsemda og skemmtana.—

Veitið því ekki börnum yðar of miklar skemmtanir; geymið eitthvað til fullorðins-áranna. En um fram allt gætið þess vandlega, að börnin venjist ekki á, að leita sjer skemmtunar í því, sem er ósæmilegt eða ósamboðið aldri þeirra.—

Sje uppeldinu hagað á þessa leið, er vjer nú höfum drepið á, þá munu menn komast að raun um, að hvert tímabil æfinnar hefir sínar unaðssemdir, óskir og vonir; óskir þessar hvetja manninn aptur til starfsemi; en störfin færa honum gleði og ánægju.—

Auk þessa, sem nú hefir verið talið, er og margt annað, sem eykur mönnum saklausa gleði og skapar þeim marga ánægjustund. Má til þess

nefna fremur mörgu öðru fögur ljóð og fagran söng.—

Kennið því börnum yðar fögur kvæði eptir góðskáld vor og látið þau syngja. Látið þau syngja í rökkrunum, ef þær stundir eru ekki notaðar til annars. Venjið þau á að syngja vel, ekki með tryllingi og æsingi, sem því miður er of títt, heldur blíðlega og með tilfinningu. Þessar stundir verða þá til þess, að glæða góðar tilfinningar í hjörtum barnanna og knýta ástar- og ræktarbandið enn fastara milli systkinanna; munu þau á fullorðins-árum opt minnast þessara stunda með innilegri gleði og ánægju.—

Foreldrar! Látið börn yðar læra fallega sálma; en samt ekki fyr en þau hafa vit á, hvað þau fara með. Fallegur og góður sálmur getur veitt oss huggun og hjálp í þrautum og hörmungum lífsins.

Merkur prestur segir svo frá: Einu sinni var mín vitjað til gamalmennis, er lá á banasænginni. Hann var orðinn 85 ára gamall, og nær heyrnarlaus. Jeg gat ekki látið hann heyra til mín, og settist því þegjandi við rúmið hjá honum; hann lá með aptur augun, en þrjú uppkomin börn hans stóðu umhverfis. Allt í einu lauk hann upp augunum, og er hann sá mig, tók hann að raula með lágri og skjálfandi röddu:

Að hjarta Guðs jeg halla mjer,
og hans við brjóst vil þreyja;
þar neyðin sjálf mjer unun er,
þar er mjer líf að deyja;
jeg barn er hans, er böli manns

í blessun veit að snúa.
Minn Guð mjer ann, þótt hirti hann,
því hugrór vil jeg trúa.
Ó drottinn Guð, jeg legg mitt líf
í líknarhendur þínar,
og treysti þinni hjálp og hlíf,
þótt harðni raunir mínar.
Ó faðir minn, í faðminn þinn
jeg flý, mjer skjóls að leita;
þá hryggðin sker, ó herra, mjer
um hæli þar ei neita.—

Aldrei hafði mjer þótt sálmurinn þessi eins fallegur eins og á vörum hins deyjanda gamalmennis. Jeg kom til að veita gamla manninum styrk og huggun; en svo fór, að hann huggaði og styrkti mig og þá aðra, sem við voru staddir. Við banabeð þenna komst jeg að raun um, hve blessunarríkt það getur verið, að láta börn og unglinga læra utan að góða og fallega sálma eptir sterka trúmenn. »Maðurinn lifir ekki af einu saman brauði«.—

»Lengi býr að fyrstu gerð«. Fullorðins-árin eru uppskerutími æsku-áranna. Broshýr æsku-ár gjöra menn ljettlynda og glaðlynda. Börnin þurfa að fá að leika sjer í sólskininu, áður en fullorðinsárin koma með skúrum sínum og skuggum; þau þurfa að njóta hóflegrar gleði. Látum hreina og saklausa glaðværð búa á heimilum vorum, verum glaðir og hlýlegir við börnin. Verum ekki þeir harðstjórar á heimilum vorum, að börnin eða heimilisfólkið þori ekki að gjöra að gamni sínu í

návist vorri; reynum heldur sjálfir að örfa aðra til hóflegrar glaðværðar.

Höfum fyrir vana að gjöra heimilisfólki voru dálítinn dagamun; það eykur gleði og ánægju, en kostar harla lítið, ef hóflegrar sparsemi er gætt. Vel tilfallið er, að halda upp á fæðingardaga húsbændanna og barnanna, giptingardag húsbændanna eða aðra merkisdaga í lífi heimilismannanna.

Látum hjúin finna með þessu og öðru, að þau eru ekki talin sem þrælar og ambáttir. Látum sunnudagana vera það, sem guð og góðir menn ætlast til: sanna helgidaga; höldum upp á hátíðir kristninnar, sem kristnum mönnum sómir, einkum jólin; látum börnin finna, að hátíðarefni þeirra er oss sjálfum alvöru- og fagnaðarefni.

Í æfisögu hvers manns eru einn eða fleiri kaflar ritaðir með rúnum, sem mannlegt hyggjuvit fær ekki ráðið. Menntuninni og þekkingunni fylgja skuggar, eins og ljósi sólarinnar. Örlagastraumurinn ber flesta á fullorðins-árum frá Paradís barnæskunnar. En hvert sem vjer berumst og hvað sem oss hendir, þá geymum vjer jafnan endurminningu þess, sem liðið er.

Vel er þeim manni farið, sem minnist barnæsku sinnar með óblandinni gleði og ánægju; þá fer vel, er endurminning barnæskunnar verður á fullorðins- og elliárum að ljómandi og lýsandi kveldstjörnu, er ljómar því skærara, sem brún æfidagsins verður lægri á lopti.

Til eru þeir menn, sem vinna baki brotnu ár eptir ár, geta ekki varizt örbirgð og skorti, en eru þó jafnan glaðir í bragði.

Hvernig stendur á þessu? Það er af því, að þeir skoða og meta heiminn ekki eins og hann er, heldur eptir því, sem þeim sjálfum er háttað.

Ánægjan er farsæld; hún er betri en auður og allsnægtir, betri en gull og gersemar. Margir reka frá sjer ánægjuna með sjálfskaparvítum. Verndarenglar ánægjunnar eru *dyggðir og guðsótti*.

# XIII. kafli.

## Geðshræringar og ástríður.

»Sá, sem stjórnar geði sínu, er meiri en sá, sem vinnur borgir«. Að stjórna geði sínu táknar, að hafa taumhald á geðshræringum sínum og ástríðum.

Snemma hafa menn fundið, að þetta taumhald er »þrautin þyngri«. Þær eru líka teljandi, hetjurnar, sem hafa stjórn á sjálfum sjer; þeir eru fleiri, sem hröklast fyrir geðshræringunum og ástríðunum sem strá fyrir straumi.

Geðshræringum og ástríðum hefir opt verið líkt við óðan, ótaminn hest. Þær hlaupa með manninn í gönur, yfir og út í hvað sem fyrir er, yfir girðingar siðgæðis- og sómatilfinningar, út í foræði tjóns og óvirðingar.

Geðshræringar og ástríður gjöra manninn bæði heyrnarlausan og blindan. Hann heyrir því ekki áminningar vina og vandamanna, ekki bænir konu og barna. Hann sjer ekki ófarir samferðamanna

sinna og fjelaga, ekki háskann og voðann, sem fyrir fótum honum er.

Geðshræringarnar og ástríðurnar gjöra manninn að þræli.

Ástríðurnar þagga niður boð og bendingar skynseminnar. Heimilisfaðirinn, sem með óreglu sinni leiðir bölvun og ógæfu yfir heimili sitt, segir: »Jeg veit glögglega, að jeg steypi konu minni og börnum í eymd og ógæfu, að jeg rek alla heill og blessun frá heimili mínu, að jeg stytti líf mitt og skapa þeim harm og hugarangur, sem jeg í rauninni elska. En jeg get ekki hætt að drekka«.

Sá, sem er þræll girnda sinna og fýsna, gjörir það, sem hann ekki vill, og vill ekki það, sem hann gjörir. Þegar hann er búinn að láta eptir ástríðunni, þá kemur iðrunin, góð áform, loforð og eiðar. En daginn eptir kemur höggormurinn aptur; hann lokkar, teygir og ginnir manninn, stelur úr huga honum góðu áformunum, loforðunum og eiðunum, og hættir ekki fyr en maðurinn er að nýju búinn að gleyma sjálfum sjer. Skynsemin er aflvana fyrir ástríðunum eða sem næst það.

Meiri hluti allra mannlegra eymda er sprottinn af stjórnleysi manna á sjálfum sjer, af ofur-valdi girnda og geðshræringa. Stjórnlausar ástríður og taumlausar girndir teyma syni og dætur frá knjám feðra og mæðra í hyldýpi ógæfunnar og glötunar. Stjórnlausar ástríður og girndir slökkva ljós skynseminnar og gjöra menn að vitfirringum. Stjórnlausar ástríður og girndir hafa lagt margan efnilegan ungling í gröfina fyrir örlög fram og breytt

ánægjuríkum vonum margra góðra foreldra í harm og hugarangur.

Fyrst nú skynsemin fær ekki tamið geðshræringarnar, hvað fær þá tamið þær?

Allar ákafar geðshræringar eiga sammerkt í því, að þær koma skyndilega og að þær bera allt annað í huga mannsins ofurliða; svo er um ofsa-reiði, hræðslu og feimni. Ef stillingarmaðurinn reiðist, þá umhverfist hann og veit ekki, hvað hann gjörir, orðvar maður ragnar og formælir, menntaður maður talar heimsku.

Óstjórnlegar og ákafar geðshræringar eru manninum skaðlegar; en á hinn bóginn væri ekki gott, að maðurinn væri geðshræringalaus.

Hann gæti þá ekki notið margra þeirra unaðsemda, sem drottinn hefir ætlað honum. Oss mundi þykja vanta mikið, ef vjer gætum hvorki grátið nje glaðzt. En allar geðshræringar eiga að lúta valdi skynseminnar; maðurinn á ekki að vera leiksoppur geðshræringanna.

Hverjum ráðum á þá að beita við barn það, sem hætt er við einhverri ákafri geðshræringu, t. d. ofsa-reiði? Náttúrufræðin kennir oss, að limur sá, sem ekki er notaður, rýrnar og eyðist. Svo er og í andlegum efnum. Hver sá andlegur hæfileiki, sem ekki er notaður, sljófgast líka og hverfur. Eðlilegasta og bezta ráðið við reiðigjarnt barn er því, að forðast að reita það til reiði, láta það sem sjaldnast fá orsök til reiði. Með tímanum verða þá reiðiköstin vægari, enda þó því renni í skap; og að lyktum getur ástríðan og ofsinn horfið.

Í þessu efni fara foreldrarnir opt sitt í hverja

áttina. Móðirin vill fara vægilega að barninu; faðirinn vill aptur á móti taka á valdinu. Móðirin vill láta eldinn deyja af eldiviðarleysi; faðirinn ætlast til að eldurinn deyi, enda þótt lagt sje að honum.

En þegar nú geðshræringin er einu sinni vöknuð, þá er ekki nema um eitt ráð að tala, sem sje, að leiða hugann frá geðshræringarefninu og að einhverju öðru. Þetta ráð nota mæðurnar líka vanalega, og verður að góðu.

Geðshræringarnar og ástríðurnar eru svipaðar í því, að þær taka ráðin af manninum og svipta hann stjórn á sjálfum sjer. Aptur eru geðshræringarnar skammærri en ástríðurnar. Geðshræringarnar snerta tilfinningarnar, ástríðurnar aptur á móti tilhneigingarnar.

Hvernig er maðurinn, þegar hann fæðist? Um það eru skiptar skoðanir. Sumir segja: »Maðurinn er við fæðinguna sem hvítt pappírsblað; á þetta blað geta mennirnir, sem hafa barnið undir höndum, ritað hvað sem þeir vilja; því er allt undir uppeldinu komið«. Aðrir segja aptur: »Hver maður fæðist með sjerstöku náttúrufari; eptir því sem náttúrufarið er, verður maðurinn; uppeldið gjörir minnst til«.

Vjer teljum hinu sanna næst, »að fara bil beggja«, sem kallað er. Efalaust fæðist maðurinn með sjerstökum hæfileikum; en þeir liggja þá faldir með manninum sem frækorn í jörðu. Þessi frækorn hæfileika og gáfna — ef vjer megum kveða svo að orði — eru hið meðfædda náttúrufar mannsins.

Aptur er það undir uppeldinu komið, hverjum

þroska og framförum þessir hæfileikar taka, að hverju gagni þeir verða; uppeldið getur bæði kæft þá og glætt þá, bæði beint þeim í rjetta átt og ranga.—

Jón litla langar í það, sem honum þykir gott; þegar hann er búinn að fá það, sem hann langar í, dvínar löngunin. En sje sí og æ látið eptir lönguninni, æsist hún smámsaman við eptirlátssemina; hún verður að girnd; sje girndinni fullnægt, verður hún að fýsn, og fýsnin aptur á sama hátt að ástríðu.

Löngun.
Girnd.
Fýsn.
Ástríða.

Þetta eru höptin í stiganum, sem maðurinn fer upp eða ofan, hvort sem þjer viljið kalla það. Oss finnst óþarfi að skýra þetta efni frekar. Flestir geta gjört sjer nokkurn veginn ljósa hugmynd um stigbreytingu þessa, ef þeir stinga hendinni í barminn á sjálfum sjer.

Að því er ástæðurnar snertir, er og verður þá ráðið einungis eitt: að byrgja brunninn áður en barnið dettur í hann, að hepta girndina áður en hún verður að fýsn.

Fyrsta sporið út af rjetta veginum er mesta óhappasporið.—

Feður og mæður! Vakið yfir tilhneigingum og girndum barna yðvarra. Verið trúir vökumenn yfir velferð barnanna; en velferð þeirra er í veði, af fýsnir og ástríður beygja þau undir ok sitt. Það ber ekki vott um sanna foreldraást, að láta allt eptir

börnum sínum. Sannur kærleikur á ekkert skylt við heimskulegt eptirlæti. Kærleikurinn er strangur og staðfastur, ekki eitt í dag, annað á morgun. Of mikið eptirlæti er börnunum ógæfuefni.—

Þegar hann Jón og hún Guðrún á Bæ voru búin að vera í hjónahandi í 50 ár, þá hjeldu þau veizlu og buðu vinum og vandamönnum. Sigurður, elzti sonur hjónanna, hjelt þá langa og snjalla ræðu fyrir hönd systkina sinna. Meðal annara orða mælti hann á þessa leið: »Það liggur vel á okkur, börnunum ykkar, í dag. Tilfinningar okkar eru að vísu margbreyttar, en tvær eru samt ríkastar, kærleikurinn og þakklætið. Jeg þarf ekki að segja ykkur, hve heitt og innilega við elskum ykkur, því að þið vitið það. En um þakklæti okkar má jeg ekki þegja; með hverjum deginum, sem líður, finn jeg það æ betur, hve margt og mikið við eigum ykkur að þakka. Við þökkum ykkur ástúð þá, er þið hafið sýnt okkur, umhyggju þá, er þið hafið borið fyrir okkur, og hita og þunga æfidaganna, sem þið hafið borið okkar vegna. En einkum þökkum við ykkur fyrir það, að þið öguðuð og typtuðuð okkur á æsku-árunum, að þið leiðbeinduð okkur á veg gæfu og hamingju, að þið höfðuð vakandi auga á girndum okkar og tilhneigingum. Af því að jeg sjálfur á nú börn, þá finn jeg það ljóslega, að þótt skyldur foreldranna sjeu margar og örðugar, þá er þessi samt ef til vill hin örðugasta«.—

En hjer fer opt sem máltækið segir, að »hægra er að kenna heilræðin en halda þau«. Hvað á til bragðs að taka, þegar ástríðan, þrátt fyrir allt.

og allt, er orðin mögnuð hjá manninum«? Hver ráð eru þá vænleg til hjálpar og bjargar? Ráðin eru tvö, en mjög er undir hælinn lagt, hvort þau koma að haldi.

*Í fyrsta lagi. Eldurinn slokknar og deyr, þegar eldsneytið gengur til þurrðar. Forðizt því sem heitan eld allt það, sem vakið getur ástríðuna.* Vitur maður hefir sagt, að ástríðurnar sjeu »sótt til dauða«; en ekki tjáir samt að leggja árar í bát. Að minnsta kosti er það víst, að ástríðan æsist og magnast því meira, sem eptir henni er látið.

*Í öðru lagi. Sterkur áhugi getur sigrað ástríðuna. Reynið því að vekja sterkan áhuga á einhverju nytsömu og gagnlegu hjá þeim, er á við ástríðuna að berjast.* Þetta hefir opt orðið að góðu gagni. Margur drykkjumaður hefir hætt að drekka beint fyrir þá sök, að hjá honum hefir vaknað áhugi, sem bar drykkjuskapar-ástríðuna ofurliða.

Áhuginn veitir mönnum krapta og þrek til að sigra allar mótspyrnur og yfirstíga allar torfærur; hann er rót flestra mannlegra stórvirkja.. Hreinn og sterkur áhugi er ekki stundaruppþot, hann er ekki sem bólan, er þýtur upp í svip og hjaðnar jafnharðan, heldur er hann sem eldur sá, er brennur jafnt og stöðugt. Áhuginn veitir sálarlífi manna il og birtu, örfar og vekur hæfileikana og stælir kraptana; hann gjörir mennina að stórmennum og hetjum.—

Feður og mæður! Þjer, sem látið allt eptir börnum yðar; gáið að hvað þjer gjörið.

Þjer eigið að hafa vit fyrir börnunum, því sjálf kunna þau ekki fótum sínum forráð. Vitið og

munið, að ógæfa barna yðvarra kemur yfir höfuð yður, ef þjer leiðið þau á glapstigu spilltra fýsna og ástríðna.—

# XIV. kafli.

## Um að læra að vilja.

Getur maðurinn lært að vilja, eins og hann lærir að ganga? Já, því ekki það; hvað getur ekki vaninn? Vjer viljum ekki bera oflof á viljann; en á hitt viljum vjer minna, að »góður vilji er sigursæll«, að »viljinn dregur hálft hlass«, og að »mikið má, ef vel vill«. Þessi spakmæli ættu að vera rituð óafmáanlegu letri í hjarta hvers manns, því að þau eru áminningarorð þeim, sem hlotið hafa góðar gáfur, en eggjunarorð þeim, sem miður eru úr garði gjörðir.—

Langlífi manna fer meira eptir hófsemi og reglusemi en góðri heilsu og hreysti. Hófsemdarmaðurinn eldist betur en óreglumaðurinn, hvað sem heilsu og hreysti líður. Að sama skapi er gáfulítill kjark- og þrekmaður vænlegri til stórvirkja, en kjark- og þreklítill gáfumaður.—

Eðli viljans má skýra með ýmsum vísindalegum rökum; en að þessu sinni munum vjer ekki fara út í þá sálma; vjer munum halda oss við það atriði, er vjer þegar höfum drepið á, að maðurinn getur lært og þarf að læra að vilja, fyrir sitt leyti eins og hann lærir að ganga.—

Hugsun sú og sannfæring, að maðurinn geti lært að vilja, er mikilsverð.—

Enginn skynsamur maður þykkist við barnið sitt fyrir líkamslýti eða tornæmi; en jafn-fávíslegt er, að þykkjast við það fyrir lítinn vilja eða viljaleysi. Því að fyrst maðurinn á annað borð getur lært að vilja, þá er líka nauðsynlegt, að leggja meiri alúð við viljalítið barn, til þess að viljinn örfist og glæðist, eins og fyrir sitt leyti þarf að leggja meiri alúð við tornæma barnið en gáfubarnið.—

Eðlilegast og skynsamlegast er, að telja viljaleysið sjúkdóm. En sjúkdómur sá læknast ekki með ávítum einum, stóryrðum og hýðingum.

Þegar um viljann er að ræða, ber á tvennt að líta:

I. Hvernig viljinn er.

II. Að hverju viljinn stefnir.

Viljinn þarf að eflast og styrkjast; þegar viljinn hopar ekki á hæl, hörfar ekki fyrir auðsæjum örðugleikum og erfiðismunum, þá kallast hann kjarkur. Þegar hann gefst ekki upp, bugast ekki af langvinnum þrautum og baráttu, þá kallast hann þrek.—

En um hitt er ekki minna vert, að hverju viljinn stefnir. Afbragðsmaðurinn og fanturinn eru báðir kjark- og þrekmenn; en vilji þeirra, hvors um sig stefnir sinn að hvoru; sá er munurinn. Kjarkur og þrek illmennisins er hefndargjöf. Kjark- og þrekleysi góðmennisins er brestur, og hann ekki lítill. Sterkur og einbeittur góðvilji, það er merguriun málsins.

Kjark- og þrekmenni, sem ekki berast annað

fyrir en það, sem gott er, eru »salt jarðar«. Þeir eru máttarviðir mannfjelagsins; úr sporum þeirra spretta grænir laukar gæfu og farsældar.

Vitaskuld er, að þeim getur á orðið, að þeir geta villzt. En þeim er ekki hætt við villum, sem ekki hafa dug og dáð til til að áforma neitt, sem ekki gjöra annað um alla æfi en að »eta blundandi«. Já, þá bendir einungis eitt glappaskot á æfinni, þeir stíga eitt óhappaspor, og það er fæðing þeirra í þenna heim. Allt líf þeirra er í rauninni eitt stórt glappaskot.

Dugnaðarmennirnir baða ekki einatt í rósum. Hvert afl vekur mótspyrnu. En þeir hopa ekki á hæl, þótt hríðin harðni. Þeir skunda að marki því, er þeir hafa sett sjer, líta ekki aptur og snúa ekki við fyr en þeir hafa náð því. Því lengri sem baráttan verður, því meiri verður og áhugi þeirra; raunir og andstreymi beygja þá ekki, og þrautir og mótspyrnur fá ekki unnið svig á þeim. Þeim vex ásmegin við þraut hverja. Ef þeir deyja áður en þeir hafa lokið æfistarfi sínu, þá deyja þeir með sóma, sem hermaðurinn, er lætur líf sitt á vígvellinum.—

Nú munum vjer hverfa aptur að efninu. Eins og barnið lærir af sjálfsdáðum að ganga, ef því er ekki meinað það, eins lærir það og af sjálfsdáðum að vilja, ef það fær að njóta sín. Hið fyrsta lífsmark viljans er, að barnið gjörir það, sem það langar til.

Ef þú heldur barninu þínu of lengi í reifum, þá lærir það ekki að ganga. Ef þú heptir vilja barnsins þíns, þá lærir það ekki að neyta viljans.

*Mundu því, að þú átt ekki að brjóta um þvert vilja barnsins þíns, ekki gjöra það að viljalausum aumingja.*

Sumir einbeittir foreldrar vilja láta börnin lúta sínum vilja í öllu; þeir halda börnunum of lengi í andlegum reifum; þau gjöra börnin, er þau vaxa upp, að þrælum og ambáttum, en ekki að sjálfstæðum mönnum.

Björn gamli á Barði var ríkasti bóndi í sveit sinni, en drykkjumaður og harðstjóri mesti á heimili sínu. Þegar Pjetur litli sonur hans ljet í ljósi með auðmjúkum og hógværum orðum, að sig langaði til að sigla á háskólann, þá ygldi karlinn sig, barði í borðið og sagði: »Ætlar þú að fara að hafa einhverja meiningu, hvolpurinn þinn?«

Vjer leyfum barninu að ganga um gólfið eins og það vill; það er líka rjett; að öðrum kosti lærði það ekki að ganga. En ef það ætlar að fara sjer að voða, steypa sjer á höfuðið niður um stigagatið, þá tökum vjer til vorra ráða. Eins eigum vjer og að leyfa barninu að hafa vilja sinn út af fyrir sig; en ef viljinn fer í öfuga átt, þá ber oss að taka í taumana.

»Hann veit aldrei hvað hann vill«, segjum vjer um þá menn, sem engan vilja hafa; vjer köllum þá „ráfur“ og „gufur“, og teljum þá ónytjunga, sem lítil eða engin gagnsvon er að. Annaðhvort hafa foreldrarnir gjört þessa menn í barnæsku að viljalausum aumingjum með óskynsamlegri harðstjórn; eða vilji þeirra hefir þegar í upphafi verið daufur, en heldur ekki verið örfaður og glæddur.

Nú ber oss þá að öðru atriðinu, og það er þetta:

*Allir hæfileikar örfast og þroskast, þegar þeir eru notaðir.*

Starfsemin örfar, eflir og styrkir viljann. Þeir, sem börn hafa undir höndum, eiga að heimta af þeim, að þau leysi einhver störf af hendi; þá neyðast börnin til að nota hæfileika sína, en um leið örfast og þroskast viljinn.

Hjer rekum vjer oss nú á annað vandaverk foreldranna; það er að kenna börnunum að hlýða. Allir geta skipað, boðið; en færri látið hlýða sjer. Með hverju má kenna börnunum eða venja þau á að hlýða? »Með tvennum hætti«, munu menn segja; »með því að hegna þeim fyrir óhlýðnina, og umbuna eða launa hlýðnina; það er: með góðu eða illu«.

Það er nú mikið efamál, hvort hegningin fær nokkru áorkað til að innræta börnunum hlýðnina. Að minnsta kosti er það sannreynt, að margítrekuð hegning bætir ekki glæpamennina; og það er engin ástæða til að ímynda sjer, að margítrekuð hegning beri meiri eða betri ávexti hjá börnunum en fullorðnum. Eða hvernig stendur á því, að sumir kennarar, sem daglega hegna börnunum, geta aldrei látið þau hlýða sjer; en aðrir, sem aldrei hegna, hafa ekki af öðru að segja en auðsveipni og hlýðni?

Nú munum vjer benda á fátt eitt, sem reyndir og greindir menn telja vænlegt til að innræta börnunum hlýðnina.

Bjóð þú aldrei börnunum það, sem þeim er um

megn. Börnin verða leið á þeim störfum, sem þeim eru ofvaxin; þau venjast á að „klína á þau nafni". Ef barnið ekki þegar hlýðir boðum þínum, þá horfðu fast og alvarlega á það. Þú átt aldrei að bjóða eða banna hvað ofan í annað. Ef þú neyðist til að hegna fyrir óhlýðni, þá láttu hegninguna vera beina afleiðing óhlýðninnar. Störf þau, sem börnin hafa vanrækt, eiga þau að vinna þá stundina, sem þau annars hefðu mátt ljetta sjer upp og leika sjer o. s. frv.

Sumir foreldrar fara að í þessu efni alveg sem börn eða óvitar. Jón litli braut nýja hnífinn sinn af kæruleysi daginn eptir að faðir hans gaf honum hann. Þegar faðir hans komst að því, rak hann honum vænan löðrung, en gaf honum síðan nýjan hníf aptur. Jón litli sagði líka skömmu seinna við Gvend í „Tóptinni": „Það er ekki hundraðið í hættunni, þó að þessi kuti fari líka. Það kostar mig bara eitt kjaptshögg, og svo fæ jeg annan aptur".

Stundum kemur fyrir, að bein og eðlileg afleiðing brotanna er ekki í augum uppi. Þá áttu ekki að hegna, heldur áttu að láta barnið finna þykkju á þjer, láta það þreifa á, að þjer mislíkar við það. En þessi aðferð verður því að eins að gagni, að þú sjert daglega ástúðlegur við barnið. Ef þú ert ástúðlegur við barnið þitt bæði í orðum og viðmóti, þá muntu komast að raun um, að þú þarft aldrei að hegna því eða hirta það. Missmíðin á viðmótinu munu verða því nóg hegning.

Sannreynt er, að ávextir hegningarinnar fara

ekki eptir því, hve hegningin er ströng í sjálfu sjer, heldur eptir hinu, hvernig hún kemur niður. Hvað heldurðu, að drengurinn þinn batnaði við það, þó þú rekir honum utan undir, ef til vill mest af því, að þú ert í vondu skapi sjálfur? Hann finnur, að löðrungurinn á ekkert skylt við breytni *hans*, heldur er að mestu sprottinn af geð-illskunni eða fýlunni í *þjer*. Af þessu leiðir það eitt, að hann metur hegningu þína að engu, en verður heldur í nöp við þig. Nei! Hegningin á að fylgja brotinu, eins og skugginn ljósinu og hitinn eldinum; hún á að vera bein, auðsæ og eðlileg afleiðing brotsins. Lærið að hegna af reynslunni og lífinu. Heilsuleysið er afleiðing og hegning óreglunnar, skorturinn letinnar og skömmin lyginnar,

Þessi eðlilega hegning, sem mannlífið kennir hverjum manni með opin augu og eyru, hefir tvo kosti. Hún særir ekki barnið eins og hýðingarnar, reiðilöðrungarnir og brigzlyrðin gjöra; hún reitir ekki barnið til reiði, því það finnur þá, að hegningin er eðlileg og rjettlát.

Vjer viljum láta börnin hlýða oss, og það er eðlilegt. En vjer eigum líka að gjöra þeim hlýðnisskylduna auðvelda, gjöra þeim sem ljettast fyrir með að geta hlýtt. Vjer höfum þegar drepið á, að ekki má bjóða þeim eða heimta það af þeim, sem þeim er um megn. Viljinn kemur með aldrinum og árafjöldanum, eins og vitið; hægt er að ofbjóða bæði viti og vilja.

Barnið er barn og annað ekki.

Á regluheimilunum læra börnin ósjálfrátt hlýðnina, eins og þau læra málið af því, „að það er

fyrir þeim haft". Þegar allt er í röð og reglu, allir heimilishættir reglubundnir, öll heimilisstörf unnin á rjettum tíma, þá hlýða menn af sjálfum sjer; á þeim heimilum er einum einstökum lítt mögulegt, að taka sig út úr og sýna óhlýðni; að minnsta kosti helzt engum það uppi til lengdar.

Hæfileikarnir örfast og þroskast, þegar þeir eru notaðir. Fyrir þessa sök megum vjer ekki hjálpa börnunum nema það, sem nauðsyn krefur. Það, sem barnið *getur*, *á* það og að gjöra; það á að læra að hjálpa sjer sjálft. Það er optast meiri velgjörð, að eggja strákana til dugnaðar en að rjetta þeim hjálparhönd. Vjer þekkjum að þekkja, hvað þeir drengir stælast, sem nokkur dugur er í, þegar sagt er við þá: „Það er ekki karlmannlegt, að láta hjálpa sjer". Þegar barnið venst á að hjálpa sjer sjálft, þá finnur það, hvað það getur. En meðvitund máttar og dugnaðar knýr bæði börn og fullorðna til að taka sjer enn meira fram.

Vjer höfum áður minnzt á þrekið; nú munum vjer víkja að því með fám orðum aptur. Óhollt er, að setja börnunum sitt takmarkið hvern daginn; þau eiga þvert á móti að venjast á, að framkvæma hvern góðan ásetning, ljúka við það, sem þau hafa byrjað á. Einn bezti kostur góðrar kennslu er sá, að lærisveinninn venst á, að vinna að sama starfinu, unz því er lokið.

Upphafið og endalokin á hverju starfi þykja flestum skemmtilegust; upphafið, af því að það kitlar nýungagirnina; endalokin, af því að „úti er þraut, þá unnin er". En áfanginn frá upphafinu að endalokunum er opt bæði langur og strangur.

það er og altítt, að menn gefast upp á þessari leið, hætta við hálfunnin störf. En störf þau, sem detta niður í miðju kafi, væru optast betur aldrei byrjuð; því tími sá og fyrirhöfn, sem varið er til þeirra, fer til einkis, eða stundum til verra en einkis.

Vjer erum allir ferðamenn, höfum allir lagt upp úr sama áfangastað. Allir ferðamennirnir skunda leiðar sinnar, sinn að hverju takmarki. En þeir eru margir, sem „heltast úr lestinni“, sem gefast upp áður en þeir ná takmarkinu. Sumir komast nokkrar dagleiðir; aðrir komast hálfa leið, og enn aðrir komast það langt, að þeir líta fyrirheitna landið, en stíga samt ekki fótum á það. Að eins fáir, sárfáir, ná því takmarki, er þeir höfðu í upphafi sjeð í anda. Orsakirnar að þessu eru margar og margbreyttar, en flestum verður hið sama að fótakefli og farartálma, sem sje þrekleysið og þolgæðisskorturinn.

Leyfðu barninu þínu að nota þá hæfileika, sem guð hefir gefið því; styð þú það, ef það ætlar að hrasa; styrk þú það, ef það ætlar að vanmegnast; efl þú hjá því kjarkinn, þrekið og þolgæðið. Þá mun það að lyktum öðlast sigurlaun þau, sem þeim eru heitin, er stöðugir standa allt til enda.

# XV. kafli.

## Viljastefnan.

Þessi kafli er í rauninni framhald kaflans hjer á undan.

Illmennin eru opt einbeittir menn og þrekmiklir. Ástríðurnar æsa vljjann meira en flest annað; hvernig umhverfist ekki maðurinn af drambi og metnaðargirnd, hatri og hefndargirni! Hvað leggur ekki maurapúkinn á sig, ef hagsvon er í aðra hönd! Hvað vill ekki drykkjumaðurinn vinna til þess að geta svalað ástríðu sinni!

Metnaðargirndin vekur viljann og kappið hjá ungum og gömlum; enda er þetta ráð opt notað við börn og unglinga. Fermingarbörnunum er raðað eptir því, hvernig þau eru að sjer; skólabörnunum sömuleiðis.

Kappið og viljinn á raunar að vera sprottinn af öðru en metnaðargirnd einni saman; en hvað sem því líður, þá er samt betra, að þessi hvöt vekji viljann heldur en hann vakni aldrei.

Hvað getur fleira vakið viljann en metnaðargirndin?

Neyðin.

„Neyðin kennir naktri konu að spinna“. Neyðin rekur margan til að taka hendur úr vösum, sem feginn vildi mega sitja með hendur í skauti og hafast ekki að. Fyrir þessa sök er auðurinn börnunum opt engu síður ógæfu- en gæfuefni; auðmennirnir þurfa og fyrir þessa sök miklu fremur en fátæklingarnir að hafa vakandi auga á börnum sínum. Baráttan fyrir nauðsynjum lífsins er mörg-

um þung og flestum ógeðfelld; en hún er samt afl það, sem hjá öllum þorra manna vekur framkvæmdasaman vilja; og væri hún ekki, þá mundi eigi betur fara; það sýnir reynslan. Auðmannabörn, sem alast upp í sjálfræði, eru opt sorglegir vottar í þessu efni. Þau verða opt kapp- og viljalitlir aumingjar, sem um ærið fátt hugsa nema að lifa eptir munni og maga og svala fýsnum sínum. Ættinni smáhnignar; hver ættlerinn tekur við af öðrum, unz mælirinn er fullur og ættin útdauð, eða verr en útdauð. Í þessu efni má segja, að í flestum löndum sje pottur brotinn; og pottbrotin, þau eru líka til hjer á landi, sem víða annarsstaðar.

Í Kína hefir stjórnin og löggjöfin reynt að byrgja þenna brunn. Sonurinn fær ekki sömu tign og faðir hans nema hann gangi undir próf og standist það með sóma. Þar á sómatilfinningin að vekja viljann og kappið.

Jón litli og Guðmundur eiga báðir að læra að leika á orgel. Þeim hefir báðum verið boðið að æfa sig tvær stundir á degi hverjum. Jón litli gjörir trúlega eins og honum hefir verið boðið. En þegar þessar tvær stundir eru liðnar, þá er hann jafnharðan kominn út á svell með skautana sína, upp í túnbrekku með sleðann sinn eða upp í heygarð til piltanna.

Hann stundar námið af skyldurækt.

Guðmundur stundar námið líka, en nokkuð á annan veg. Hann bindur sig ekki við þessar tvær stundir; hann er við orgelið seint og snemma, hvenær sem hann kemst höndunum undir.

Hann stundar námið af áhuga.

Jón er hlýðinn, Guðmundur er frjáls, vilji hans er samhljóða boðum skyldunnar. Jón stundar námið af útvortis hvöt, Guðmundur af innvortis hvöt. Báðir vilja hið rjetta; en vilji Jóns er sprottinn af skyldurækt, Guðmundur af áhuga.

Sá er sannur ágætismaður, sem hefir áhuga á hinu góða, sem stundar það, sem gott er, af því að það er gott í sjálfu sjer, en ekki fyrir hagsmuna sakir. En skyldu þeir ekki vera allmargir, sem að minnsta kosti einhvern tíma hafa átt í baráttunni við holdið og blóðið, sem að minnsta kosti við og við mega játa, að hið góða, sem þeir vilja, gjöra þeir ekki?

Þegar þú vilt beina vilja barnsins þíns í rjetta átt, þá er um tvo vegi að tala.

*Annar er sá, að glæða hjá því skylduræktina.*

*Hinn er sá, að vekja hjá því áhugann.*

Vjer höfum áður (XI. kafli) talað um siðgæðistilfinninguna; vísum vjer því þangað að því, er snertir skylduræktina. Um áhugann viljum vjer aptur á móti fara nokkrum orðum.

*Í fyrsta lagi. Vjer getum ekki fengið eða haft áhuga á því, sem vjer ekki þekkjum.*

Oss er torvelt að elska óvini vora, en þó ekki ómögulegt; en oss er ómögulegt að elska þá menn, sem vjer ekki höfum heyrt, hvort eru til eða ekki. Að sama skapi er oss ómögulegt, að fá áhuga á þeim störfum, vísindum eða listum, sem vjer höfum ekkert af að segja. Það er meira að segja svo langt frá, að vjer fáum áhuga á eða festum huga við það, sem vjer þekkjum lítið, að oss hættir miklu fremur við, að fá óvild eða óbeit á því.

Áhuginn á sammerkt við kærleikann í því, að hann lýtur ekki boði einu eða banni.

Því verðum vjer að láta börnin gagnkynnast þeim hlutum, sem vjer ætlumst til að þau fái áhuga á, eða festi hugann við.

Vendu barnið þitt við reglubundna vinnu, og sú mun raun á verða, er fram líða stundir, að þú munt ekki þurfa að skipa því að taka sjer verk í hönd. Vinnan mun sjálf vekja áhugann hjá barninu og draga huga þess að sjer.

Gjörðu barninu þínu námið sem auðveldast og ljettast; leiddu það og leiðbeindu því; þá mun því þykja námið skemmtilegt og áhuginn á náminu jafnframt fara vaxandi. En gæta verður þú þess, að bera ekki á borð fyrir það of strembna fæðu; það verður til þess, að sljófga námsgáfuna og vekja óbeit á náminu.

*Í öðru lagi. Áhugi vekur áhuga.* Vjer eigum hjer ekki við þann áhuga, sem lítið er annað en glaumur og froða á vörum manna; að vísu getur sá áhugi þeytt upp bólum í svipinn; en þær bólur springa og hjaðna aptur að vörmu spori. Vjer eigum við þann áhuga, sem sprottinn er af hjartanlegri sannfæringu, sem birtist, eins og hinn sanni kærleikur, ekki einungis í orðum og á tungu manna, heldur í verki og sannleika. Þessi áhugi gagntekur aðra menn. En nú ber oss að því atriði, sem mestu ræður um, hverja stefnu viljinn tekur hjá unglingunum; það er viðkynning þeirra við fullorðna menn, dæmið, sem þeir optast hafa fyrir augum og eyrum. Þjer viljið, sem eðlilegt er, að börn yðar fái áhuga á því, sem gott er, heiðarlegt

og nytsamt; en er þá þetta yður sjálfum áhugamál? Elskið og stundið sjálfir sannleika, dyggð og siðgæði; og sú mun raunin verða, að vilji barnanna hneigist og að hinu sama. Áhugi vekur áhuga; hann kemur frá hjartanu og leitar inn að hjartanu.

Orð og gjörðir ágætismannanna, sannleiksvottanna, frelsiskappanna lifa og geymast kynslóð eptir kynslóð; þegar vjer lesum eða heyrum, hvernig þeir lögðu allt í sölurnar fyrir það, sem þeim var áhugamál, fyrir trúna, fyrir sannleikann, fyrir frelsið, eða hvað það nú var, sem þeir börðust fyrir eða leituðu að, þá gagntekur þessi áhugi oss. Neisti af þeim eldi, sem brann í hjörtum þeirra, læsir sig inn í hjörtu vor; áhugi vekur áhuga. Á þessa leið hafa æfisögur ágætra manna opt orðið til þess, að vekja framkvæmdarsaman áhuga hjá ungum mönnum og til að leiðbeina þeim á þá braut, sem varð þeim sjálfum til frægðar og frama og þeim og öðrum til heilla og hamingju.

Því miður ber það opt við, að vilji manna fer í öfuga átt; um þá menn segjum vjer: „Honum er ekki hægt öðrum um að kenna, manninum þeim arna; hann hefir sjálfur seitt og heim reitt!“ Aptur á hinn bóginn er það optast heimska, að segja, að nokkur maður sje viljalaus. Maðurinn er sjaldnast viljalaus; hitt er tíðara, að viljinn fer í öfuga átt, að maðurinn vill annað en hann á að vilja.

En hvað er þá til ráða? Svarið mun verða: »Að uppræta hinar vondu tilhneigingar hjá barninu«. Rjett er það; »en það er hægra ort en

gjört«. Því miður eru foreldrarnir opt ráðalausir, þegar vilji barnanna fer í öfuga átt.

Sum börn eru svo þverúðarfull, að þau gangast ekki fyrir neinu; ekkert bítur á þau, hvorki lof nje last, áminningar nje hirtingar. Vitanlega er foreldrunum innan handar að beita við slík börn valdi; en optast verður sú raunin á, að vöndurinn bætir í rauninni lítið úr skák.

Vjer játum fúslega, að hægra er að rita um þetta efni en að ráða fram úr því. Eitt heilræði viljum vjer samt gefa þeim, sem hafa þverúðarfull börn undir höndum, og það er þetta: *ástundið að glæða góðu tilfinningarnar hjá börnunum.*

Hjá hverjum manni og hverju barni eru einhverjar góðar taugar og tilfinningar. Þó að þessar tilfinningar sjeu ekki nema lítill neisti, þá getur sá neisti orðið barninu til bjargar, ef rjett er að farið. Þenna neista verður að glæða með öllu móti, því að í honum er lífsvonin falin.

Fjarlægið barnið og forðið því frá öllu því, sem vekur einþykkni þess og þverúð; því sá hæfileiki eyðist, sem ekki er notaður.

En bezta ráðið til að beina vilja barnsins að því, sem gott er, er það, *að þeir, sem barnið hafa undir höndum, vekji hjá því kærleika.* Elskið því börnin sjálfir, þá munu þau og elska yður og jafnframt verða yður ljúf og eptirlát. Munið þetta og munið það vel. Kærleiksilurinn, sem leggur frá hjörtum yðrum, mun verma og lífga hjörtu barnanna, sem þjer hafið undir hendi, og leita síðan aptur að uppsprettu sinni.

Ef þú vilt snúa einhverjum á rjettan veg, þá

byrjaðu á því að elska hann; kærleikurinn megnar allt; hann er sterkari en dauðinn; hann er »mestur í heimi«.

Harðstjórn og ofurvald má mikið, þó ekki allt; þau umskapa og endurfæða ekki manninn; það gjörir kærleikurinn.

Einu sinni var drengur, sem enginn gat ráðið við og engar áminningar bitu á. Foreldrar hans komu honum fyrir hjá öðrum, þegar þeir komu engu »tauti« við hann sjálfir. Hann strauk þaðan og heim aptur. Honum var þá komið fyrir á öðrum stað; þar átti hann að læra að hlýða, hvað sem það kostaði; var hann hýddur, barinn og atyrtur; en það fór á sömu leið. Loks komu foreldrarnir honum fyrir á orðlögðu gæðaheimili. Þar var hann ekki barinn og ekki atyrtur, heldur áminntur með hógværð og blíðu; þaðan strauk hann ekki; en ekki minnkaði samt óþægðin og ódælskan hjá honum.

Einn morgun var hann venju fremur óþægur og hortugur, barði hin börnin og hafði ljót orð við fullorðna fólkið. En—samt var hann ekki barinn. Þegar fram úr hófi keyrði, sagði húsbóndinn við hann, hryggur í bragði: »Að þú skulir, blessað barn, sí og æ hyllast til að gjöra það, sem illt er; guð má vita, hvað úr þjer verður«! Þá var aumingja-drengnum öllum lokið; hann hljóp grátandi upp um hálsinn á húsbónda sínum og játaði yfirsjónir sínar og ávirðingar. Upp frá þessu fór hann batnandi og varð á endanum góður unglingur.

Í þetta skipti vann kærleikurinn sigur, sem optar;

hann fjekk meiru óorkað en hótanir og atyrði, hýðingar og barsmíð.

Sá maður má mikið, sem hefir einbeittan og sterkan vilja til þess, sem gott er. Þeim manni er vorkunn, sem er eins og strá fyrir straumi, sem ekki hefir kjark til að neita, þegar neita ber. En sá er ógæfumaður, sem vill það, sem illt er.

Þegar faðirinn hefir gjört allt, sem í hans valdi stendur, barninu sínu til bjargar, þá hlýtur hann að lyktum að leggja árar í bát; en hann örvæntir samt ekki um frelsun þess, því kærleikurinn vonar allt. Í dæmisögunni um hinn glataða son er þess ekki getið, að faðirinn hafi meinað syni sínum að fara, því einlægt kemur einhvern tíma að því, að börnin fara úr föðurhúsunum. En faðirinn gleymdi ekki syninum, þótt hann væri horfinn sjónum; hann vonaði á hverjum degi, að sonurinn hlyti að hverfa heim aptur, og sú von rættist.

Sonurinn leiddi yfir sig með einþykkni sinni sjálfskapaða eymd og neyð; en neyðin opnaði á honum augun og knúði hann til að hverfa á rjetta leið aptur.

Vilji sonarins samþýddist að lyktum vilja föðurins.

*Kærleikurinn vonar allt.*

# XVI. kafli.

## Stjett og staða.

Við hvers manns fæðingu taka tvær kynslóðir höndum saman, hin liðna og hin lifandi. Barnið erfir við fæðingu sína hluttöku í þeirri menntun, menningu og framförum, sem hin liðna kynslóð hefir eptir skilið á jörðunni, og frá annari hálfu hluttöku í þeirri blessun, sem stafar af heillaríkum störfum hinnar lifandi kynslóðar.

En — af þeim, sem mikið er lánað, er og mikið heimtað. Þessi arfur leggur hverjum manni þá skyldu á herðar, að lifa og starfa mannfjelaginu til nytsemdar. Hver maður er skuldunautur mannkynsins.

En fyrst hver maður á mannkyninu skuld að gjalda, hvað á hann þá að láta í þessa skuld? Hann á að láta sjálfan sig, krapta sína og hæfileika; hann á að helga mannfjelaginu líf sitt og störf sín. Þó að þú hafir báðar hendur fullar fjár, þó að þú sjert upp á engan kominn og ekki tilneyddur að sinna neinum störfum þjer eða þínum til framfæris, þá ertu samt skyldur að rækja eitthvert æfistarf; já, æfistarf það, sem þú að náttúrufari ert bezt lagaður fyrir og sem hæfileikar þínir benda þjer á.

Sá maður, sem ekki hugsar um annað en að lifa af arfi þeim, sem hann hefir tekið eptir föður sinn eða önnur skyldmenni, og sem því rækir enga köllun, gegnir engum störfum í mannfjelagsins þarfir, hann eyðir höfuðstól mannfjelagsins án þess

að ávaxta hann. Hann þiggur dýrar gjafir frá mannkynsins hendi, en lætur ekkert af hendi rakna aptur í staðinn. Hann er betlari við borð mannfjelagsins.

*Hver maður er siðferðislega skyldur, að rækja einhverja köllun.*

*Sá, sem enga köllun rækir, treður helga skyldu undir fótum sjer.*

Mörgum manni þykir minnkun að því, að vera skuldugur eða þiggja gjafir af einstökum mönnum, en blygðast sín samt ekki fyrir að þiggja gjafir mannfjelagsins, án þess að endurgjalda þær einum eyri eða með einnar stundar með þjónustusemi í þarfir mannfjelagsins.

Til eru menn um allan heim, sem enga köllun rækja, bæði meðal auðmanna og fátæklinga. En engum helzt uppi að brjóta þetta boðorð; fyr eða síðar taka þeir gjöld misgjörða sinna; fyr eða síðar sökkva þeir í djúp dáðleysis, vesalmennsku og spillingar.

Hver sá maður, er með trúmennsku rækir einhverja köllun, eflir siðgæði og heill mannfjelagsins.

Dagleg skyldustörf húsbóndans, unnin með trúmennsku og samvizkusemi, skapa reglusemi í heimilislífinu og afla heimilinu virðingar. Þegar húsbóndinn hefir nytsamlegum störfum að gegna, tekur kona og börn þátt í þeim, að minnsta kosti með því að gjöra honum lífið ánægjulegt og hann um leið færari til að sinna störfum sínum.

En hvað þýðir nú orðið „köllun“? Vjer ætlum ekki að fara að rekja það út í yztu æsar að þessu

sinni, því það gjörir hjer minnst til; vjer látum hjer nægja, að benda á þau sannindi, að hver köllun er fólgin í því: að vinna, að starfa; vinna á hverjum degi að einhverjum ákveðnum, nytsamlegum störfum. Köllun er hvert nauðsynlegt embætti, hver staða, hver handiðn, hver þjónusta, starfsemi listamanna, skálda og vísindamanna; í einu orði: öll þau störf, sem unnin eru mönnum til nytsemdar og blessunar. Það ætti ekki að þurfa að taka það fram, að ekkert á hjer skylt við, sem gagnstætt er siðgæði og velsæmi.

Undir hverja köllun eigum vjer þá að búa börn vor? Þetta er alvarleg spurning, sem margir foreldrar opt hafa brotið heilann um. Svarið er stutt: *Bú þú barnið þitt undir þá köllun, sem einstaklingseðli þess bendir á, sem það hefir mesta náttúru og hæfileika fyrir.*

Margir foreldrar troða börnum sínum í þá stöðu, sem þau eru óhæf fyrir, stundum af fávizku, stundum af hjegómaskap. Þessum foreldrum fer óviturlega; þeir skapa börnum sínum ólán og andstreymi.

Þeim manni er sannarleg vorkunn, sem komizt hefir í ranga hillu í lífinu, sem hefir enga hæfileika fyrir köllun þá, sem honum hefir verið valin. Hann vinnur ekki það gagn, sem honum annars hefði verið auðið að vinna, og lífið verður honum smátt og smátt að þungri og þreytandi byrði.

Það er svo algengt hjer á landi, að vera að troða mönnum í þá stöðu, sem þeir hafa ekki hæfileika

fyrir, að vjer ætlum enga þörf á, að fara hjer um þetta efni frekari orðum, eða skýra það með dæmum.

En af þessu, sem nú hefir sagt verið, má draga tvær höfuðreglur:

*Í fyrsta lagi. Hvert barn á að búa undir ákveðið æfistarf.*

*Í öðru lagi. Hverju barni á að velja æfistarf eptir einstaklingseðli þess, náttúrufari og öllum hæfileikum.*

Fyrri regluna má aldrei brjóta. Síðari reglan er opt ýmsum erfiðleikum og vankvæðum bundin. Verðum vjer því að fara um það efni nokkrum orðum.

*Í fyrsta lagi.* Stundum ber það við, að barnið hefir auðsæja hæfileika fyrir einhverja ákveðna köllun; en foreldrana brestur efni til þess að veita barninu þá menntun, sem það er hæft til að þiggja. Hvað er þá til ráða? Vjer höfum svarað þessu áður í 2. kaflanum og vísum því þangað. Satt er það, að unglingunum er vorkunn, þegar þeir hafa mikla og góða hæfileika, en öll sund virðast þeim lokuð af efnaskorti og örbirgð. Þá er eini vegurinn, að taka á því, sem til er, „missa ekki móðinn"; nota hvert tækifæri og hverja stund til sjálfmenningar og sjálffræðslu. Iðni, þolgæði, þrautseigja sigra allar torfærur, „því að góður vilji er sigursæll".

*Í öðru lagi.* Líka ber það við, að barnið hefir auðsæja hæfileika fyrir einhverja ákveðna köllun, en þó ekki sýnilegt, að það geti komizt í neina lífvænlega stöðu að loknu námi. Hvað eiga for-

eldrarnir þá að gjöra? Til þess eru tvenn andsvör. Ef hæfileikarnir eru frábærir, þá er samt sjálfsagt að láta barnið ganga þá götu, sem þeir benda á; því nýtur maður með frábærum hæfileikum ryður sjer fyr eða síðar braut. Sjeu hæfileikarnir aptur á móti miður frábærir, þá er mjög ísjárvert, að láta barnið leggja út á þann veg, sem þeir virðast benda á; því þá má auðveldlega fara svo, að barnið á fullorðins árum verði hvorki sjer nje öðrum að verulegu gagni.

*Í þriðja lagi.* Það ber opt við, að börnin virðast ekki betur löguð fyrir eina köllun en aðra, hafa enga sjerstaka hæfileika fyrir neina ákveðna köllun, og því ekki sýnilegt, hvað þau helzt ættu fyrir sig að leggja að rjettu lagi. Þá verða foreldrarnir að ráða fyrir börnin. Því er mjög nauðsynlegt og áríðandi, að foreldrarnir veiti börnum sínum frá upphafi nákvæma eptirtekt og leitist við að kynnast einstaklingseðli þeirra, lundarfari og hæfileikum. Mörg ógæfan hefir af því hlotizt, að foreldrarnir hafa ekki rækt þetta boðorð.

Um einstaklingseðlið er talað í 2. kafla.

Nú eru tvær spurningar fyrir hendi. Önnur er þessi: Er óráðnum unglingum trúandi til að velja sjer hæfilega og hentuga stöðu? Sá, sem þekkir sjálfan sig, er vitur maður. Er við því að búast, að óráðnir unglingar hafi öðlazt þá vizku? Sannreynt er, að unglingarnir fara mjög eptir því, sem gengur í augun.

Gyltu hnapparnir og borðalagða húfan hefir freistað margra til laganáms, sem aldrei hefðu átt

við það að fást; og margur hefir fyrir þessa sök sezt í valdsmannasessinn, sem þar hefir setið sjer til lítils sóma og þjóðinni til jafn-lítillar nytsemdar; og svo er um fleira.

En hin spurningin er þessi: Geta unglingarnir gjört sjer ljósa og rjetta hugmynd um erfiðleika þá, ábyrgð og skyldur, sem fylgja stöðu þeirri, er þeir hafa hug á og vilja kjósa sjer? Glæsilegu stöðunni fylgja opt þungar áhyggjur og þreytandi erfiðleikar, sem enginn ræður í nema sá, er reynir.

Vjer munum nú ekki fara að sinni lengra út í þessa sálma. En þess viljum vjer óska, að sem flestir foreldrar beri gæfu til að velja viturlega stöðu handa börnum sínum.

En ætlunarverki foreldranna er ekki lokið, þó að þeir sjeu búnir að velja börnum sínum stöðu. Unglingarnir eru opt lausir á svellinu og vilja hlaupa úr einu í annað. En það er ógæfuvegur. »Illa grær um opt hreifðan stein«. Hugsaðu þig um tvisvar áður en þú hverfur frá þeirri köllun, sem þú hefir valið þjer og ert tekinn að búa þig undir. Faðirinn á að halda barni sínu með styrkri hendi á þeirri braut, sem barnið er einu sinni komið á, sje hún á annað borð viturlega valin. Staðfesta og þolgæði eru dyggðir þær, sem aldrei verða nógu opt og ýtarlega brýndar fyrir unglingunum. Sá unglingur, sem æ er eins og »reyr af vindi skekinn«, verður aldrei að manni.

Þegar unglingarnir breyta stefnu sinni í miðju kafi og hverfa frá því, sem þeir áður hafa lagt stund á, þá gjöra þeir sjer vanalega mikið tjón.

Tími, fje og fyrirhöfn fer til lítils eða einkis; því, sem upp á þá hefir verið kostað, er sem á glæ kastað. Eins og það er á rökum byggt, að »hálfnað er verk, þá hafið er«, eins er hitt líka víst, að það verk, sem ekki er nema hálfnað, verður til ónýtis. Maðurinn er sjaldan nógu vel búinn undir köllun sína, því síður of vel. Sje byrjað á einu í dag og öðru á morgun, þá verður niðurstaðan að lyktum sú, að menn þefa af mörgu, en vita og kunna fátt eða ekkert til hlítar, verða í rauninni ekki hæfir fyrir neina stöðu.

En þó vjer látum svo um mælt, þá geta samt unglingarnir opt haft gildar ástæður til þess að breyta um köllun sína; því að »betra er að stíga í eldinn en að standa í honum«; betra er að snúa við í tíma en að halda út í einhverja ófæru. En eins og það er á engu viti byggt, að leggja þau störf fyrir sig, er maðurinn hefir enga hæfileika fyrir og máske óbeit á, eins verður hann og vel að leggja niður fyrir sjer, hverju hann sleppir og hvað hann hreppir.

Þegar á allt er litið, á það að vera aðal-regla allra unglinga, að hverfa ekki frá þeirri köllun, sem þeir hafa valið sjer og búið sig undir, nema brýnar ástæður sjeu til. Staðfestan er auðnuvegur. En hitt er ekki minna um vert, að rækja síðan skyldur köllunar sinnar með alúð og trúmennsku. Á hverskonar rangri hillu sem þú kannt að vera, þá vinn þú öll skylduverk þín með alúð og trúmennsku. Hugsaðu ekki um, hverja dóma aðrir menn leggja á þig; sýn þú trúmennsku í köllun þinni; því að þú ber ábyrgð gjörða þinna, en þeir, sem dæma

þig, orða sinna. Trúmennska í öllum skylduverkum er hinn rjetti mælikvarði mannkostanna.

Trúmennsku ber oss að kenna börnum vorum bæði með orðum og eptirdæmi.

Þegar foreldrarnir hafa enga köllun, þá er börnunum búin ógæfa.

Þegar foreldrarnir eru ótrúir í köllun sinni, þá er börnunum búin glötun.

Hið sanna ágæti mannsins fer ekki eptir því, hvort hann er í hárri stöðu eða lágri, heldur er það komið undir hinu, hvort hann rækir skyldur köllunar sinnar með trúmennsku og samvizkusemi. Sá, er rækir trúlegast skyldur sínar, á í rauninni mesta virðingu skylda, hvað sem stöðunni líður. Fátæklingurinn á bættu peysunni og slitnu vaðmálsbuxunum getur verið eins virðingarverður og meira að segja virðingarverðari en embættismaðinn á klæðisfrakkanum eða einkenningsbúningnum. »Opt er dyggð undir dökkum hárum«.

Sá er sannarlega frjáls, sem rækir skyldur sínar. Sje hann borinn lasti, þá eru honum það ekki sjálfskaparvíti, heldur er honum órjettur gjör.

Skylduræktin er vegur til sannarlegs frelsis; hún er ein af höfuðdyggðum mannanna og á því að innrætast börnunum þegar, er þau hafa vit á. Vitur maður hefir sagt, að byggingamaðurinn eigi að láta samvizku sína í vegginn með hverjum steini, sem hann leggur í hleðsluna. Þetta þurfa allir starfsmenn að hafa hugfast, hvert sem starfið er.

Starfsmennirnir eru margir; trúmennskumennirnir of fáir.

# XVII. kafli.

## Þegar komið er út í lífið.

Vjer munum nú byrja þenna kafla með því, að gjöra ráð fyrir, að foreldrarnir hafi alið barn sitt upp á bezta hátt, að barnið hafi tekið eðlilegum framförum og þroska á sálu og líkama, að það hafi öðlazt skyn og skilning, menntun og þekkingu, áhuga og dugnað til nýtilegra starfa og framkvæmda, og vilja til þess, sem gott er, fagurt og heiðarlegt. Vjer gjörum í einu orði ráð fyrir, að foreldrarnir hafi innt uppeldisskylduna af hendi með trúmennsku og að starf þeirra og viðleitni hafi borið farsællega ávexti.

Þegar þessu er öllu lokið, þá á unglingurinn að ganga út í lífið og taka þátt í hinum mikilvægu störfum mannfjelagsins.

En—þótt allt sje nú á þá leið, sem hjer er ráð fyrir gjört, þá má auðveldlega fara svo, að unglingnum verði auðnu vant, er hann kemur út í lífið; því að það ber opt við, að sá, sem »minna er lánað«, kemst betur áfram og lengra áleiðis.

Lífið er sem markaður; sá græðir mest, sem lagnastur er á, að ávaxta pund sitt.

Ef þú vilt hafa full not hæfileika þinna og krapta, uppskera fulla ávexti menntunar þinnar og þekkingar, íþrótta þinna og dugnaðar, þá verður þú að kunna *listina þá, að lifa meðal annara.*

Margir menn hafa verið búnir beztu hæfileikum til sálar og líkama, en hafa samt ekki orðið sjer og mannfjelaginu að sönnum notum, beint fyrir þá

sök, að þeim tókst ekki að gjöra hæfileika sína að gjaldgengri vöru á markaði mannlífsins; þeir gátu ekki samið sig að öðrum og aðrir því ekki notað þá; þeir lentu í baráttu við mannfjelagið, sem þeir áttu að helga krapta sína og hæfileika. En þegar maðurinn lendir í þessari baráttu, þá bíður hann vanalega ósigur, og það opt þótt hann sje hin mesta hetja, því að »enginn má við margnum«; að minnsta kosti verður hann til minni nytsemdar en hann hefði ella orðið. Hann mæðist og þreytist, ergist og eldist fyrir örlög fram; hann hefir horn í síðu öðrum og aðrir honum. Hann verður nokkurs konar olnbogabarn mannfjelagsins, og endalyktin verður sú, að bæði hann og aðrir verða þeirri stundu fegnastir, er hann kveður þenna heim og þetta líf.

Mannlífið hefir tvær hliðar, innri og ytri hlið. Innri hliðin er sem lokuð bók, er enginn hefir skygnzt í nema samvizkan; ytri hliðin er sem opin bók, öndverð fyrir öllum almenningi.

Ytri hlið mannlífsins verður að vera með föstu og ákveðnu sniði, ef allt á vel að fara; með öðrum orðum: maðurinn verður að rækja siði þá og venjur, sem smám saman hafa myndazt í mannfjelaginu. Að öðrum kosti má búast við, að honum berist meira eða minna á á leið sinni gegn um lífið.

Mörgum góðum manni hefir það á orðið, að virða siði og venjur mannfjelagsins að vettugi; en af því að hann batt ekki bagga sína sömu hnútum og aðrir samferðamenn, þá lögðu samferðamennirnir fæð á hann. Mannfjelagið lætur í því

efni ekki að sjer hæða; það setur hart á móti hörðu og tekur ómjúkum höndum á þeim, sem fótum treður siði þá og venjur, sem það hefir skapað sjer.

Sá, er ekki vill þýðast siði og venjur mannfjelagsins, er kallaður sjervitringur og stundum annað verra.

Það er bæði nytsamt og hentugt, að til sjeu ákveðnir siðir og venjur í mannfjelaginu, sem menn verða að fylgja, og að sambúð manna hvers við annan sje bundin einhverjum föstum reglum.

*Nytsamt er það*, af því að menn gæta þá, að minnsta kosti fremur, ytra siðgæðis.

*Hentugt er það*, af því að menn vita þá, hvers þeir eiga að gæta og hvað þeim ber að varast.

Sá maður, sem rækir siði og venjur mannfjelagsins og reglur þær, sem menn eiga að gæta í sambúð hver við annan, er kallaður kurteis og siðaður. Ef hann tekur hæfilegt tillit til þeirra manna, sem hann hefir samneyti við, þá er hann kallaður lipur og viðfeldinn. Kurteisir og viðfeldnir menn koma sjer allra manna bezt og komast því um leið flestum betur áfram í lífinu.

Víst er um það, að menntun og þekking er mikils virði; en hinu er stundum og enda opt ekki minna undir komið, »hvernig þú kemur fram«. Ef þú brýtur bág við fastákveðnar venjur og siði mannfjelagsins og kurteisisreglur þess, þá drýgir þú þá synd, sem seint verður fyrirgefin.

Reglur þær, sem menn eiga að gæta í sambúð hver við annan, má flestar heimfæra undir þessi þrjú boðorð:

I. *Vertu aldrei öðrum til óþægínda eða leiðinda.*
II. *Veittu hverjum manni það, sem honum ber.*
III. *Heimtaðu aldrei meira sjálfum þjer til handa en þjer ber með rjettu.*

*Vertu aldrei öðrum til óþægínda eða leiðinda.*

Orð vor og látbragð eiga jafnan að vera siðsamleg og samboðin siðuðum mönnum; þau eiga hvorki að gjöra sjálfum oss kinnroða nje hneiksla aðra. Vjer eigum heldur ekki að leitast við að vekja eptirtekt manna á oss með óvenjulegu háttalagi og látbragði í orðum eða framgöngu; það verður einungis til þess, að menn »stinga saman nefjum«, en vjer snúum að þeim bakinu.

Mörgum sönnum mannkostamönnum verður það á, að vera »moldalegir« í látbragði og framgöngu. Þetta er mein, og það stundum ekki lítið. »Rudda«-skelin, sem utan á þeim er, hylur mannkostina og rýrir mennina. Heimurinn kallar þessa menn »óhefiaða rekadrumba« og fleira þess háttar. Þeir eru ekki virtir sem þeir eiga skilið, nema af einstaka manni, sem gjörþekkir þá; og beint fyrir þá sök verða þeir ekki að því gagni, sem þeir gætu að rjettu lagi.

Bezta ráðið við þessu er, að hafa í tíma strangar gætur á orðræðum og öllu háttalagi barnanna, því »það ungur nemur, gamall fremur«.

Vertu aldrei öðrum til óþægínda eða leiðinda. Bæði í ræðum og ritum hefir verið brýnt fyrir mönnum, hvernig þeir ættu að sigla fyrir þetta sker. Vjer getum ekki hjer rakið þetta mál út í yztu æsar. Eitt heilræði viljum vjer samt gefa

öllum foreldrum; það er þetta: *Bannið börnunum stranglega að taka fram í, þegar aðrir menn tala.* Bæði börnum og fullorðnum verður þetta iðulega á. Það reynist jafnan satt, að tími er til að tala og tími er til að þegja; en þeir eru vanalega margir, sem ekki kunna að þegja í tíma og tala í tíma.

*Veittu hverjum manni það, sem honum ber.*

Hjá Spartverjum var það siður í fornöld, að unglingarnir stóðu upp úr sætum sínum, þegar gamalmennin komu inn. Þetta var fagur siður, sem aldrei ætti að fyrnast. Vjer eigum að kenna börnum vorum og venja þau á, að virða ellina; og þessa virðingu fyrir ellinni eiga þau að sýna í háttalagi og hegðun. Sá maður kemur sjer alstaðar vel, sem ætíð sýnir þeim virðingu, sem virðing ber. Öllum geðjast vel að ungmenni því, sem býður gamalmenninu sætið sitt. Langt líf er löng reynsla; æskan á að stíga spor úr vegi fyrir ellinni. —

Sá, sem virðir hvern mann eptir aldri, tign og stöðu, sem hefir tamið sjer prúðmennsku og látprýði við alla menn, *hann kann listina þá, að lifa meðal annara.*

Veittu hverjum manni það, sem honum ber; en veittu engum manni meira en honum ber. Ofmikil kurteisi er ókurteisi. Þegar þú sýnir náunganum meiri heiður en hann veit og finnur, að sjer ber, þá veit hann ekki, hvað hann á af sjer að gjöra. Það er móðgun við hvern mann, að skjalla hann úr hófi og slá honum of mikla gullhamra. Ef þú vilt sýna, hve mikils þú metur einhvern mann, þá gjör þú það með því, að virða

hann sjálfan, með því að veita orðum hans eptirtekt og með því opinberlega að vitna til skoðana hans.

*Heimtaðu aldrei meira sjálfum þjer til handa en þjer ber með rjettu.*

Þeir menn verða öllum hvimleiðir, sem eru gjarnir á að troða og trana sjer fram. Aptur á móti geðjast öllum vel að þeim, sem láta sjer hægt og kunna sjer í hvívetna hóf. Ætlaztu aldrei til meira en þú átt heimtingu á; þá munu menn sýna þjer allan þann heiður og þá virðingu, sem þú átt skilið. En sjertu of heimtufrekur, þá máttu búast við, að menn virði þig jafnvel minna en maklegt kann að vera.

Lítillæti og auðmýkt eru dyggðir, sem brýna þarf fyrir börnum og unglingum; en hóf verður á þeim að vera sem öllu öðru. Of mikil auðmýkt er viðbjóður. Enginn á að ætlast til meira en honum ber eptir stjett sinni og stöðu. Hafðu jafnan hugfast, að það sæti, sem þú skipar í mannfjelaginu, getur margur skipað eins vel. En þú átt ekki heldur að láta rekast úr því sæti, sem þú á annað borð ert kominn í á löglegan og heiðarlegan hátt; enginn skynsamur maður mun lá þjer þótt þú berir hönd fyrir höfuð þjer, ef þú gjörir það á siðsamlegan og heiðarlegan hátt.

Þrennt er það, sem vjer aldrei megum hlusta á að hallmælt sje eða borið lastmælum í návist vorri; það er:

*Foreldrar vorir,*
*trúarbrögð* og
*ættjörð.*

Þú átt jafnan að vera búinn til að halda uppi vörn fyrir hverju, sem er, af þessu þrennu, hvar og hvenær sem á það er ráðizt og hver sem að því veitist. Allir góðir og skynsamir menn munu þá meta þig mann að meiri og betri. —

Heimspekingurinn Kant hefir sagt, að daglega lífið sje grundvallað á tveim meginsetningum; og þær eru:

1. »Veraldarvizkan« er fólgin í því, að geta gjört dugnað sinn arðbæran.
2. Ef barnið á að verða *hygginn maður*, þá verður það að læra að dylja innra mann *sinn*, en gagnskoða innra mann *annara*. —

Um fyrri setninguna höfum vjer áður talað; um hina síðari viljum vjer nú fara nokkrum orðum.—

Margur unglingur byrjar lífið með því að opna sál og hjarta fyrir öllum þeim, sem hann hefir kynni af. Hann æskir þess fremst allra hluta, að efla gæfu og farsæld annara manna, og hann finnur enga ástæðu til þess að draga dul á það, sem honum býr í brjósti. En þeim, sem eru eldri og reyndari, lízt ekki á blikuna; þeir vita af reynslunni, að hann mun verða fyrir vonbrigðum og andstreymi, að orð hans og verk munu opt lögð út á hinn verra veg, tilgangur hans misskilinn og hvatir hans rangfærðar. Sjálfselskan er svo rík og tíð í heiminum, að allur þorri manna festir lítinn trúnað á almennan bróðurkærleika, því að sjálfselskan elur tortryggni. Þó að ungmenninu gangi því ekki nema gott eitt til athafna sinna, þá má fara svo, að hann verði tortryggður, að yfirborð athafnanna þyki ískyggilegt og hann því

verði dæmdur röngum dómi; því að heimurinn dæmir vanalega eptir yfirborðinu og útlitinu. Vjer eigum því aldrei að birta það, sem oss býr í brjósti frekara en þörf er á máli því til eflingar og sigurs, er vjer berum fyrir brjósti í þann eða þann svipinn; hitt varðar engan um. Og vjer eigum að forðast að haga athöfnum vorum á þá leið, að þær sjeu ískyggilegar í almennings augum, því að heimskulegt er að skapa sjer meiri erfiðleika en þörf er á. —

Það er rangt að tortryggja mennina að raunalausu; en það er líka á hinn bóginn varasamt að trúa þeim of vel; og það er heimskulegt að bera bresti sína og ókosti utan á sjer öllum mönnum til sýnis. Tími er til að tala og tími er til að þegja.

Vjer höfum nú drepið á ýmislegt, sem hver maður þarf að hafa hugfast í sambúð sinni við aðra menn; en rúmsins vegna er það ekki nema ádrepa. En hvernig eigum vjer nú að kenna börnunum þetta?

Er nóg að kalla barnið á eintal kveldið áður en það yfirgefur foreldrahúsin og brýna þá fyrir því, hvað það eigi að ástunda og hvað því beri að varast í sambúð sinni við aðra menn? Það er fagur og góður siður, að foreldrarnir brýni fyrir börnunum að skilnaði með hjartanlegum og alvarlegum orðum, hvað þau eiga að ástunda og hvað þau eiga að varast. En það er samt engan veginn einhlítt. Sá prestur mundi talinn í meira lagi skeytingarlaus, sem færi fyrst að kenna börnunum kristindóminn daginn áður en ætti að staðfesta þau,

og börnin mundu af flestum talin óuppfrædd, hve mjög sem presturinn legði sig til þenna eina dag. Eins og nauðsynlegt er að innræta og kenna börnunum trú og siðgæði til þess að þau verði góðir og dyggðugir drengir, eins er frá annari hálfu nauðsynlegt að kenna þeim »listina þá að lifa meðal annara« til þess að þau geti orðið nytsamir og gagnlegir menn sjálfum sjer og öðrum. En hvortveggja kennslan verður að byrja í tíma. »Vaninn skapar listina«. Góð, siðsamleg og heiðarleg breytni og framganga á að verða unglingunum að vana; hún á að læsa sig inn í allt eðlisfar þeirra, blandast saman við blóð þeirra, gagnsýra allan hugsunarhátt þeirra. Þá koma menn til dyra eins og þeir eru klæddir, og þá koma þeir meira að segja til dyra í rjettum klæðnaði.

Vjer segjum því: *Venjið börnin í tíma á góða, siðsamlega og heiðarlega breytni og hegðun.* Venjið þau á þetta ekki með orðum einum og áminningum, heldur með dæmi sjálfra yðar. *Dæmi hinna fullorðnu er börnum hin bezta fræðsla.* Líðið börnunum *aldrei* að breyta ósiðlega; en látið börnin heldur *aldrei* sjá yður sjálfa breyta á hinn verra veg. Börnin læra mikið af því, sem þau heyra, en meira samt af því, sem fyrir augun ber.

Að endingu tökum vjer það fram og leggjum á það mikla áherzlu, að börnunum verður að skiljast það í tíma, hve mikið er komið undir ytra háttalagi og látbragði. Satt er það, að hjartalag og hugarfar er kjarni góðrar hegðunar og breytni; en ágæti þess kjarna kemur í ljós í háttalaginu.

og hegðuninni. »Af þeirra ávöxtum skuluð þjer þekkja þá«. —

Allt látbragð og háttahag manna í sambúð þeirra hvers við annan grundvallast í rauninni á sannleikanum. Hann er upphafið, sem allt á rót sína að rekja til, hann er grundvöllurinn, sem allt á að byggjast á, hann er markið, sem allt á að stefna að. Sannleikur er, að jeg á ekki að vera öðrum til óþæginda eða leiðinda; sannleikur er, að jeg á að veita hverjum það, sem honum ber, og sannleikur er, að jeg á aldrei að heimta meira sjálfum mjer til handa en mjer ber með rjettu. Hugarfar og háttalag eiga að vera í samræmi. Að öðrum kosti er maðurinn hræsnari; en hræsnin er lygi.

Feður og mæður! Munið, að börnin þurfa að læra góða, siðsamlega og heiðarlega hegðun og háttalag; en þetta nám er komið undir vananum, sem þau eiga við að búa, dæminu, sem þau hafa fyrir augum, og skyni og skilningi þeirra sjálfra. Glæðið því skyn þeirra og skilning, hafið gát á, hverju þau venjast, og gáið að, hvað þjer hafið fyrir þeim sjálf.

Ef barnið nýtur verulega góðs uppeldis, þá ber það menjar þess meðan það lifir, enda þótt það leiðist út á vegu spillingar og ógæfu; því að »smekkurinn sá, sem kemst í ker, keiminn lengi eptir ber«.

# XVIII. kafli.

## Trúin.

Þegar maðurinn dregur sig út úr glaumi og hávaða heimsins, snýr huganum inn á við og spyr sjálfan sig með alvörugefni: hver ert þú, hvað segir þú um sjálfan þig? þá finnur hann til veikleika síns og breyzkleika, vanmáttar og sektar; en þá finnur hann og, að til er æðra vald, sem hann verður að lúta, sem talar til hans um bót og betrun, sem áminnir hann og segir: þú átt að verða heilagur, eins og jeg er heilagur.

Í helgidómi hjartans finnur maðurinn guð.

Vjer ætlum hjer ekki að fara út í neinar trúfræðilegar rannsóknir eða skýringar á orðinu »trú«. Vjer tökum hjer það eitt fram og höldum oss við það, *að trúin er sameining og samfjelag við guð.*

Hvað er nú mark og mið kristilegs uppeldis? Það er, að vekja hjá barninu meðvitundina um guð, svo að það á fullorðinsárunum tigni og dýrki guð með önd og líkama.

En til þess að fá þessu framgengt er ekki það eitt nóg, að tala um trúna við barnið. *Vjer verðum að opna hjarta barnsins, leiða trúna inn í það og gróðursetja hana í hjartanu.* Þegar sjálfsvitund barnsins vaknar, þá ber oss að vekja í sálu þess meðvitundina um guð. Sjálfsvitundin vaknar vanalega þegar barnið er á þriðja ári; þá fer barnið að segja: »Jeg«. En þá eigum vjer og að leggja orðið »*Guð*« á tungu þess. *Vjer eigum að kenna því að biðja.*

Mæður! Þegar þjer eruð búnar að hátta börnin og koma þeim í rúmið, þá setjizt sjálfar á rúmstokkinn hjá þeim og kennið þeim með alvarlegum og hjartanlegum orðum að biðja guð. Kærleikur yðar er hinn bezti lykill að hjarta barnanna, og orð móðurinnar eru betur löguð en allt annað til þess að gróðursetja guðhræðsluna í sálum barnanna. Með þessum hætti taka guðhræðslan og kærleikurinn höndum saman. Móðurástin kennir barninu að þekkja guð og leiðir það í föðurfaðm hans.

Mæður! Rækið þetta helga og háleita hlutverk með alvörugefni og trúmennsku. Þær stundir, sem þjer verjið til að kenna börnunum að þekkja guð og biðja hann, eru sannar blessunarstundir fyrir allt líf barnanna.

Börnin yðar eiga fyrir höndum, sem allir aðrir, ef þeim endist líf og aldur, að mæðast og þreytast, að mæta sorgum og andstreymi. Og hvað verður þeim þá til ráða? Kunningjar þeirra koma, ef til vill, og ráðleggja þeim að leita sjer huggunar við harminum í störfum, í skemmtunum eða öðru því, sem heimsins börn finna svölun í. En það er til einkis. Hjartanlegur harmur og sannarleg sorg læknast ekki með störfum einum eða skemmtunum eða skynsamlegum fortölum. Sönn bót við hverju böli fæst einungis í heitri og trúaðri bæn til guðs og í auðmjúkri undirgefni undir drottins vilja. Sár hjartnanna læknar ekkert nema huggunin »hjer að ofan«.

Börnin yðar eiga fyrir höndum, sem allir aðrir, ef þeim endist líf og aldur, að mæta ginningum

og freistingum heimsins. Girndir, fýsnir og ástríður munu að líkindum hrjá þau og hrekja, sem flesta aðra Adams niðja. Að því mun reka fyrir þeim, að þau í baráttunni milli holdsins og andans munu gjöra það, sem þau ekki vilja, og ekki vilja það, sem þau gjöra. — Þá er eini hjálpræðis- og frelsunarvegurinn að leita til drottins í heitri og trúaðri bæn. Hann einn getur lægt ólgusjó girnda og fýsna í mannshjartanu.

Börn yðar munu, sem flestir aðrir, ef þeim endist líf og aldur, mæta aðköstum heimsins, vanþakklæti, kærleiksleysi og vonzku mannanna. Þá munu þau læra að greina sanna vini frá ósönnum, því að »sá er vinur, sem í raun reynist«. En ef maðurinn á þeim þungbæru tímum ekki kann að biðja guð, ef hann ekki getur fundið kjarkinn og þrekið, sem hann þarf á að halda, í eigin brjósti sínu, þá mun hjartað fyllast kulda og biturleik og um leið allt ganga andsælis. Í stríði lífsins bogna allir og gefast upp fyr eða seinna nema þeir, sem eru sameinaðir guði og með trúaðri bæn sækja til hans styrk og aðstoð.

Börn yðar munu, sem flestir aðrir, ef þeim endist líf og aldur, fyr eða síðar finna til hjartanlegrar hryggðar yfir brestum sínum og brotum, finna ásakanir samvizkunnar hrella og skelfa sálu sína. Guð gefi, að þau þá hafi lært að leita til drottins í heitri og trúaðri bæn, því að byrði syndar og sektar getur enginn ljett af mannlegu hjarta nema sigurhetjan frá Golgata.

Ef maðurinn dregur sig á hverjum degi þó ekki

sje nema fáein augnablik, út úr solli og glaum heimsins til þess að nálgast guð í heitri og trúaðri bæn, þá tvístrast skýin, sem hvíla yfir fortíðinni, og framtíðin skapar manninum engan ótta eða kvíða; því bænin sættir manninn við það, sem liðið er, og veitir styrk og hugrekki til að mæta því með óskelfdu hjarta, sem fram undan er.

Dagleg bæn er dagleg endurfæðingarlaug fyrir manninn; þótt líkaminn hrörni, nýtur sálin eilífrar æsku; og einn hinn helzti kostur þeirrar æsku er, að maðurinn er jafnan ánægður með kjör sín.

Mæður! Ef þjer hugleiðið þetta, þá mun yður skiljast, að þeim stundum er sannarlega vel varið, sem þjer verjið til þess að kenna börnum yðar að biðja guð. Á þeim stundum gróðursetjið þjer guðsríki í sálum þeirra og kennið þeim að leita hins sanna friðar og finna hann, er ófriður heimsins mæðir þau og þreytir; þjer leiðið þau þá að lindum lífsins og ljóssins.

Satt er það, að lífsleiðin er bæði hál og myrk; en bænarorðin, sem vjer lærðum af vörum hennar móður okkar, veita oss bæði styrk og ljós; það er jafnsatt.

Þegar búið er að vekja hjá barninu þekkinguna og trúna á sannan guð, þá er hitt engu síður nauðsynlegt, að vekja hjá því lotninguna fyrir guði. Því verða foreldrar og húsbændur að gæta þess vandlega, að enginn heimilismanna leggi það í vana sinn, »að leggja guðs nafn við hjegóma«. Vjer eigum aldrei að nefna guðs nafn nema með auðmýkt og lotningu, og oss ber að forðast sem heitan eld að hafa nafn guðs jafnan á vörunum um

hvern hjegóma sem er að ræða. En því miður »tíðkast þau breiðu spjótin« nú á dögum. »Guð hjálpi mjer«, »Jesús minn góður«, »drottinn minn sæll«, »herra guð komi til« og fleira þessu líkt hrýtur fram úr sumum og enda mörgum eins og hnittileg kringilyrði, hvaða smámuni sem að höndum ber. Börnin heyra þannig stundum foreldra sína og fullorðna fólkið nefna nafn guðs hlæjandi og flyssandi, já, rjett í sömu andránni, sem það snarar fram þessum hreystiyrðum: »Fari það bölvað«, »fjandakorninu«, »rækallinn hafi það« og annað þaðan af verra. En geta má nærri, hvort þetta og þessu líkt muni auka og efla lotningu barnanna fyrir guði! Um það þarf ekki orðum að eyða.

En auk þess sem það er syndsamlegt, að leggja nafn guðs við hjegóma, þá er það jafnan vottur um menntunarleysi og auðvirðilegan hugsunarhátt. Siðaður og menntaður maður vanhelgar ekki nafn guðs, enda þótt hann sje vantrúaður.

Barnið þarf að læra að þekkja guð og bera lotningu fyrir honum; en það þarf og læra að gjöra sjer rjetta hugmynd um guð. Sumir sálmar vorir eru einkar-vel lagaðir til þess að kenna börnum að gjöra sjer rjetta hugmynd um drottinn. Viljum vjer t. d. benda á þessi vers:

Ó, sjá þú drottins björtu braut,
þú barn, sem kvíðir vetrarþraut,
í sannleik: hvar sem sólin skín
er sjálfur guð að leita þín.

Því hræðst þú ei, þótt hjer sje kalt
og heimsins yndi stutt og valt,

og allt þitt ráð sem hverfult hjól,
í hendi guðs er jörð og sól.

Hann heyrir stormsins hörpuslátt,
hann heyrir barnsins andardrátt,
hann heyrir sínum himni frá
hvert hjartaslag þitt jörðu á.

Í hendi guðs er hver ein tíð,
í hendi guðs er allt vort stríð,
hið minnsta happ, hið mesta fár,
hið mikla djúp, hið litla tár.

Í almáttugri hendi hans
er hagur þessa kalda lands,
vor vagga, braut, vor byggð og gröf,
þótt búum við hin yztu höf.

Hjer á landi er alstaðar til sveita siður að lesa guðsorð á hverju kveldi frá veturnóttum til páska og mjög víða frá páskum til hvítasunnu. Þetta er fagur og góður siður, sem vonandi er að ekki leggist niður. En vel ber að gæta þess, að lesturinn verði ekki að eintómum vana. Börnin eiga að heyra og sjá fullorðna fólkið fara með guðsorð með alvöru og lotningu, sjá það tigna og tilbiðja guð af einlægu geði og sannri trúarþörf. Þá munu þau og læra að lesa guðsorð og hlýða því með kristilegri eptirtekt og einlægri löngun til að láta það verða sjer til blessunar. Það er fagurt að sjá allt heimilisfólkið safnast saman að kveldi hvers dags, er öllum störfum dagsins er lokið, sjá það með einum huga taka guðsorð sjer í hönd, heyra það með einum róm þakka drottni fyrir vernd hans og varðveizlu, vegsama hann fyrir náð

hans, lofa hann fyrir kærleika hans og biðja hann um hlífð hans og gæzlu framvegis. Þau börn, sem venjast slíkri guðsdýrkun í anda og sannleika, frá því er þau hafa vit á, læra að tigna og tilbiðja guð af hug og hjarta.

Sunnudagurinn er bæði hvíldardagur og helgidagur. Hann á jafnan að vera hátíðlegur öllum kristnum mönnum, og hann getur verið það, ef menn vilja. Sunnudagurinn á fremur öðrum dögum að vera helgaður börnunum. Rúmhelgu daganna höfum vjer öll störfum að gegna og getum þá ekki sinnt börnunum eins og vjer vildum og þörf væri á. Þessa vanrækslu rúmhelgu daganna eigum vjer að bæta upp á sunnudögunum; þá eigum vjer að veita börnunum saklausa skemmtun, skemmtun, sem miðar til að glæða hjá þeim sanna ánægju og hreina gleði, og kærleika til foreldranna.

Sunnudagurinn á að vera dagur sátta, friðar og kærleika á hverju heimili. Það, sem mönnum hefir ef til vill borið á milli liðnu vikuna, á þá að vera gleymt; þó einhverjar snurður kunni að hafa komið á sambúð manna, þá á það allt að vera sljett og fellt á sunnudögunum.

Sunnudagurinn er sannur helgidagur. Þá ómar klukknahljómurinn um láð og lög, blíður og hreimsætur sem englasöngur, laðandi hverja góða mannssál til lofgjörðar við drottinn. Þá opnast guðshúsin og bjóða öllum að koma og þiggja frið fyrir sálu og hjarta, svölun og endurnæringu af lindum lífsins. Þá beygja þúsund sinnum þúsundir kristinna sálna holdsins og hjartans knje fyrir konungi konunganna.

Þeir eru að vísu sumir, sem ekki þykjast hafa

neitt verulegt gagn af kirkjugöngunni. En hvað sannar það? Optast það eitt, að þessir menn koma í kirkjuna með öðru hugarfari en vera ætti. Þó ekki vakni nema ein góð hugsun og tilfinning í sálu þinni meðan þú ert í kirkjunni, þá er kirkjuganga þín ekki til ónýtis. Í kirkjunni finnur maðurinn glöggast og ljósast, hvað hann vantar og hvers hann hefir þörf, og þar finnur hann um leið fremur en annarsstaðar það, sem eitt getur bætt úr þrá hans og þörf.

Meðan börnin eru á óvitaskeiði, eiga þau lítið erindi í kirkju. Kirkjan er ekki handa óvitum, heldur handa þeim, sem bera skyn á hin guðlegu sannindi, sem þar eru höfð um hönd. Þegar börnin hafa fengið þekkingu á aðalatriðum kristindómsins, þá er í rauninni kominn tími til að þau fari iðulega að sækja kirkju.

En sje unglingunum nauðungarmál að fara í kirkju, þá er það mikið efamál, hvort rjett er að neyða þau til þess. En ef börnin venjast frá því að þau hafa vit á þeirri guðsdýrkun í heimahúsum, sem vjer höfum áður minnzt á, þá þarf ekki að kvíða því, að þeim verði óljúft að fara til kirkjunnar. *Innrætið því börnunum þann sannleika, að kirkjugangan veitir mönnum það hnoss, sem ávinningur er að höndla; en forðið þeim frá þeirri hugsun, að hún sje einungis skylduverk, sem beri að klína á nafni, svo að menn ekki gjöri sig öðrum fráhverfa.* Það er engin von til að börnunum og unglingunum verði kirkjugangan hjartanlegt áhugamál, ef þau eiga því að venjast, að fullorðna fólk-

ið sæki kirkjuna bæði sjaldan og illa; virðist engin þörf á að færa sönnur á það mál.

Nákvæm þekking á heilagri ritningu er hin sannasta og nauðsynlegasta undirstaða kristilegrar menntunar.

Vjer höfum opt áður minnzt á rökkurstundirnar, og það gjörum vjer enn. Notið þær meðal annars til þess að segja börnunum sögur úr heilagri ritningu. Segið þeim af Adam og Evu, af Abraham, Ísak, Jakob og Jósef o. s. frv. En segið þeim einkum af Jesú Kristi, hvernig hann elskaði alla menn, blessaði börnin, gjörði öllum gott og græddi alla; segið þeim af kærleiksboðorðinu, sem hann brýndi fyrir öllum mönnum; segið þeim af fæðingu hans, lífi hans, pínu hans og dauða, upprisu hans og himnaför. Segið börnunum þetta með alvarlegum, en þó einföldum orðum, orðum, sem þau skilja og sem rata rjetta leið inn í hjörtu barnanna; segið frá þessu á þá leið, að kærleikurinn skíni út úr allri frásögninni og hverju orði. Segið frá þessu á þá leið, að börnin hafi skemmtun og ánægju af að hlusta á það; þá mun það festast í hjörtum þeirra og bera ávexti með komanda tíð og tíma.

Það er ekki auðið að lýsa því með fám orðum, hvílíka blessun að heilög ritning hefir veitt mannlegu hjarta bæði fyr og síðar. Það er ekki að ástæðulausu, að beztu menn þjóðanna hafa elskað hana og metið hana öllum fjársjóðum dýrari.

Þegar unglingarnir hafa fengið kristilega menntun og kristilegt uppeldi, þá ganga þeir út í heiminn og um leið út í baráttuna við syndina og van-

trúna. En þegar á þann hólm er komið, þá skiptir mestu fyrir manninn, að sameining og samfjelag hans við guð slitni ekki. Ef maðurinn hefir *reynt* það, að bænin bætir hann sjálfan og dregur hann að guði, veitir honum huggun í hörmungunum og styrk í þrautunum, þá getur ekki vantrúin glapið hann; meira að segja, honum er þá ekki búinn voði, þótt hugmyndir hans í trúarefnum sjeu eitthvað á aðra leið á fullorðinsárum en í æsku. Reynslan kennir honum þá, að trúin er í eðli sínu sæla, friður og hvíld í guði sjálfum; en reynslan verður ekki hrakin.

Hugmyndir vorar um guð verða einlægt meira eða minna mannlegar og barnalegar. Sá einn, sem finnur til návistar guðs í hjarta sínu, er sannarlega trúaður; því hann er í guði og guð í honum.

Vjer endum þenna kafla með sömu orðum, sem vjer höfum áður lagt áherzlu á í fyrsta kaflanum: Ætlunarverk foreldranna er að gjöra börnin sjálffær.

Feður og mæður! Þegar þjer hafið lagt barnið yðar við föðurhjarta guðs, þá, en ekki fyr, er ætlunarverki yðar lokið; þá getið þjer sleppt af því hendinni, því að þá, og þá fyrst, er því óhætt.

Þegar jeg á kveldin er kominn í rúmið og mjer verður litið á barnið mitt, sem sefur í vöggunni sinni fyrir framan rúmstokkinn, áhyggjulaust, með sakleysisrósirnar á kinnunum, þá grípur mig opt ósjálfráður ótti og mjer verður hugsað á þessa leið: »Blessað barnið mitt! þú þekkir ekki heiminn, sem fram undan er. Guð einn veit, hverjar hættur bíða þín. Hætturnar eru margar og miklar; en

mestur voði er þjer búinn af *syndinni*. Hver á að vernda þig og varðveita, hver á að aðvara þig og leiðbeina þjer, þegar þú stendur einmana í lífinu, og faðir þinn og móðir eru köld og komin í mold?«

Feður og mæður! Leiðum börn vor í föðurfaðm guðs. Þeim, sem guð verndar, má ekkert granda.

---

*Aths.* Erindið á bls. 80 er eptir Jónas Hallgrímsson; erindin á 100. og 101. bls. eptir Helga lector Hálfdánarson, og á 149.—150. bls. eptir síra Matth. Jochumsson.

## Eptirmáli.

---

Bók þessi er frumrituð á hollenzku af manni þeim, er Dr. Ritter heitir. Er jeg hafði lesið hana, gazt mjer svo vel að henni, að jeg vildi koma henni á íslenzku. Sem geta má nærri, varð jeg sumu að sleppa, og öðru að breyta; líka varð jeg ýmsu í að auka, til þess að hún gæti átt við hjer á landi.

Með þeirri von og ósk, að hún geti vakið einhverja foreldra til að hugsa um sanna heill barna sinna, læt jeg hana frá mjer fara.

Arnarbæli, 28. apríl 1894.

ÓLAFUR ÓLAFSSON.

---

